# MEDITATIONES TRIUMPHALES.

EDUR

# Sigurhroos Hugvekiur,

Ut af
Dijrdarlegum Upprisu Sigre vors Drottens JESU CHRISTI i Fiorutyge Capitulum, epter þeim Fiorutyge Upprisu Psalmum.

Samanteknar
Af Sal. Sr.
**Joone Joons Syne.**
Sooknar Preste til Hvols og Stadar-Hools.

Seliast Innbundnar, 15. Fiskum.

Þrycktar a Hoolum i Hialltadal,
Af Petre Joons Syne, 1778.

1. Cor. 15. v. 14.



Ef Christur er ei aptur upprisin, so er vor Predikun Onijt, þa er og ydar Trw Onijt.



# Inngangurinn.

## 1. Cap.

MJJN Saal! Nu er þiñ æstrijke Brwdgume JEsus af Daudanum upprisenn, og hroosar sætum Sigre yfir Synd, Dauda, Diofle og Helvijte, þvi skulum vid nu og, hverium þetta blessada Sigur-Verk bodast, upprijsa med glødu Hiarta, fagnande Hugskote, og hroosande Twngu, Jaa, aller Innre og Ytre Kraptar ockur af DRottne meddeilder, skulu nu samfara verda i þessu andlega og blessada Sigur-Hroose, þvi þad er hinn meste Saalar Føgnudur, Under-Root og Uppbyrian eilijfs Fagnadar ad hafa (efter Raadum St. Paals) JEsum i Miñe, sem af Dauda er upprisenn. Vid hofum, Saal mijn, a umlidnum Tijmum med sorgande Guds Bornum, maatt sorgande horfa a þann giegnumstwngna, alblodugá, følnada, og sijdann i Grøfina nidurlagda JEsu Lijkama, og miñast vid hañ med Taara-blondudum Kosse, þar ed sin Lirra

Riettlætis Sooleñ JEsus, edur hennar stoora Guddooms Byrta yfirskyggdist i æred miklu Kvala-Myrke, og ood þau sorglegu Sky hiñar sarustu Pijnu, vard lijka so wtlijtande sem hid raud asta Blood, rañ under med soddañ Litar Hætte, og huldest i Daudans Hafe um þriar Daga. Þesse Harmur er nu af-þerradur, mijn Saal, þvi nu er þesse hin sama Riettlætis og Glede-Soolinn JEsus, med fegrum Morgun-Liooma uppriseñ: Þetta blessada DRotteñs Hiaalpræde maattu nu fagnande skoda, mijn Saal, med odrum fagnande Guds Bornum. Gledium ockur þvi af ollu Hiarta, Jaa, þier Himnar gledied ydur, og þu Jord fagna þu, Ps.96. v. 11. Fagna þu dijrkeypta JEsu Brwdur, þvi skylldt er oss nu ad fagna mz Englunum oss hier yfir samfagnande. A Krossinum fridþægde JEsus oss aumar Mañeskiur vid sinn Himneska Fodur, med sialfs sijns Foornfæringu, eñ nu er, Saala mijn! þesse þiñ Astvinur augliisstur i sijnum mikla Guddooms Krapte, og þetta Leoned af Kyne Juda hefur Siguriñ uñed aa Synd, Dauda, Diofle og Helvijte, Open.5.v.5. Hañ byriadi Strijded edur þessa Hoolmgaungu med Sorg og veiklegre Asijnd, enn endade med Hreistifullum Guddooms Sigri; Hañ doo fyrer Synder vorar, eñ uppreis oss til Riettlætis, Rom.4.v.25. Og um þessa hañs Upprisu lister mig nu ad tala.

Þar til veit þu O JEsu Fulltijnge þijns H. Anda, so eg af þier frelssadur, mætte þvi Frelse med

riettri Endurminningu fagna, AMEN.

# Textenn.

NOg er Sabbats Daguriñ var lideñ, keyptu þær Maria Magdalena Maria Jacobi og Salome Dijrdleg Smyrsl, ad þær kiæmu og smyrdu JEsum.

Hier af skalltu læra, mijn Sæl, ad heidra blessud Bodord þijns HErra, þvi þau eru þijn Lijfs-Regla, efter hverre þu skallt þier hegda, og vijkia þar hverge frá til hægre nie vinstre Handar.

Þo nu Lögmalid sie sa deydande Bookstafur, þa þienar þad þier þo, ef þu þad vel athugar, i þvi ad þad þreinger þier ad leita þijns JEsu, lijka sem sarum Mañe þienar Verkur og Slæmleike Saar sins til ad leita sier Lækningar, eins rekur og Lögmalid þig (af hveriu þu sier þijnar Illgiorder, og þeirra forþient Laun) til Saraña JEsu, so þu fiñir i þeim Lækning, Frelse og Fyrergiefning Syndaña, þvi þiña vegna hefur hañ uppfyllt Lögmaled, og ef þu trwer a hañ, er a þier engeñ Fordæming framar meir. Eg er, O þu goode JEsu, eitt Ohlijded Barn, og i ollu goodu nærsta ofullkomeñ, samt fiñ eg allt þad sem mig vantar i þiñe Hlijdne, hun giorer mig af ranglatum Illgiorda Mañe riettlataañ: Og allt hvad Lögmaled kañ af mier ad wtheimta, þad hefur þu fyrer mig borgad og uppfyllt. Seige nu Lögmaled til mijn, þu ert sekur, þa er eg þo i þi-

er og fyrer þig ſaklaus; Lꜳt mig i þvi Sakleyſe þi-
er ætijd þioona, enn þiju Myſkun væge mijnum
Veikleika. Dygda Dæme þeſſara Kvenna, ſij-
ner oſs enn framar, ad oſs byrie ad taka vel Vara
ꜳ Bodorde DRotteñs um̃ hañs Hvijldardags
Halld, ſo ad þu halldir hann riettelega, epter Jñe-
hallde þeſs Þridia Bodords; Þvi þo ſierhver Da-
gur ſie DRotteñs, þa nefner hañ þo ſierdeiles ſinn
Dag þann Siounda Dag Vikunnar, þeſs ſkallt
þu giæta, Gud vill ecke, ad þu ſkuler fremia ꜳ hon-
um nockurt Naudſynialauſt Erfide, allrä ſijſt þad
ſem Oſæmelegt edur Otierlegt er, og vit fyrer vijſt,
ef þu hier i moote giorer, þa vill hann þeſs ꜳ þier
hefna; þad þu þárft ad viña Holldlegrar Naud-
þurftar vegna, þad gior þu ꜳ þeim Sex virku
Dogum, þar til meiga þeir nægia, þo þu taker ei
med hier til þañ Siounda Dageñ frꜳ Gude, þvi
hañ ꜳ äd þiena Naudþurft Sꜳlar þiñar, heñar
Gagns og Gooda ꜳttu þa hellſt ad giæta, i þvi ad
heyra og ſtunda Guds Ord rækelega, og ſaña Yd-
ran og Yfir-Boot giora, fyrer allt þad ſem þier hef-
ur ꜳorded ꜳ þeim ſex virku Dogum. Fordaſt
ſkalltu og ſterklega þañ vonda Oſid ſem nu, þvi
verr! æred rijkt yfirgeingur, ad ſumer, Jꜳ, allt of-
marger, taka þeñann Dag hvad hellſt til ymislegs
Leikfꜳngs, og ſkiemta Hollde ſijnu ꜳ honum med
ymſum Leikum, Spilum og Table, lijka og med
Ohoofe og Dryckiuſkap, ſamt fleiru ſoddann efter
þvi ſem þa lyſter, hverium Lyſtingum DRott-
enn

eñ hefur fyrerboded ad efterfylgia, Eſ. 58. 13. þvi ablar þad ſañlega Skada og Hegningar, þo ſcaer vilie þvi ſiña: Eda ſeig fram̃, hvad fyrer Gud dyrkar þu med þeſſu? Andſvar, þijns Hollds og Bloods Vilia, og þeſs Giaalijſt, hvert þier er þo ſkipad ad Kroſſfeſta, eñ ei þañig raekia, ef þu villt añars heyra Chriſts til: Edur hverneñ villtu ſkilia þeñañ DRottens Urſkurd? Ef þier lifid epter Holldenu, þa munud þier deya, eñ ef þier deyded fyrer Andañ Holldſins Gyrnder, munud þier lifa, Rom. 8. 13. Þeſſu og ødru fleyra ſlijku vill Dioful Holld og Heimur laata under Stool ſtijnga, eñ þad faer um̃ ſijder ad byrtaſt. J einu Orde ad ſegia, villtu þeſs liſanda Guds Bleſſunar nioota baede hier og ſijdar, ſtunda þu þa til, ad ſaa nidur aa þeſſum DRottens Dege, ſem alltijd, þvi gooda Saede ſañrar Ydrunar og hreiñar Trwar, þa munt þu og þitt Erfide bleſſaſt aa þeim ſex efterkomande virku Døgum, og Alldin goodra Verka uppſpretta.

Goode JEſu, eg veit eg ſae ecke duliſt fyrer þier, þu veitſt allar mijnar Athafner ſem aered margar eru, ſo i giegn þeſſu þijnu Bodorde, ſem øllum ødrum; Forlaat mier þaer miñ Gud, og hiaalpa mier fyrer þijna Forþienuſtu med Krapte og Verkañ þijns H. Anda, ſo þiñ Hvijlldar-Dag hallda hier i Naadeñe, ad mier med øllum Guds Børnum hlotneſt ad hallda eilijfañ Hvijldar og Glede-Dag i Dijrdenne, Amen.

# 2 Capitule.

Um̃ Tijman̄ oc hverium DRotten̄ uppreis.

EN ad Morgne Sabbats-Dagsins, sa er heitt hin̄ Fyrste Heilagur Dagur i Sabbats Dogunum, kom Maria Magdalena, og hin Onnur Maria ad sia Grofena.

SAla mijn! Hier af maattu sioa Upprisu Tijma þijns HErra, sem var hin̄ Þridie Dagur efter hanns Dauda. A Adfangadags Kvollded var hann af Joseph i Grofina lagdur og hvijldist hann þar hann Fyrsta Heatijdis Dag allann, ad hvers Kvolldi ad Kvinnurnar komu ad sia Grofena, so sem hier segist. Og sær þu hier af ad sia, ad Lausnarinn uppreis ecki a Gydingan̄a Sabbats Degi, sem nu er vor Laugardagur, helldur hvijldist þa hin blessada Saal vors HErra i Hondum sijns himneska Fodurs, en̄ hanns heilaga Hollld i Grofin̄e, og Guddoomsins Tign hvijldist i Holldinu, Col. 2. v. 9. Mijn Saal, eptir þad vid hofum ad vilia DRottin̄s, Eymder og adskilianlegt Anstreimi afstadid hier a Jordunni, faaum vid fyrir ockar JEsum eilijfa Hvijld og Roosemi, þar til skulum vid fagnande og þolin̄mood hlacka i Pinaingunni. Hitt er og stoor Fognudur, ad Gud sialfur hefur hier Hvijld i ockur Fridþægdum vid sialfann sig, og þar fyrir, fyrst Gud er med, hver kann

kann þa ad vera ꝏ mooti? Þu ꝏtt og mijn Sꝏl Hvijldar-Stad vijsann, lijka vel um̃ þeñann ockar Samveru Tijma, i Hiarta og Sꝏrum þijns HErra, þadann hefur hann ockur hwngrud hijngad til alldrei hrakid, þo Overdug verid hofum þess Heimkynnis, hañs mikla Mÿskun mun og hier eptir eins sinnud vera. Lijkaminn mun og ødlast ad Skilnadi, sijna Hvijld i Grofinni, Es. 26. v. 20. Jꝏ, Lijkamleg, Andleg og Eilijf Hvijld, er Guds Bornum afrekud fyrer JEsum Christum Ebr. 4. v. 9. Arla Morguns, hinn fyrsta Dag Vikuñar, uppreis vor HErra af siñi eigiñ Guddooms Magt, eins sem hann fyrersagt hafde; So skulum vier vijst vita, ad alldrei raskast Ord DRottiñs, og þad hañ ꝏsett hefur, fꝏr ad hafa sitt Geingi. DRottinn miñ! Eg treysti þijnum Ordum, veit og trwe fyrer vijst, ad oll þijn blessud Fyrirheit hafa fullañ Stad, Psal. 33. og nꝏ til mijn, hvꝏrsu sem mier kann synast Ovꝏnlega ꝏstanda, i þeim er Eflaus Sañleikur, Otvijlug Rꝏd, Obrigdannlegt Traust, og Endalaust Hiꝏlprꝏdi øllum Trwudum.

Þess er og hier ad giꝏta, ad sꝏ Jlmsꝏti Sigurvegarinn JEsus villde ecki undañdraga sijna Upprisu allt fram̃ ad Kvølldi þess Þridia Dags, so ei kꝏlldu hanns sꝏrt harmande Astviner bijda hañs allt til þess Dags Kvølld-Rockurs huggunarlauser, þar fyrer uppreis hann Ardeigis, edur um̃ fyrstu Apturelldíng. So er ad lijsa miñ goode JEsu epter, þijnu Nꝏdarfullu Hiartalage, þijn

Myskun þoler ecki laangann Undanndraatt, i þvi ad hiaalpa aumstoddum Mañi i hans Hrygd og Vesoold, Es.65.v.24. Þier þreingir þijn Elska til ad hiaalpa oss nærsta Astlutum, vier drogum þad opt undañ marga Daga, ad giegna þier og þijnu Kalli, Ja, morg Ar, lijka vel marger af oss allañ siñ Alldur: O Gud naadi slijkt! Eñ so er þessu Ojafnt skipt fyrir þier og oss, ad Vonum, ad þegar vier balstijruger Syndarar loksins kollum til þijn harmande, þo af þijnu eiginn Tilstille tilknwder, þa veitist oss opt þijn Huggun aadur enn vier kunnum ad vænta hennar, og aadur eñ vier hroopum er Eyrad þitt fyrer opid til ad heyra, vid vora Fyrstu Hugar-Angist er strax opt til Reidu hiaa þier hin sætasta Hugsvolun, vid þau Fyrstu Taar Ilmande Huggun, og strax, sem fyrer oss hallast tekur, naakvæm Hiaastod og Vidrietting; Enn virdist oss ad þu þetta uñ eitt Augnablik undanndragir, er Haalsiñ strax moodur aadur ad hroopa, Syniñ forgeingiñ, og saar Kvortun yfer þvi, ad vier saaum so leinge epter þier ad bijda. So sem þad nu, minn liwfe HErra, ad Prijr Dagar voru yfer þier aliktader, af hverium saa Eini var þiñ Pijsla-Dagur, Annar þinn Hvijldar Dagur, og hiñ Pridie þiñ Upprisu-Dagur; So aa eg og i lijkann Maata Pria Daga fyrer Hondum; Saa Eine er nu yferstandande, sem er mijn Hiervist i þessu auma Lijfe, þad er saa Erfidis Dagur, aa hverium Saal og Lijf þiaist, og þo mier Þolgiædis-naumum finnist hann opt

saugur,

længur, þa veit eg samt, ad eg kann ecki ꝏn Hörm-
unga og ymislegs Mootgꝏngs i Guds Dijrdar-
Rijki iñ ad komast, Act. 14. v. 22. Hier framdr-
egst mitt auma Lijf med Sorg og ymsre Astrijdu,
allt þar til þad fær Enda med Daudanum, hver-
ium, nær kiemur, eg vil i JEsu Nafni feigiñ filgia,
og uppꝏ þad ad hañ þieni mier þa til goodra Um-
skipta, vil eg til þess Tijma, eptir þiñi Velþocknan,
miñ sæti HErra, filgia þier eptir, og allt þad þola,
og lijda sem þu villt ꝏ mig leggia, sie ad eins þinn
Kraptur i mijnum Breiskleika mꝏttugur, so er
eg viss uñ Sigurinn. Sꝏ Añar Dagur er miñ
og añara daudra Maña Lijkama Hvijldar-Dag-
ur i Jördüñi, nær þo Guds Barna Sꝏler, hvijla
i Höndum DRottinns og einginn Pijna snerter
þær, Sap. 3. v. 5. Hiñ Pridie er vor Upprisu Dag-
ur, öllum Guds Börnum Eftirlaungunarsamur,
ꝏ hverium vor Lijkame sem hier er ad Dupte ord-
inn, upprijs i Krapte JEsu Upprisu, Andlegur,
Oforgeingilegur og Vegsamlegur, Lioomande og
Dijrdlegur, 1. Cor. 15. v. 14. Soddañ Fagnad-
ar rijk Umskipti eru þa feingiñ, þar epter længar
opt Hiartanlega mijna Sꝏlu, sw Laungun mun
og uñ sijder uppfyllast. Hier ad auk er þad athug-
andi, ad ei villdi JEsus ꝏ Gydingaña Sabbats-
Degi upprijsa, helldur ꝏ næsta Degi þar epter,
hvar med hann uppbyriade Sabbats-Dag Nya-
Testamentisins, sem nu er Guds Börnum bodad-
ur, og af sialfs Christs Postulum tilskickadur i

Minning JEsu Dijrdarfullrar Upprisu,og er þad nu vor Sunnudagur,edur Fyrste Dagur vorrar Viku, sem og riettilega kallast DRottinns Dagur,ꝍ hverium sierhvor christenn Madur ꝍ sig vel ad vanda,og þeñañ Dag helga Gudi til Dijrdar, og Sꝍlunni til bestu Nota; Og lijka sem þiñ og miñ HErra, christenn Madur, uppreis dijrdlega ꝍ þessum Degi,so eigum vid ꝍ honum fyrer sanna Ydran og Yfirboot Andlega ad upprijsa, ef sꝍ eilijfi Daudi skal einga Magt yfer oss hafa.

O minn Elskulegaste HErra JEsu, hiꝍlpa þu oss ollum riettilega þitt Sabbath ad hallda og helga, hier i þijnu Nꝍdar-Rijke,so ad vor Sꝍl nꝍi siñi riettu Hvijld i þier,og þu hvijler i vorum Hiortum ꝍtijd og Æfinnlega, AMEN.

## 3. Capitule.

Uñ Utgaungu Kvennanna til Grafarinnar.

OG miog sneiña ꝍ þeim fyrsta Dege Vikuñar, þa ed eñ var myrkt, komu þær til Grafariñar med dijrmꝍt Smyrsl, er þær høfdu tilbwed, og nockrar med þeim.

Af þessum Kviñum mꝍ siꝍ eitt auglioost Kiærleiks Merke, ad þær, sokum siñar heitu Elsku til JEsum, lietu sig eckert hindra, og eingañ Hꝍska hræda frꝍ þvi ad vitia hañs blessada andvana Lijkama, er þær meintu so vera, og þad Ardeiges

ꝍn

can allrar Qvalar. Vilier þu i sama Maata, mijn Sáal, naa Samfunde þijns elskulegasta Uñusta JEsu, og niioota hñs Elsku og Unadsemdar, enn frelsast fraa Guds Reide og eilijfre Fordæmingu, þa skalltu strax aa þijnum Æsku-Alldre leita hanns, hafande hañ og hanns Bodord i Hug og Hiarta, enn hafna Holldsins Glaum og Giaalijfe. J Añañ Stad, miñstu þess hvern Morgun aan allrar Gleymsku og Forsoomunar, ad þu af innstu Hiartans Alwd, og yfer allt fram̃ fyrst leiter þijns Guds med Bænahalldi, Matth. 6. 3. Akalli og Þackargiord, Phil. 4. 6. hveriu ef þu ecki gleymir, mun þier blessudum blessast Himin og Jord, og allar Guds Gaafur, samt Verk og Yдni. Eñ framar skalltu leita Drottins, med sneṁgiordri hreiñi Yдran og hræsnislausre Yfirboot Syndanna, aa þeim þægilega Naadar-Tijma, medann DRottenn er ad finna, Es. 55. v. 6 og hanns Omælañleg Mysku og Þoliñmæde bijdur eptir þier; Ad ei wtbreide hañ forgiefins til þijn og i mooti þier sinn Naadar-Fadm, þvi ef þu þetta þriootskusamlega undanndregur, kann þier naumt ad verda Hlid saññrar Yfirbootar, þvi Yдran sein er siallдann hrein, enn þad er vijst ad DRottinns Naad endurnærir þig, ef ei mootstendur honum og hañs Hiaalprædis Verki; Nu er saa þægilegi Tijminn, nu er Dagur Hiaalprædisins, 2. Cor. 6. v. 2. Giæti þess hver einn, sem finna vill Rwm sannrar Yдrunar. Jaa, sierhver skyllde med sier þenkia

ad

ad torvelldt verda kunne i sijdurstu Daudans Neid,og Angist Andarslitrana ad JEsu riett ad leita, og hann finna, med þvi þa kann margt fyrer tesia, lijka kann Daudin so hastarlega ad heimsækia, ad sea seai eckert Svïsa-Rwm hier til, sem þad hefur til þess Tijma hyrdulauslega undandreigid, so sem verdi allt þetta i Radleisu. O hvad hæpid er þad þa O Madur! Ad eiga allt þetta Ogiort under Bidlund þessa bitra og bræda Dauda, hia hverium ei fæst Frestur um eitt Augnablik! þvi eg vil hallda ad þad eina Eptirdæmi þess ydrande Ræningia, Luc.23.v.43. leide ecke alla inn i Himnarijki; Og þvi segi eg enn, Ovijs er Dauda-Stundin, ei skal þier ad treysta þar uppaa ad þu eiger sem Skylldu-Skatt alltijd Nad Drottins vijsa, hvad lengi sem þu hana foraktar,og undandregur hennar leita; J soddann Sioo sier ad voga, er hid mesta Hæska-Spil, þvi hvad odrum hefur ad Slisi ordid, er Uggvænlegt þier verdi ad Glisi, Drottenn lætur ecki ad sier hæda, Gal. 6.v.7. O þu Astrijke HErra JEsu! Margar og hardar Harma-Skurir dynia yfer þijn Born i þessum Heime, i hverium þau hroopa til þijn; O hvad miog lengar þa Hiartad epter þinne Naavist! Þad er Þolgædisleysi mijnu ad kienna, ad so laangvinn finnst Bidinn,og þo mier synist edur finnist sem þu þegir vid mier, og lætir sem þig vardi ecki um Trega mijns Hiarta, þa er þad meir enn verdskulldad, þvi mijnar Odygder og Jllsku-Verk hafa maklega giort

ort Adskilnad a millum þijn og mijn, Es. 59. v. 2. Þar fyrer maa eg graata, og eck hef eg ad vænta nockurs Fagnadar edur Hugsroova, Jaa, engrar Glede-Stundar, sae eg þig ecke aftur funded, þvi bid eg þig audmiwklega, miñ Hiartans Herra, laat þu mig ecki til Laangframa forgiefens efter þier leita i mijnum Mootgaange og Mañraunum, þvi so er þijn Millde nærgiætenn, ad þu veitst best hvad saart þad Sverd bijtur, efter þvi þu ert sialfur a allañ Haatt freistadur, þu veitst hversu ad allt Þol og Þrek vill þa i burt reña, þu veitst hvad Magnlaus Trwar-Hondenn vill þa verda, einkannlega hiaa mier hinum vesælasta Orme, sem aadur er nærsta snaudur under, af ollum goodum Dygduln, so þessum sem odrum. Kom þar fyrer þu goode Hyrder, kom og leita efter mier, tak þu mig ad þier, aadur enn eg verd þeim illu Vergum olldungis ad Braad og Herfaange, þvi hver er saa i Helvijte ad þier segie Þacker?

Þad er hin hærsta Glede ad finna til Naadar-Naalægdar þinnar, O JEsu, og faa af þier Forsmeck eilijfs Lijfs, eñ hvad er hryggelegra eñ missa aftur þad sættmackande Saalar Hunaang? Ad vera so gott sem uppnumeñ med Sancte Paale i hinn þridia Himen a eiñe Stundu, enn sockva nær þvi til Helvijtis a añarre, 2. Cor. 12. v. 2. O Nottenn minn JEsu, eg leita, nær þess orka, efter þier af ollu Hiarta, leita þu aptur efter mier minn Gud og Fader, og laattu oss þijnar harmande Unga-Ski-

epnur

epnur alldrei Sioonar missa a þier, Þu Astrijkasta Mooder, hverke hier nie sijdar, Amen.

# 4. Capituli.

Um̃ Kvennan̄a Eyrende til Grafarin̄ar.

ÞEirra Eyrende var ad smyria JEsum, (sem Texten̄ adur skijrer).

ÞEssar Gudhræddu Kvinnur fylgdu DRottne, fyrst efter wr Galilæa til Jerusalem, wt af Jerusalem, til Astoku-Stadarins, þær voru vid han̄s Andlaat, og ad sijdustu fylgdu þær hønum til Grafarinnar, saau hvar og hvernen̄ han̄s Lijkame var lagdur. Nu færa þær med sier fullar Krwser af Smyrslum, enn samt voru þeirra Hiortu fyllre af Elsku og Ast til JEsum, sw var Ordsøkenn, ad þær sporudu engvan̄ Kostnad, og tøldu hier a engvar Tormerkiur, hverke i Smyrsla Utveganinne nie Um̃kostnadenum: Soddan̄ Art og Naatturu hefur Kiærleikuren̄, þar sem Mun̄-Elskararner telia a allar Tormerkiur, lijka sem hinn late afletur Verknaden̄ og Ydnena. Ei kunnu þessar goodu Kvinnur an̄ad ad Jgrunda, enn þad Frelsarinn være nu Andvana hvijlande, og sijst þeinktu þær han̄ munde lifa, samt lifde i og hia þeim Kiærleikurinn og Elskann til JEsum, soddann Kiærleiks-Dygd var ein sw hin mesta; Þu Madur, skoda þig hier so sem i odrum Speigle. Vier erum full-frooder ordner um̃ þad, minn JEsu, ad þu siert

fraa Daudum uppriseñ, lijka med sætum Sigre til Himins uppfareñ, og siert þar vor Astrijkur Fyrerbidiare, ei ad sijdur er nu Elskañ til þijn wtslokenn aa medal margra, Matth. 24. v. 12. O þad hormulega Stand! O þessa vondu Tijma aa hverium vier nu lifum! Eg skamast mijn þo ei sem vert er, nær eg hugleide Dygda-Dæme þessara Kveña, þvi þo eg med Ordunum lææsi tala nockud um þijna Elsku, og ræde ødrum hana ad stunda, þa vill hun nææslega i engvu goodu Verke sig auglijsa aa mier: Hvada Nafn tilheyrer mier þa, añad enn heita eiñ Hræsnare? Hvers Doomur i þijnu Orde mier er og til Eyrna komenn. O JEsu, væg þu þessum mijnum hormulega Veikleika, sem øllum ødrum, og fyrergief mier slijkt allt af þiñe Myskun. Þo þesse straxnefnda Dygd skijne fagurt aa Kviñunum, þa var þo hiaa þeim Breiskleike i Bland, Jaa, soddañ eitt Lioos sem dapurt logade, og þurfte Adgiørdar, sem var, ad þær meintu JEsum enn þa Andvana i Grøfiñe, eñ giættu all-lijtt hañs sialfs Orda, sem þær høfdu þo aadur af hañs eigeñ Muñi heyrt, ad hann munde aa Þridia Dege upprijsa. Matth. 16. v. 21. Ad hveriu þær gaafu sig eckert hvert helldur þvi hefur Gleymskañ ollad, edur sin Meining, ad ei munde af þvi verda. So er enn þa ad lijsa efter oss aumum Vesælingum, þvi erum vier so yfirfallner i Mootlætingunum, samt þess i mille hardhnackader i Synda-Jdiunne, ad annadhvert eru gleymd Guds Ord, edur vier trwum
þeim

þeim ecki, hvorttveggia er vondt, þad sijdara þo verra. Þad sijnest, so sem hier hallde æ medal vor Tveir Kappar sijfellda Orustu edur Holmgaungu hiaa sumum, af hverium añar heiter STJRKUR, eñ annar VEJKLEJKJ; so gieck þad og þessum goodu Kvinnum, Elskañ þeirra vard sterk, eñ Trweñ harla veik, og so sem i odru Omeige. Mun þetta ecki lijkt þvi sem Paulus talar um Utvortis Strijd og Baraattu, eñ Jñvortis Otta og Hrædslu, 2. Cor. 7. v. 5. Enn vid þad er sig ad gledia, ad JEsus hefur lofad ad sundurbriota ecke brœkadann Reyr, og wtslöckva ecki lijttlogande Hor-Kveik, Esa. 42. v. 3. Þad er honum nær ad hiaalpa enn wtskwfa, so hefur hañ reynst, so mun hann reynast, hier uppaa skal sig forlaata. O Mottinn miñ JEsu, sem veitst hvad naumt þijn Born eru opt stodd aa Trwarinnar Veige, so og hversu ad sa sigtande Diofull forsoomar sig ecki ad leggia ymsar Snorur i Veg fyrer oss, O hiaalpa þu oss ollum ad vor Trw til þijn, bili ecke, og þa sijst nær tæpast er komed vorum Efnum, þvi þar wti auglijsest best þitt Meistaralegt Myskunar-Verk.

Framar, athuga þu Saala mijn, hvar þu kunnir ad sia þau Smyrsl, sem þiñ liwfi Lausnare, nu i Haatigneñe verande, vill af þier wtilaatande þyggia hier aa Jorduñe: Laattu honum fyrst i Tie hrein og Hræsnislaus Ydrunar Taar, og set þig med bersyndugre Mariu od hañs Footum med þetta Offur, og so hefur þu smurt hanns Fætur, Luc. 7.

7.v.38. Og under eins þitt Hiarta, hveriu þo verdur liettara ꝏ epter; Þar nærst skalltu hanns Hofud smyria med ydulegu Lofe og Þackargiord, ꝏsamt ødruin Guds Bornum er hañs Nafn vegsama, Ps.150.v.2.og hugsa ad þetta er þijn Skylda, þvi so marga og stoora Mysktun, Ast, Vernd og Velgiorder hefur hann veitt þier, ad slijkt verdur ecki talid, Ps. 50. v. 15.

J Þridia Mꝏta, lꝏt þu þier uñhugad vera, af trwudu Hiarta Tregdulaust wti ad lꝏta epter þijnum Efnum, þa Smurning þijns DRottens, sem heiter Myskun og Medaumkan, med þægelegu Olmusu-Verke vid hanns volada og þurfande Lime, hverier ad eru aller aumstadder riettchristner Meñ, þvi slijka kallar Skriftenn Guds Sonar Andleg-ann Lijkama, sierdeilis Eph. 12. v. 23. Þad þu nu þessum gott giører, vill JEsus reikna sier siꝏlfum giort, Matth.25.v.40.46. Tel þad þvi ecki epter, og halld þad ecki glatad, sem þu so vid JEsum wtilætur, og hanns Volader medtaka, þvi slijku er engvannveigenn i Sioodenn kastad, og ei verdur þitt fyrer þessa Smurning neitt minna, þvi DRottenn vill þier þad goodu endurgiallda, þvi þessarar Smurningar Ylmur uppstijgur i Himininn, P. G. 10. v. 4. Enn Blessan Guds ofann til þijn aptur ꝏ Jordena, medann þu hier dvelur; Enn ꝏ sijdarsta Deige i Upprisu Riettlꝏtra færer soddann Smurning þier hin bestu Not, nær JEsus verdur til þijn segiande: Hv-

ad þier giørdud einum af þeſſum enum minnſtu ſem ꝏ mig trwa, þad giørdud þier mier, gꝏnged inn i eiliift Lijf, Matth. 25. v. 34. Þu hædſte HErra JEſu varſt ſmurdur, edur þijn Manndoomleg Nꝏttura, ꝏn Mælingar, Pſ. 45. v. 8. Med þvi Himneſka Oleo Heilags Anda, fyrer þvi kuñe ecke þinn Manndoomur nie ſw Edlis Art, ad hindra þijna dyrdlegu Uppriſu, og ei hafder þu Smurningar Þorf, til ad aptra Forrotnunenne, hveria þu ꝏtter ecke ad ſiꝏ, Pſ. 16. v. 10. Þu hreſſer miklu framar þijnar Skiepnur med þeſſum og þvilijkum Gꝏſum, Jꝏ þu veiter oſs voludum þa Smurning, fyrir hveria vier kunnum Andlega ad upprijſa. Veit oſs øllum þa Nꝏd, minn Gud, ad vier audſynum oſs, epter þijnu Bode, Good-Hiartada og Giafmillda vid þijna Naudlijdande Lime; og ſꝏum ſijdann af þijnum bleſſada Munne ad heyra þetta Glede Tal; Komed bleſſud Born mijns Fodurs, og eigniſt þad Rijke ſem ydur er fyrerbwed frꝏ Upphafe Veralldar, AMEN.

# 5. Capituli.

## Um̃ Jardſkiꝏlftañ.

OG ſiꝏ, ad þar vard Jardſkiꝏlfte mikill, þvi Engill DRottens ſtie nidur af Himne, gieck þar ad, og vellte Steinenum af Dyrunum, og ſetti ſig

sig þar uppa,og hñs Asynd var sem Elld-
ing,og hñs Klæde hvijt sem Snioor,enn
Vardhalldsmeñerner skielfdust af hañs
Otta,og urdu lijka siñ væru þeir dauder.

Þegar vor HErra liet sitt Lijf a Krossenum, þa
skalf og hristest Jordenn, Matth. 27. v. 51. so
sem af Ofbode hinna beisku Kvala er heñar Skap-
are hlaut ad lijda, so sem hun kyñe ecke Oharman-
de slijkt af sier bera; giorde þvi med hinum ødrum
Høfudskiepnunum þessa sorgfullu Lijk-Hrijnging.
Enn sem vor HErra uppreis af Dauda med hin-
um dyrsta Sigre, skalf Jordenn, so sem hun lieke
fyrer siinum HErra af Fognude, þa var og burtu
Sorgar-Klæde Soolarennar, Ja øll Nattuurañ
var þa gladvær, hvar um ad þeinkia mier er alltiid
einn stoor Fognudur: Edur þvi skyllde ecke mitt Lijf
og Sal glediast i mijns DRottiñs Sigre, og yfir
hønum, er mier er til eilijfs Hiælpræðis skiedur,
og eingu sijdur enn Høfud-Skiepnurnar stilla einn
fagrann Fagnadar Dans? Þeir Lijflausu Hlutir
hafa ekkert Gagn af þiñe Pijnu, miñ HErra JE-
su,enn mier aumum Syndara stendur Huggun og
Hiælpræde af þiñe Forþienan, þvi mijn vegna
hefur þu allt Fullkomnad, so sem þu siælfur yfir-
lijser under þitt Andlæt, Joh. 19. v. 30. Þvi mæ
eg nu øllu framar Jordunne, minne Moodur, eñ þo
camiñtur af heñe, hiartannlega fagna af þijnum
sæta Sigri, yfir Illsku Hoop miña Ovina, Synd,

Dauda, Diøfle og Helvijte, 1. Cor. 15. v. 55. af hverra Oki og Yfir-Drottnan, Jaa, eilijfum Kvølum og Pijnu þu hefur mig leyst og frelsad. So fadmar þa mijn Saal þig fagnande, miñ sæte Sig-urvegare, lijka er mitt Holld hier yfir gladvært, þvi þegar þrotenn er Armædu og Eymda full Hiervist þessa Lijfs, mun þad gladvært uppstanda af Grøf-inne, til ad lifa forklaarad med þier eilijflega. Af þessu giefst mier enn framar Ordsok ad þeinkia um Tilstand minnar Hiervistar, hver og hvilijkur eg sie og hvad DRotteñ veite mier. Eg er i Sañleika Molld og Breckur, og tilheyrer mier maklega ad skiaalfa og titra, so opt sem riett verdur ad mier H. Haaverdugt Holld og Blood DRotteñs i Kvølld-maaltijdareñar Sacramento; under þa Medtekn-ingu lofa eg ad giøra Boot og Betran mijns Syn-dafulls Lijfernis, enn, Gud naade, þetta vill i engañ Maata so af mier efnast sem vera skyllde, og þad sem þo er verra, ad Vidleitninn þar vti er æred dofenn og døpur; Þessu velldur sw forspillta Naat-tura, Røm. 7. v. 18. 19. Sem mier hefur þad eckert epterlaated, er i nockru goodu Gyllde sie. DRott-enn væg þu mier aumum og syndagiørnum.

Þad maa lesa i P. G. 16. þegar Paall og Silas voru af Høfdingium Borgarennar Philippis i Macedonia iñsetter i Myrkva-Stofu, ad nær þeir i Faangelsenu um Midnætte baaduft fyrer, þa hafi þar orded einn mikill Jardskiaalfte, so ad Grund-vollur Myrkva-Stofuñar hrærdest, og allar Dyr

opnuduſt, enn þeir urdu lauſer af ſijnum Fiotrum. Eins ſkiedi og i þiñi Uppriſu, miñ JEſu: Vid þañ Jardſkiaalfta ſem þa vard, urdum vier Daudans Faangar lauſer af Myrkva-Stofu þeſs eilijfa Faangelſis og Andlegum Anaudum, Zach. 9. v. 11. enn i Stadiñ veittur farſæll Inngaangur til eilijfs Frelſis og DRottiñs Dijrdar-Rijkis: Eñ þo oſs beri med riettu til Packlætis Minningar, vid vorn HErra, til hanns wtgaanga af Herbwdum þeſſa Heims, og bera hier hanns Vanvyrdu, Ebr. 13. v. 13. þaangad til hinns verdur fullkomiñ Afhending. 1. Cor. 15. v. 24. Lijka og maa þad leſa, Exod. 19. Þegar Gud DRottinn Allsheriar wtgaf ſitt heilaga Logmaal aa Sinai Fialli, ad þad ſama Fiall hafi þa ſkolfid og titrad, enn Foolkid fullt Felmturs og Otta, flydi og foor i burtu.

Logmaalid er Sendibodi Hefndanna og Bolvunarinnar, verkandi Hrædſlu og Skielfing i Samvitſkum allra Ydrunarlauſra Manna, ſem faſt aafram hallda aa Vegi Vondſkunnar. Hier i moot er Jardſkiaalfti Drottiñs Uppriſu, Gladværdar og Fagnadar Sendibodi ollum Riettrwudum, wtdrijfande fraa þeim allañ Otta fyrir Logmaalſins Bolvan, þui nu er Logmaalid uppfyllt, og þeſs Bolvan i Bleſſan ſuwiñ, Gal. 3. v. 13. i Jeſu vors DRottiñs Sigurvinning; Þetta maa eitt Guds Barn odru fagnandi kuñgiora, og þeſſum eilijflega Lofsverda Guds Velgiorningi af Hiarta hrooſa hier i Nadiñi, eñ þar fyllilega i Dijrdiñi.

Vaktararner ſkielfduſt, og urdu lijka ſem væru þeir dauder: Þad kieñir, ad fyrir Krapt Jeſu Uppriſu kunni ſierhver Guds Vinur med alvarlegu Frañhallde Andlegrar Uppriſu, ad nidurbriota alla þaa Hæd, ſem ſig upphefur í giegn Gudlegum Vijsdoomi, og burtreka alla þaa Satans-Vaktara, ſem hindra vilia i nockru ſlijkt andlegt Saalu-hiaalpar Verk, þvi þeir formeiga alla Hlute fyrer JEſum ſem þaa maattuga giorer: Eñ þo þetta ſkai ad koſta Strijd, þad fær og ſo ad vera, þvi hver fær Coronuna, nema ſaa, ſem berſt og yfervinnur? Eñ ſwſlegum Adburdum Mannſins i þeſſu, ſamteingiſt hinn mikli Guds Kraptur af Himnum, hvar fyrer ſlijkt verdur ad Verki og Frañkvæmd: Er hier og, þu Madur, ecki uñ neina Smaamuni ad tebla, fyrer hveria Menn þo Stundum miked viña, helldur uñ Hnoſs eilijfrar Æru, hlaupid þvi ſo þier hondlid þad, 1. Cor. 9. v. 24. Siaa hier og aa Vokturunum Jmynd illra Manna, og þañ Dræka Vott þeirra Verka, Samvitſkuna, ſem meir maa enn Þuſund adrer, og naa þar nærſta vel til Ord hinns Vijſa, þa nockur er, ſegir hann, ſo Efablandeñ, þa giorer þad hanns eginn Jllſka, ſem ber Vitni yfer honum, og fordæmir hañ, og ein hrædd Samvitſka væntir ætijd hinns verſta, þvi ad Hrædſlañ kiemur þar af, ad eiñ treyſtir ſier ei til ad forſvara ſig, og veit ſier einga Hiaalp, enn hver ſem lijtid Trauſt hefur i ſijnu Hiarta, hann giorir Vijlſemdina ſtærri enn Plaagañ ſialfer,

Þeſs-

Þesser eru sialfum sier þijngre, helldur enn sialf Myrkurenn, Cap. 17.v. 21. Hier af sier þu mijn Sal, ad daglegt Sælgiæte sie ad hafa gooda Samvitsku, og sa Riettur er ecki gefande fyrer allar Veralldar Kræsingar.

Minn JEsu, vilie mijn Samvitska fordæma mig, þa skal eg flya til þijn fyrer Tarinn, vitande, ad þu ert meire mijnu Hiarta, og villt þad Frid-stilla. Hrædi mig Lögmalid, skal eg og flya a þiñ Fund, sem Lögmalsins Bölvan hefur i Blessan snwid, þinn Betalingur er mijn Borgun, hana hefur Gud giefid mier, hvers Verks hañ ecke ydrar, nie þad aptur tekur; Eñ hitti mig sa Harmur, ad eg i þessari For til þijn, minn goode JEsu, taki til ad sockva sem Petur a Sioonum Fordum, þa mun þijn Myskunar Hond, sem alldrei verdur stutt, taka til mijn sem hanns, so sem þad hefur hijngad til verid, so mun þad hier epter verda; Þessari Bæn, Trw og Huggun lat oss þijn Börn alldrei sleppa, AMEN.

# 6. Capitule.

Uñ Samtal Kvennaña a Veginum til Grafariñar.

Og Kvinurnar sögdu sijn a mille, hver mun vellta fyrir oss Steininum af Grafar-Munanum? Þviad hañ var nærsta mikill, og þa þær litu vid, sau þær Steiniñ afvelltañ, og fundu

ad Steininum hafdi verid vellt af Grof' inne.

ÞEgar þessar goodu Kvinnur fooru ad heimañ, giordu þær eingiñ Raad fyrer þvi, ad nockur Hindran mundi uppa fyrer þeim falla i aformudu Verki, enn a Veginum fiell þeim inn þessi Ottans Þanke uñ Steinsins Afvelltingu, og giættu þa hid fyrsta sijns Vanmattar hann burt ad hræra, samt hielldu þær afram Ferdinni, hvar wti Elskann sijndi sitt Audkienni, sem ei lætur sier neinar Hindraner aptur snwa, helldur er þoliñmod, og hefur alltijd gooda Von ad siñ Vegur muni greidast. Og er þad hier wt af vel athugande, ad nær einn og annar Guds Vinur vill eitthvad gott Verk viña, falla opt fyrer i þvi Aformi og Verki ymislegar Hindraner: Stundum Onada ofs vorar eiginn Iñbirlingar, og Kvijde fyrer einu og odru Okomnu, þar þo hverium Degi nægir sijn Þianing, Matth. 6. v. 34. J hveriu ad sia ma Lijking þess Strijds sem er a milli Holldsins og Andans; Stundum koma i Veginn Utvortis afrædande Hindraner margvijslegar; Og hver kann i stuttu Mali upptelia alla þa Steina, sem hier falla i Veg fyrer ofs? Suma leggia adrer, þvi ærid margar eru Hneixlaner Veralldarinnar; Suma vier sialfer, oft bannar Ottinn ofs ad vera a Ferd i Biortu, sem Nicodemo, Joh. 3. v. 2. Dramb, Agyrnd og Leti snwa morgum fra

Dygd-

Dygdanna Vegi; J Einu Ordi ad segia, sꝏ goode Vegur er opt med ymsum hoggnum Steinum til⸗mwradur. Hier fyrer utann hliootum vier Steina margra Eymda og Erfidis ad bera, undann hverium opt verdur sꝏrt kveinad. Logmꝏlsins Steinn liggur nærsta þwngt ꝏ veikum Manni; Hver mun lietta þeirre Byrde? Hver mun honum burtvellta? Þesse Steinn hootar margri Bolvan, fyrer þad hann verdur ei borinn so sem ber, enn vorkiennir ecki Mꝏttleised, nie giörir Rꝏd fyrer þvi; Hvor er þa Vorn vid þessum Boda? Einn JEsus, og einginn annar, þvi hann hefur þessa Steins þwngri Bolvan burtvellt, edur Logmꝏlid uppfyllt; Þad eigum vier honum ad þacka. Þa er enn þa Añar Steiñ, sem margann og þiꝏir, sem er Krossins Steiñ, og ymsra Mann⸗Rauna, Matth. 11. v. 29. Ecki vill oss greidt veita, med vort Eindæmi þessum burtvellta; Þad syniſt og sem þesse Steinn sie ecki eins þwngur ꝏ allra Herdum, og trwe eg ad einginn skamti sier slijkt allt siꝏlfur, Gudhrædder Menn sꝏ opt ad bera hiñ mesta Þwnga af honum med ymsu Mooté, Eiñ Dag epter Annann; Þegar adrer hlæa og leika lystugt fyrer med miklum Spreitinge ꝏ Hioole Luckunnar, meiga þeir grꝏta og taka til Þacka ymsar Mann⸗Rauner, sem noog eru Dæmi til, Forn og Ny. Soddañ Kross⸗Steiñ er med morgu Mooti, enn situr þo hver ein hañs Tegund fyrer mannlegum Kroptum; sem hverki eru af

Kopar nie Steinum: Þolinnmædiñ giorir þeirra Byrdi liettbærari. Stundum finnst hier Hwngursins Steiñ, hverium sia farsæle Joseph ei gietur fraa øllum burtkastad. Stundum Strijdsins, hverium Kongurinn, þo hann komi til med sijna Magt, fær ecki alltijd fraahrundid. Stundum Steinn næmra Siwkdooma, sem Læknirinn gietur ecki alltijd mijkt. Stundum Faangelsisins, sem Vinerner faa ei jafnann bætt. Stundum Skip-Reikans, fraa hverium Segl og Arar hiaalpa ecke alltijd. Stundum Ellds-Vodans, hverium Vatnid fær ecki alltijd burt-fleytt. Stundum Steinn saarra Freistinga adskilianlegra, og ymislegs Bøls, sem morgum verdur þeige-liettur, hverium fagrar Fortølur ecki faa jafnann burt-hrundid. Hver hellst Mootlætis-Steinn, sem þreingia vill mijnu Hiarta, þa veri hann mier i JEsu Nafne velkomenn, honum er ecki uñ Megn ad hiaalpa mier ad bera hañ, hann veit af hveriu Verk-Efne eg er skaptur, og ætlar øllu sem nærst, hann sikrar þad beiska, snijr Vatni i Vijn, og hefur noogar Dyr, fyrir hveriar hann kañ mig burtleida, þegar hañs Milldi þocknast, nu fraa þessu, nu fraa ødru: og loksins ad øllu Leite; Hier uppaa skal vona, hier vid sig gledia, og honum ætijd med Taarum tilsegia, þvi þessarar Moodur Eyra heyrer fliootast i Neydinni, og huggar best i Freistinguñi, hañ hefur þær aadur reynt, hann veit best ad vorkienna þær, hañ giorer farsælann Enda aa þessu øllu sam-

aññ.

añ. Medal allra hiernefndra og þvilijkra Steina, er ecki ad eins Syndariñar helldur Priootskunnar i henni ad lifa, hinn versti og stærsti, Es. 48. v.4. Ezech. 11.v.19. Þvi haun spyrnir frá þeim Edla Læknirnum JEsu, sem øll Mein og Saar kañ og vill græda, á þeim sem til hañs koma; Þessi Steinn steipir Saal og Lijkama i eilijfa Eymd og Vesølld, nema søñ Ydran komi á mille, Joel. 2.v. 13. Þesse Steinn heiter og Ydrunarleyse, hvern Diøfullinn opt innsiglar med Priootskunne, er sig auglijser Ofkialldann á hanns Prælum, hverier ad siaalfer eru so harder Steinar, ad á þáa viñur ecki Vidsmior Guds Velgiørda, Laanglundar Gieds nie Poliñmædi, ei helldur Vijn Guds Beudinga, Hootana nie Amiñinga, þeir láta allt hañs Raad fara, eñ Sathan má rijda þeim hvert hann vill. Vara þig, aumur Madur! ad þesse Steinn verdi þier ecke ad Meine, vellt þu honum burt i Guds Nafne og Krapte, med Hondum hreiñrar Ydrunar, so fær hann þig ecki skadad. Engill þess mikla Raads, JEsus Christur, er i þvi Verki alltijd til Reidu ad veita þier Fulltijnge, hvad stoor og mørg sem Syndiñ er ádur ordiñ, já, hvad sem þig hendir, þa snw aptur sem skiootast med Taarum, þvi ecki vill JEsus þijna Glotun, þar uñ máttu vera noog sannfroodur af Guds Orde.

O HErra JEsu, hardt þreinger Syndiñ ad minni Saalu, þvi eg hefi so margt illa giørt, mijn Vondska er ætijd mikil, þad seger mier mijn Samvitska,

vitſka, hun hefur þad uppa Reikning ſkrifad, ſo vill og Satan opt hindra mig a minni Ydrunar-Reiſu til þijn, og leida mig i Efaſemd um̃ þijna Myſkun og mijna Velferd. Sæte JEſu, eing-inn kann þetta Biarg i burt ad taka nema þu allei-na, þvi ſkrijd eg ſyndugur Ormur ad þijnum Foot-um, og bid þig Hiartannlega, ad taka þad allt i burt fra mier, ſem mig kann i nockru ad hindra til þijn ad koma: Giør þu, ſaker Myſkunar þinnar, Ovegi mijna ad Vegum, og Myrkurinn ad Lioo-ſe, ſo eg hrungradur epter þier, megie þig alltijd finna, þvi nær eg ſie þig, fagnar Saalinn, og aug-lijſer þann Føgnud heimuglega og opinnberlega, AMEN.

## 7. Capitule.

### Um̃ Grøfina.

OG Kvinurnar ſtigu in̄ i Grøfina, og fundu ecki Lijkamann JEſu.

Sw eina Sorg Kveñanna var nu bætt, Stein̄inn var afvelltur, fyrer hverium þær þo kvidu. Þu ſkallt ecki kvijda ſtoort fyrer þvi Okomna, chriſtinn Madur; Ad Ovørum Abraham tilſette Gud Offrid i Stadinn hanns Sonar fordum, Gen. 22. v. 13. Treyſtum Gude, hann kan̄ øllu vel til Vegar koma. Enn falli þier einhvør haſt-arleg og Oforvarandis Sorg uppa, þa vertu

þo

þo ecke Vonlaus, legg þig i Faang DRottenns þoleñmoodlega, so hiaalpar hann þier; ef þu bidur og bijdur hanns, so tefur hann ecki leinge, hafir þu JEsum i Minne, so man hann til þijn, leita þu hañs fyrer sanna Ydran, og drag þad ecke leinge undann, þvi leiter þu hanns af ollu Hiarta, so lætur hann þig finna sig. Enn vilier þu nu spyria, hvar aa eg ad leita? Edur: Hvar mun eg finna JEsum, sem bæde vill og kann hugga mig, og bæta allar mijnar Meinsemder? Þu heyrer hier af Textanum ad þessar Gudhræddu Kvinnur hafe leitad Guds Sonar i Grofinne, þar sem þær vissu ad hanns Lijkame hafde lagdur vered: Ad soñu kañt þu ecke ad komast til þeirrar somu Grafar sem hier er um̃gieted, edur giora þier Reisu til þeirrar wthoggnu Josephs Grafar, hvar Lausnareñ Andvana hvijllde, og þo þu villder hafa Erfide og Um̃kostnad þar fyrer, hvad ad sonnu med Tijmanum vinnast kiñe, þa giorer þad þier þar eckert Gagn i þessare Grein, þvi soddann Pilagrijms Reisur eru þier ecke bodnar i Guds Orde, miklu helldur vijkur þad fraa riettri Trwarinnar Reglu, ad forma slijkt i hier sagdre Meiningu, edur ad Saalenn skuli þar nockurt Gagn af hafa. Þu skallt, christenn Madur, athuga þetta odruvijse, og snwa þvi aa gagnlegre Veg, og vitia soleidis andlega Grafar þijns blessada JEsu, so þu siert þo aa einhvern goodañ Veg samferda þessum Kvinnum.

Þu skallt fyrst, i Grof þijns DRottins athuga

siœlfs Þijns Dauda, og Burtferdar Stund fraa þessum Heime, þvi nær þu hier vid skilur, er þier ad Guds Vilia i Grøfenne Vist og Vera ætlud,(hvoriu einu goodu Guds Barne verdur farsæl Rooseme) þvi þad er tvijl=laust, epter Guds Orda Fyrersogn, ad aller vier saum þessare Daudans Vita=Skulld einhvern Tijma ad giegna, vid þessu meigum vier aller bwast. Ad hugsa þar um daglega, med Gudrækelegum Underbwninge i sannre Ydran oss þar til ad reida, hiœlpa oss øllum miñ goode JEsu; so ad þegar þetta auma Lijf eitt sinn endar i Daudanum, þa meige og øll vor Eymd og Neyd wte og endud vera, og vier mættum i þier, þu lifanda Lijf, lykta þetta Lijf.

J añañ Stad skalltu, Guds Barn, so huglei=da þier til Huggunar Grøf þijns blessada HErra, ad þu viter og vidkañest, ad hann med siñe Greptran hafi helgad Grøf þijns og mijns Lijkama, so hun er nu ordeñ fyrer hann eitt sætt og epterlaungunarsamt Svefn=Herberge þreittum Manne, Esa. 26. v. 20. Og þo vor Lijkame, sem er Orma og Madka Fæda, kolne þar, fwne og for=rotne, þa gioyrest engenn Þørf ad kvijda slijku, þvi Hollded hvijlest þar i Fride til þess sijdarsta Dags, hvadann þad, forklaarad af DRottenns Almætte, uppreist verdur, og Sœlunne aptur med ædsta Fagnade samteingt. Enn nu œ medann eg lifi, minn DRottenn, til farsællegs Daudans Underbwnings, þegar hann kiemur, hefi eg giort, og vil fram=

framveigis giora mier Grøf, Hæli og Hvijldar-Stad fyrer mijna sorgfullu Sæl og Hiarta, i eirnre Biarg-Skoru, sñ er i þijnu blessada Sijdu-Sare; Þetta Verk hefur miin Trwar-Hønd fyrer sig teked, og þu sialfur hefur giefid mier Leyfi þar til, þvi vil eg þar um mig bwa, og þar feigen optast hvijla meiga Hug og Hiarta, þvi þar er Lyfn og Værd Sælunne, þar er Svølun og Sætleike Omælannlegur, a þessu blessada Moodur Briooste vil eg gladur sofna, og þau sijdustu Andartok hafa; so er allre minne Eymd, og sialfum Daudanum, i besta Sætleik snwed. Þegar þu, minn DRotten, varst læten a Krossenum, lagde Joseph þig i sijna eigenn Grøf, og wr þeirre Grøf Josephs ert þu upprisenn: Þar af giefst mier ein good Aminning, sem er sw, ad eg tilreide sem best eg kann Grof mijns Hiarta, og herbergē þig þar minn liwsi Endurlausnare; Þu hefur kosid þier sialfum þennañ Hvijldar-Stad, þu hefur noogu dyrt keypt hann, hañ skal og verda þiñ, eg vil fegiñ þiggia þar þijna Vistar-Veru, hier skal Hiarta i moote Hiarta, og Hiarta fyrer Hiarta giefast. O ein blessud Vijte! Og nu so ad þesse Grøf sie ein nij Grøf i Lijking þinnar, vil eg daglega fyrer þijna Hialp nya hana edur hreinsa med heitum Tarum hræsnislausrar Ydrunar. O Gud giæfi þad giæte so vered! uppa þad hun mætte og verda ein stadfost Stein-Þroo, hveria engeñ Ørvæntingar-seme kunne fra þier ad hræra, minn Gud, eng-

enn

enn Synd i burt ad fæla, eckert Mootlæte'bila edur yfirbwga, Rom.8.v. 37. seq: Helldur fcai i þier, a øllu Striide, og øllum Ovinum, sætañ og farsælann Sigur, þier sialfum dyrdlegann, mier Saluhialplegann, 1. Tim. 6. v. 12. J einu Orde, snw þu mier O Rottenn, so er mier snwed, Jerem. 31. v. 18. Lækna þu mig, so verd eg heilbrigdur, og hvijl þu i mijnu Hiarta ætijd og æfiñlega, Amen.

# 8. Capituli.

Uñ Englaña Opeñberan og Bodan Christi Upprisu.

HAr fyrer, þa Maria Magdalena sier Steineñ burt teken af Grøfeñe, hleipur hun, ad hun kuñgiøre þetta Postulunum. Og sem Kviñurnar efudu hier uñ, sia, þa stoodu Tveir Meñ hia þeim i leiptrande Klædum, eñ þær urdu hræddar, og sloou siñe Asioonu nidur til Jardar; þa søgdu þeir til þeirra: Hvad leited þier Lifandra hia Daudum? Hañ er eige hier, helldr er hañ uppriseñ. Hugleided hverneñ hañ talade vid ydur, þa hañ var i Galilæa, segiande, þad Mañsins Syne byriade ad seliast i syndugra Maña Hendur, og krossfestur verda, og a

Prid-

Pridia Deige upp ad rijsa. Og þær endurmintuſt hañs Orda.

GUD tebler lijka ſem Forkiæring vid Manneñ i þeſſum Heime; þvi lijka ſem þar er ymiſt uppæ Teningnum, ſo ellder hier og ymſu: Nu er Glede, nu Sorg, og þad ſtundum ſitt æ hverre Stundu. Gud hefur þeſſu ſo nidur radad, þeim ſem hañ ovt- aſt, til Reynſlu og Proofunar, hverneñ þeir vilie ſkicka ſier i hverutveggiu. J Velgeingneñe ſkal Mann hallda ſier i Stille, þvi ſæ ſem nu er ſaddur ſkal þo hugleida, ad aptur ad nyu kañ hann hræng- radur ad verda, og ſtæta þvi mogulega. J Moot- lætenu ſkal Mann og ecke Orvænta, helldur lijda þoleñmoodur þad æ vill drijſa, og bijda DRott- eñs Atkvæda; þa mun hann ſnart ſnwa Græt i Glede, ſo ſæ ſem i Dag nidurſæer i Tærum, hañ meige æ Morgun med Fognude uppſkiera, og gley- ma ſo ſijnu fyrra Angre, Eſ. 65. v. 16. Og þa er þad, ſem hefde þad ecke vered, nema til Vidurhallds vorum rietta Chriſtenndoome. Jeg minneſt æ þa fyrre Dagana, ſegier David, og tala um þij nar Dæſemder. Mun þad ecke enn lijkt vera fyrer Guds Bornum, nær Einn af þeſſum fiñur Añañ, kvedur hver odrum ſijn Harma-Kvæde, og þad ſtundum grætande glader, þvi þa er og opt i Tal- eiñ, hverneñ Gud hafi Myſkunſamlegann tiæd ſig i þvi og þvi Eſne, og ſnwed þvi undarlega, og hugg- ar ſo Einn Annañ med þeirre ſomu Huggun ſem

Gud veiter honum, segiande: So foor Gud med mig, hañ man og til þijn; Mootlæted er Skierfur Guds Barna, lát þu þad þvi ecke undra þig, Gud hugsvalar þier um̃ sijder.

Minn goode Gud, hondla þu vid mig sem þier lijkar, mier geingur alltijd vel, þegar mier geingur epter þijnum Vilia, græter þu mig, so huggar þu mig snart aptur, gief mier med Þogn og Þolinnmæde ad bijda þinnar Urlausnar, Job.13.v.15. C.14.v.14. Allt Angur mijns Hiarta mun þijn Moodur-Hond hin miwkasta, hier ánægiannlega, þar fullkomlega um̃ sijder afþurka, Thren.3.v.32. Tveir Englar byrtust hier Kviñunum, añars hafa Sex Englar DRottens af Himnum komner sig opeñberad vid Grøfena HErrans. Sá sem vellte Steinenum af Grafar-Munnanum: Þesser Tveir er stoodu hiá Kvinnunum, enn adrer Tveir til Hofda og Foota sitiande i Grøfiñe, hveria Maria Magdalena sá: Og sá Eine sem sat i Grøfiñe til hægre Hlidar, skrijddur hvijtu sijdu Klæde, hvern Kvinnurnar sáu til samans.

Þessa sijna blessada Engla sende hiñ goode Gud til Huggunar þessum Harmþrwngnu Kvinnum, og ad boda þeim Fagnadar-Tijdindeñ JEsu Upprisu. Hann lætur enn sijna Engla þiena sijnum Utvolldum, enn þo vor Augu sieu ei so upplijst, ad vier siáum þessa Dásamlega Verndan, so sem þessar Kviñur, þa þreifum vier þo náalega á þeirra Giætslu. Þad var stoor Glede-Bodskapur, sem

Jacobs

Jacobs Syner færdu siinum Harmþrwngna Fødur, nær þeir kuñgiørdu honum ad Joseph lifde med Heidre i Egyptalande. Gen. 45. v. 26. Enn miklu ædre er þesse Englaña Bodskapur, Kvinnunum og oss under eins færdur, ad JEsus, med Edsta Guddooms Heidre og Himneskre Sigurvinning sie oss Daudvona og Færœadum Saudum siinum til Riettlætis uppriseñ, Rom. 4. v. 25. hafe oss opnad Dyr Himnariikis, sem apturlukt ust oss i Adams Falle, frelsad oss frá Helviitis Anaud, og øllum Daudans Vøda. Þetta er þad blessada Evangelium, sem oss má Hiartannlega kiæta. So meigum vier nu i DRottens Náadar-Riike, liifgader af H. Anda, i Trwnne leita þess lifanda JEsu, hvers Manndoomur uppriseñn er med Saal og Liikama, og nu lifer, riikiande i siñe Guddooms Hæatign, hver oss mun hier i sier liifgada og andlegu Liife giædda loksins wr þessum Harma-Dal Heimsins, til eilliifs Lioos og Liifs med sier iñleida. Þesse lifande HErra hefur oss fyrst þad Náatturlega Liifid meddeilt, samt allt eitt og sierhvad, sem þvi sama er til Vidurhallds þienande, þvi i honum erum vier, lifum vier og hrærunst vier, P. G. 17. v. 28. Ja, hvad sig nærer, hrærer og bærer, lifir af þessare Liifsins Uppsprettu. J honum hefur og sierhver Sañ-Christiñn sitt Andlegt Liif hloted, fyrer Verkan hins H. Anda, og þad fyrst i Skiirneñe, hvar vier Hiælp, Liif, Boot og Heilsu feingum af hanns Guddooms

Glædſku og Almætte, Ezech. 16. v. 4. 5. Hann lijfgar oſs og daglega, af Syndunum fyrer ſanna Yðran uppriiſande. Cap. 18. v. 21. Af þeſſare Lijfſins Lind verdur oſs og, epter affſtaded þetta Lijf, veitt og giefed þad eilijfa Lijf, hvar oll vor Hrygd ſnijſt i fullkomna Glede an Enda. Og nu, minn HErra JEſu, epter þvi þu ert þad lifanda Lijf, hvert mijn Saal i Trwne umfadmar, þa gior þu mig lifande i þier Lifanda, med Lijfgunarfullre Adſtod og Upplijſingu þijns bleſſada H. Anda, ſem alltijd ſtioorne mier og ſtijre, og leide mig ſo ſijdann af þier lijfgadann til eilijfs Lijfs. HVAD LEITid ÞJER HJNS LJFANDA HJA DAUDUM, ſegia Englarner hier til Kvennanna: Hverier munu giora þad nu a vorre Tijd? Sannlega giora þad aller Munn-Chriſtner Hræſnarar, Ebr. 6. v. 1. ſem laataſt heita Chriſti Viner, enn lifa þo i ymſu Raanglæte, og leika ſier ad Syndum og Loſtum, hafa forbrendar Samviſkur, hata Lioosid, og eru fyrer utann þad ſanna Lijf, i Chriſto, Eph. 4. v. 18. J hverium ad er eitt riettilegt Athæfi; Þeſſer hallda ſig ad lifa, þo þeir gange dauder, ef þeir ad eins heyra Orded og brwka Sacramentenn: þad hverutveggia er ad ſonu til Vidurhallds andlegu Lijfe, og Huggunar ſannydrande Guds Bornum, ſo þau i Chriſto eilijflega life: Enn hinum þad Yðrunarlauſlega vanbrwkande, er þad Ylmur Daudans til Daudans.

Þu ſæte JEſu ert vort einka lifande Lijf, þu

ert vort Lijf i Hormungunum, vort Lijf i Daud-
anum, vort Lijf i Upprisunne, vort Lijf um̄ alla Ei-
lijfd; Lꜳt þu oss, O HErra JEsu, lifa i þier i eiñi
lifandi Trw, og ꜳ þig, þu sem ert sw rietta Lijffins
Book, innskrifada vera, Phil. 4. v. 3. Opinb. 21.
v. 27. fullvissa um̄ eilijfs Lifs Arftoku i Dijrdiñi,
Opinb. 3. v. 12. AMEN.

# 9. Capitule.

Um̄ Utgaungu Peturs og Johañis til Grafariñar
og þad þeir sꜳu i Grøfiñe.

Og þær gengu frꜳ Grøfiñe aptur,
og kuñgiørdu allt þetta. þeim ell-
efu, og so øllum ødrum. Eñ þetta
var Maria Magdalena og Johaña, og
Maria Jacobi, og þær adrar med þeim,
sem þetta søgdu Postulunum, og þeirra
Ord virdtust þeim, sem væri þad Hiego-
oma Mail, og trwdu þvi ecki. Eñ Petur
stood upp og hlioop til Grafariñar, skign-
dist iñ, og sꜳ Lijnklædiñ logd einsømul,
foor burt, og undradist med sialfum sier,
þad er skied hafde, þviad Maria Magda-
lena hafdi komid til Simonar Peturs,
og til hiñs añars Lærisveins, sem JEsus
elskade, og sagde til þeirra: Þeir hafa tek-
id burt Herrañ wr Grøfiñe, og vier vit-

um ei hvar þeir hafa lagt hañ. Þa gieck Petur wt og sa añar Lærisveiñ og komu til Grafariñar, eñ þeir tveir hlupu bædir æsamt, og hiñ añar Lærisveiñ hlioop vakrara fram eñ Petur, og kom fyrri til Grafariñar, og er hañ glægdist þar iñ, sa hñ Lijnlækiñ lagd þar, eñ hañ gieck eigi iñ. Þa kiem Simon Petrus eptir honum, og stijg iñ i Grofina, og sier ad Lijnlækiñ eru lagd þar, og Sveita-Dwkuriñ, sm var um JEsu Hofud, ei lagdur med Lijn-Klædunum, helldur sierdeilis samañ undiñ i einum Stad. Þa stie og hiñ añar Lærisveiñ iñ, sa er fyrri kom til Grafariñar, sa þad og trwdi þvi, þviad þeir kuñu ei eñ þa Ritningarnar, þad honum hefde byriad upp ad rijsa fra Daudum.

ÞAd sierlegasta sem þu, christeñ Madur, merkia skallt af þessum Textans Ordum, er þad, ad vera ecki torvelldur ad trwa Guds Orda Sannleika, og draga ecki undañ þær andlegu Ydranar og Bænar Leit epter þijnum Herra, helldur, so sem eiñ andlegur Johañes, hradir alltijd þessari þiñi For, þvi ei veitst þu hvad lenge þier endast Kraptarner þar til, nie nær Naadar-Dyrum DRottins er aptur lokad, og merk Dæme þeirra Oforsialu Meya, Matth. 25. v. 10. et seq. Ad ei hende þig

hid

hid sama. JEsus leitar epter þier Daglega, Daglega wtrietter hann til þijn, og aa mooti þier, sijnar Naadar Hendur, Es. 65. v. 2. Kom þvi, Barn Guds, sem hradast, og vird alltijd mikils Herranns Sendiboda, fyrer hveria hann skickar Bod epter þier, og þo þier þyki þeir lijtilsiorleger sumer fyrer þijnum Doome, þa hefur þu þo alltijd ad virda Gud og Sannleikann, og hugsa þanniñ: Minn JEsus kallar, þvi skylldi eg þa ecke koma? So vill hann þa heyra þig nær þu kallar, og, nær þu leitar, af þier fundiñ verda. Hier er og ad merkia eina Huggunar-Grein aa Petre; hañ komst aafram til Grafariñar, þo seirna færi. Hafi þier Christenn Madur tilfalled Seinleike, edur Undanndrættur sannrar Yfirbootar, þa skalltu þo samt alldrei orvænta þier Naadarinnar, lijka vel þo þvi verdi ecki neitad, ad soddañ sie voveiflegt Hæsku-Spil, þad stendur þo samt alltijd stodugt, ad ecke vill DRottiñ Syndarans Dauda, Ezech. 33. v. 11. Laat vera hann vilie mæla þier þad aptur i þiñ Barm med Hrigdum þessa Heims, ad þu hefur so illa breitt, Es. 65. v. 7. Eñ seig mier, hvar til mun þad skie? Til þess, sege eg, ad þu hallder þig ecki saklausann, og þecker betur hvad aadur er skied, og taker so hier wt þad vonda i Lijfe þijnu, med þessum Guds Doome yfer þier, so ei fordæmist þu med þessare vantrwudu Verolldu; Enn þier byriar ad taka þvi þa vel, og segia med Spaamañinum þolinnmoodlega i goodre Von: Eg vil bera

Reide DRottenns, þvi eg heſi ſyndgad a moote honum; Og þa midt i þijnu Harma Floode, ſkallt þu umſadma med þijnum Trwar Ormum, þetta Huggunarrijka Guds Fyrerheit: Nær ſem ſa hinn Synduge ſnijr ſier og giorer riett og vel, ſkal hanns fyrre Synda álldrei framar minnſt verda, Ezech. 18. v. 21. ſeq: Ja, þu ſkallt Jhuga Sancti Pals Ord: Þad er dijrmætt verdugt Ord, ad JEſus er kominn i þennann Heim ſyndugra Menn Saluhoolpna ad giora; Og ber ſo allt þetta ſamann vid JEſu Vidhondlan vid þann ydrande Næningia, ſamt Fodurſins vid þann fortapada Son, og muntu þa ſannydrande finna, ad þu hafer ei Ordſok ad orvænta. Pad er hier ad auke athugande, ad þeir Hluter ſim beviiſudu Chriſtum ſannarlega af Dauda uppriſenn vera, og þeſſum Guds Aſtvinum þiena mattu til eins Gledefulls Huggunar Teikns, ſem var Grafarinnar Opnan, og Chriſti Burtfor wr henni, þad giordu þeir ſier, þo ſierdeiles Maria Magdalena, ſem þar fyrer harmade, ad einu Sorgar Teikne; Og ſkiedur ſlijkt oſs eirnin optlega; Þvi þegar Kroſs og Hormungar mæta oſs, þa meinum vier þad Reidi-Teikn DRottinns, og ſo ſem eitt Skilnadar-Bref vid hann, lijka ſem hafi hann ſijna Nad og Huggun innibyrgt i ſoddann Tilfellum, og forglejmt leingur Myſkunſamur ad vera, Thr. 5. v. 20. Þar þo Kroſſenn er eitt gott Teikn: Edur eru þad ecki lioos Ord, og ollum ſkiliannleg ſem þar ſtanda

Eb

Ebr. 12. v. 6. og 7. Ad hvern hann sem Drott-
inn elske, þañ sama agi hann; Og aptur: Ef þier
værud væn Typtunar, þa værud þier ecki Børn,
helldur hiæ-Børn: Og sæ sem slijks giætir, og ber
þolinnmoodur þessar Kross-Reynslur DRott-
ins, hann hefur soddann eitt Fyrerheit af honum:
Med þvi þu hefur vardveitt Ord miñar Þolinn-
mæde, mun eg vardveita þig æ Freistingar-Tijm-
anum, Apoc. 3. v. 19. Hyggium ad þessu,
þier Guds Viner, og lætum oss ei vera so fram-
andi og Þeckingarlausa i soddañ Kross-Skoola,
hverier þo vilium heita JEsu Lærisveinar. Edur
hverninn mæ vid Sælkiera Heimsins, og sijhlæ-
ande Menn, segiast þetta sijdar meir? Þetta er sæ
Madur, sem komiñ er wr miklum Harmkvæling-
um og hef? yfirunid fyrer Lambsins Blood; Þo nu
Holld og Blood vilie ecke læta sier þetta segiast og
þvilijkt, þegar nockud ber ad Hondum, þa munum
vier þo saña Krossiñ sijdar meir ad hafa verid Ast-
ar Teikn lifanda Guds. Ad sijdurstu hygg ad,
mijn Sæl, ad hier voru DRottiñs Næ-Klæde
epter i Grofiñe, hver hañ took ei med sier nær hann
uppreis, hañ var æ Krossenum nakeñ pijndur, þar
mættu aller siæ hanns al-blooduga og Benium
þakta Lijkama, enn hanns Klædum ræntu hanns
Kvalarar, þau liet hann epter i Heiminum: Eins
skiede og hier; Hanns Lijk-Blæa mætte epterligg-
ia. So veit eg og, ad eckert ber eg i burtu wr
Heiminum, eg kom hijngad nakiñ, eg fer og bur-

tu nakinn: Og hvad ſkulu ƀa ƀau ſtooru Veralldar Mañā Umbrot? Þetta ſkal kienna mier ad vera ecki ofgijrugur epter ſkamvinum Aud ƀeſſarar Veralldar, lijka og ad reiſa ecke Hollded med ofmiklu Epterlæte; Epter himneſkum Rijkdoome vil eg ſækia, og eiliijſt Sælgiæte ƀreye eg hwngradur, og ſem komid er ad ƀvi ƀraungva Hlidi ſem ƀar til liggur, og hiñ ſæakalldi Dauda-Sveite vill ſundra Samviſter Sæalar og og Lijkama, vil eg ƀa ſijdurſtu Daudans Skaal ſy affſwpa, ad eg ſijngi under eins yfer heñi mijns JEſu Miñing, og i hañs Sveita-Dwk iñveſia mitt Hofud og Hiarta, ƀar med vil eg miñ Veg hiedañ glora wr ƀeſſum aumu Veralldar Herbwdum: Leggiſt ƀa ƀijn Lijk-Blæia, miñ goode JEſu, ƀad er, ƀitt Riettlætis Klæde, i ƀeim ſijdurſtu Strijds-Lokum yfir mijna mædda Saal, og take ſo ƀijn Hond full Lyknar og Oumræ dilegrar Myſkunar vid ollu ſamañ, mier deyande, og mijnum epter ƀreyande: Bænheyr mig hier um minn Gud, Amen.

# 10. Capitule.

Um ƀad hverniñ Englarner og ſiaalfur JEſus Opiñberadiſt Mariu Magdalenu.

ƷA gengu Læriſveinarnir burt heim aptur, eñ Maria ſtood vid Grofina og griet ƀar wti fyrir, og er hun gret, ƀa giægdiſt hun i Grofina, og ſa tvo Engla hvijtklædda ſitiandi ƀar,

þar, eiñ til Høfda, og añañ til Foota, þar sem þeir høfdu lagt Lijkamañ Jesu, og þeir søgdu til heñar: Kona, þvi grætur þu? Hun sagde þeim: Þeir hafa tekid burt Herrañ miñ, og eg veit eige hvar þeir hafa lagt hañ. Þa hun hafde þetta sagt, sneriſt hun vid, og leit JEsum standa þar, og viſſe þo ei ad þad var JEsus. JEsus sagde til heñar: Kona, þvi grætur þu? Ad hverium leitar þu? Eñ hun ætladi Jurtagards Mañiñ vera, og sagdi til hañs: Herra, ef þu barſt hañ burt, þa seig þu mier, hvar þu lagdir hañ? Og eg vil sækia hañ.

SÆler eru þeir sem harma, segier JEsus, Matth. 5. v. 4. Þvi þeir skulu huggader verda. Harmuriñ er med margt Slag, ollum Guds Barna Harmi eftirfylgir Huggun af DRottni, añadhvert hier edur siidar, Ja, lijka vel hvertveggia. Margur grætur lenge siina Elskulega Aſtvine; Abraham griet Saram, Isaac siina Moodur, Jacob Rachel, David siñ unga Son, Jeremias Josiæ Kongs Afgang, og Maria hier JEsum siælfañ, af þvi hun fañ ecki hañs Lijkama; Og hefur margur sem grætur miña Grœts Efni, ef efter mañlegum Plagsid skal tala, hverium Guds Myskun lijka vœger og vorkienner, sem best

þecfir

þeckir vora Vesolld og Veikleika, þad mꝏ medal aññars sioꝏ af hañs Nꝏdar Vidhøndlan vid Ek⸗iuna i Naim. Maria var einfolld og visse ecke Ritningarnar, hun skilldi ecki af þeim þetta Guds ꝏsetta Hiꝏlpar⸗Rꝏd, og þvi var heñi nærst ad hallda JEsum burt⸗tekiñ.

Myrkrid er Ovidkunnañlegt, Lioosinu fagna þess Elskendur, þetta styttir Stundernar, hitt eyk⸗ur Lꝏngsemina. O hvad sꝏrt Harma⸗Spil er þad, ad finna ecki nie fornema JEsu Huggunar Byrtu, og hañs Nꝏdar Nꝏlægd, Lofk. 3.v. 1. Hvilijka Huggun skal sꝏ hafa, hvad kañ hann ad gledia? Enn, mijn Sꝏl, giæt þu ad þijnum Eymd⸗arhætte, opt hendir þig verra eñ Mariam hier, ecki taka þijnar Synder þig alltijd sꝏrt til Hiarta, hveriar þo Adskilnad giora milli Guds og þijn, Es. 59.v. 2. Medann þu ert i Utriettingum Gyrn⸗da þinna, þa giorer þu ecke Rꝏd fyrer þvi hvad ꝏ eptir mun koma; Þu vegur ecki ꝏ medann hvad þwng sw sꝏra Hrygd sie ad tijna JEsu, og sioꝏ hañs ꝏ Bak, lijka vel hendir þig opt sw Blindne, ad þu meinar hañ i Ferdiñi, sem Maria hañs Mo⸗oder, og geingur so fram marga Tijd, ad þu giorir þier ecki añt um hanns Efterleit, eñ eptir ꝏ seirna mꝏtt þu leita hanns med beiskum Tꝏrum og Hi⸗arta⸗Sorg, hverium þu tijndir fyrir Giꝏlijfis og Gleimsku Saker medann þu elskader meira Myrk⸗redenn Lioosed, Joh. 3. v. 19. Þa seger þu, þeir hafa teked burt Herrañ miñ, og eg veit ei hvar þeir

hafa

hafa lagt hañ: Enn hver took hann burt; Nema Synder þijnar? Þu sialf, mijn auma Sæl, hefur burt reked hann. Mich. 3. v. 4. Jæ, þann sem er þitt Lioos, þijn Heill, þitt Riettlæte og þiñ einka Fognudur: hverium villtu þa uñ kienna nema sialfre þier? Joel. 2. v. 12. Enn, mijn Sæl, hafe slijkt einhvern Tijma skored þig sart, leik þier ecke ad þvi optar, fyrer Guds og þinnar Velferdar-Saker; Haf hier epter betre Vakt æ þijnum Herra, græt þu beisklega Synder þijnar, kalla epter þijnum HErra, og þar hann hefur beded marga Stund epter þier, Ezech. 16. v. 6. So bijd og þolinnmood epter honum, Ps. 27. v. 14. Og giæt þu Sakarennar, gior þu þetta, þa, so sem Maria fañ lokſins JEsum, so fær þu og med Fognude hañ funded, hvar uñ allmorg DRottens Oraskañleg Fyrerheit þig hughreysta.

Þeirre leitande og hryggvu Mariu byrtust hier Fyrst Tveir Englar henne til Huggunar. Ord Guds og Sacramentenn, med Fiollda þeirra, sem þad frambera, og wtrietta, byrtast þier hier eiñeñ ' opt: þad þacka þu Naad Guds: fyrer þessa Sendiboda talar DRotteñ til þijn, æmiñer þig og huggar, hlijd þvi fyrra, kiær þig vid hid sijdara, so sem græted Barn vid goodrar Moodur Ord. Og lijka sem þesser blessudu DRottens Englar voru hvijtum Skrwda skrijdder, auglijsande þar med Dijrdar-Vegsemd vors HErra, so ættu sijdarmeir æ Himnum i Ædstu Vegsemd Englunum

lijk

lijk ad verda; epter þad þu hefur þañ svarta Hrigdar Bwning bored hier i Utlegdeñe, att þu þar fyrer Hende, a Lande Lifande Maña, hvijtañ Riettlætes-Skrwda, Opinb. 7. v. 14 J hverium þu att ad lioma eilijflega. Þetta og þvilijkt skal nu lietta þinn Harm, og kiæta þitt sorgfulla Hiarta, enn a medann þesse Fogmdur er þier ecki til fulls afhendtur, þa hefur DRotteñ klædt þig skiærum Riettlætis-Skrwda i Skijrnenne, Tit. 3. v. 5. Hvern hañ og endurnyar i Kvølldmaaltijdarennar Sacramento, og hafer þu gooda Voktun a honum, eru DRottens Englar alltijd til Reidu ad hialpa þier, vernda og vardveita hvar þu ert edur fer, hvert þu Sefur edur Vaker, Ps. 34. v. 8. Sodd ann allt odlast þeir, sem a DRottne Vakt hafa. Hier ad auk segier Textenn, ad sw Sorgfulla Maria hafi loksins fenged ad sia þad sem hun so miøg þraade, og epter hveriu hun leitade, edur sialfañ JEsum, hvern hun hugde Jurtagardsmañeñ vera. Hier sær þu nu þad sañad, mijn Saal, ad hver sem harmande leitar JEsu, hañ fiñur hañ. O hvad stoor Hiartans Glede er soddañ! þo verdur sw Glede þvi stærre, sem hrygdarfullrar Epterleitunar Varañlegleike hefur meire vered ad undañforny, Ja, þvi sætare verdur þa Fundureñ.

Epter þier, miñ JEsu, þraai eg marga Stund, O hvad miøg laangar mig ad meiga sem fyrst koma til þijn wr þessu leidegiarna Lijfi! Eñ, mijn Saal, vert þu til Frids, laat þier ei leidast ofmiøg þessa Bid,

Bid, þu færso opt ad siaa JEsum þig glediande nu i Tijdeñe, og þo sia Hunangs Sætleikans Smeckur verke i þier Leida Hierviſtarennar, og Laungun i Himinenn, hvad villtu þo añad, enn bijda þolinnmood Brwdgumans Tilkomu, Matth. 25. v. 5. etc. Kannſkie Bideñ ſie ſtyttre eñ þu ætlar, og þo hun eñ laung vera kyñe, þa er hun ſamt ſtutt fyrer Gude. Hugleid eñ framar, ad þo Maria fære hier villt um Perſoonuñar, þa er JEſus þo ſamt eiñ Urtagards Vordur, hann bætte þa vondu Gard-Voktun Adams, ſo og lijka þijna, mijn Sæl. J Aldengardenum byriade JEſus Pijnuna, og i honum endade hañ hana, i Aldengardenum uppreis hann fraa Daudum, og ſiaalfur er hann hinn beſte Alldengards-Vaktare ſiñar Chriſtne, ſem frioofgar oſs ſijna Kviſte. J Alldengarde vors Hiarta hefur hañ iñrætt ſitt H. Ord, af hveriu Sædi ad vaxa hiaa Guds Bornum ſæter Dygda Avexter, Elſka, Trw, Þolennmæde, Hoogværd, Lijtelæte og meira ſoddañ, hverier Avexter hann ſiaalfann gledia. Nu þo mitt Hiarta, O HErra JEſu, ſie af þier eiñ vokvadur Alldengardur, ſo ber þad þo, þvi verr, opt einn ſlæmann Avoxt, Devt. 32. v. 32. Og margt Jllgreſe, hvert upp ad ræta mier torveldt veiter, nema þijn Kraptur ſie þar til minn Styrkur, og verke ad þad viñeſt.

O JEſu mitt einka Trauſt, hvers Jnndæle þad er, ad hiaalpa naudſtoddum, væg þu mier aumum, og formæl mier ecke ſem þvi Avaxtalauſa Fijk-

ru

iu-Trie, Marc. 11. v. 14. Veit mier Vanmætt-
ugum og alls þurfande Fulltijnge þinnar Nꝏdar,
og Fødurlegrar Adstodar, samt øllum mijnum
sam-christnum, Amen.

## II. Capitule.

Um̃ Samtal Christi vid Mariu hiꝏ
Grøfeñe.

Og JEsus sagde til heñar: Maria;
hun snerest vid, og sagde: Rabbu-
ni, þad kallast Meistare. JEsus
sagde til heñar: Snertu mig ecke, þvi eg
er eñ eigi uppstijgeñ til mijns Føðurs.
Eñ far til Brædra miña og seig þeim:
Eg fer upp til mijns Fødurs og ydvars
Fødurs, til mijns Guds og ydar Guds.
Þetta er Maria Magdalena, fra hverre
JEsus hafde wtreked Sio Diøfla, hverre
hañ byrte sig fyrst, epter þad hañ hafde
sneiña Morguns Uppriſed a Fyrsta
Dege Vikunnar. Og hun foor, kom og
kuñgiørde Lærresveinunum þeim sin̄ med
hønum høfdu vered, sem hørmudu og
grietu: Eg hefe sied HErrañ, og þetta
sagde hañ mier; og er þeir heyrdu ad hañ
lifde, og hañ være siedur af heñe, trwdu
þeir ei.

Sa

SAl mijn, hygg þu ad þessu nockud framar, og sia, ad þa hid fyrsta took allañ Harm af Mariu, efter þad JEsus hafde kallad hana med Nafne, og hun snereſt vid hønum, konst til hinnar sonnu Þeckingar, og veitte hønum hinn rietta Ærutitil. Þa nefner JEsus þig med Nafne, þegar þu tekur til þijn i Huganum, nu þessa, nu adra, Aminning, nu þessa, nu adra Huggunar Grein, enn þo slijkt sie til margra sameigeñlega talad; Jaa, þegar JEsus i einu og ødru Angre talar so i Einrwme til þijns hriggva Hiarta: Þu ert minn, grææt þu ecke; Vert þu gladur i Von goodrar Endalyktar; Þu ætt mig ad, eg skal hiaalpa þier, og leida yfir allt þad, sem þig hræder og ængrar. Soddann fær þu og opt ad reyna, i Verkum og Vidhøndlan þijns HErra vid þig; Margt gott Meistara Verk hefur hann æ þier giort; Margann Disful hefur hann fraa þier reked, bæde Syndarennar, med andlegre Umvendan, og Fyrergiefningu; So og Hæskans og Olucknnar, med nææskvæmri Verndan; Ps. 107. v. 2. seq. Þetta opt þeckiannlega, optar Oþeckiannlega; Opt hefur hann huggad þig, þegar yms Vidleitne annara i þvi, hefur þier ecke hrifid; Opt hiaalpad þier, þegar adrer hafa þad ecke gietad, og stundum ecke viliad hiaalpa þier, og þetta bæde æ Sææl og Lijkama, fyrr og seinna, leint og opennberlega. Þu sier hier Hææprijsannlegt Meistara Verk æ andlegum Hlutum, og þar nærst æ Lijkamlegum, hv-

ert ſem þu renner Augunum, Hugſkotſins edur Lijkamans; Renner þu þeim til eins hardſvijrads Syndara (hvers Yfirlitur nu mæder margra Siooner) þa ſier þu hanns mikla Langlundar Gied, epter Syndaranum bijdande. Og hver kann hanns Meiſtaraleg Myſkunar og Daaſemdar Verk upp ad telia? Auk þeſſa hugleidum, Saal mijn, hvad JEſus talar hier framar til Mariu; Snertu mig ecke, ſegier hann: Hvar fyrer munde hann ſo tala? Þad vilium vid ſeirna meir framar ſkoda, enn vit þo, ad ein ſterk Trw hefur ecke Aþreiſingar Þorf, Mioolkeñ er Barna Fæda, enn megn Matur fullkomens Manns, Ebr. 5. v. 12. Hier nærſt ſender Frelſarenn Mariu til Lærefveinanna, hveria hann kallar ſijna Brædur, og bijdur henne ad færa þeim þeſſe ſijn Ord; Eg fer upp til mijns Fodurs og ydar Fodurs, til mijns Guds og ydar Guds. Þeſſe Ord hafa i ſier ſtoora Huggun og ſæta Endurnæring. Hann kallar þa hier ſijna Brædur, ſem þo hofdu hneixlaſt aa honum, hann yfirgiefid og affvarid; Þeſſar brotlegu Skiepnur ſijnar, kallar ſaa hædſte HErra og eilijfi Gud ſijna Brædur, þar þo opt auglijſeſt, ad eiñ ſyndugur Jardar-Ormur biſteſt vid, og þyker Oſæmd i, ef einn Veſælingur nefner annann ſier ædre, Gal. 5. v. 26. ſinn Broodur eda Syſtur. So haatt er vaxenn Mannanna Drambſeme, ad þeim þyker bad Læging ſem Gud ſialfur lætur ſier linda; Skamaſt meiga Menn ſijn optſinnis, ef þeſ-

þess være giætt; Von er þvi til þess, miin Saal, þo JEsus bioode þier ad læra af sier Liitelæted, Matth. 11. v. 29. þar hanns ærstwdleg Audmiijkt skijn so lioost og berlega; og enn hefur hann sama Giedslag: Hann kallar þa enn og vill þeckia fyrer siina Brædur, þo syndugèr sieu, sem ei mootstanda Heilogum Anda, P. G. 7. v. 51. helldur læta hann ræda sier og stioorna, gioran de sanna Ydran og Yfirboot; Pad mæ siæ af Matth. 12. Capitula. So er eg þa minn JEsus, og so þinn Brooder, Ebr. 2. v. 11. þo nærsta syndugur sie; vona eg mig samt ad vera einn af þeim Børnum, sem þinn Fader hefur þier giefid; Pu hefur samteingt þier mitt Hollð og Blood, þvi er eg med þier Erfinge þijns og mijns Guds og Fodurs; Pu ert Guds Eingietenn og eilijfur Sonur, heilagur Hreinn og Syndurunum fraskilenn, hinn frijdaste og fegurste, blijdaste og ærstwdlegaste; Enn eg er ad Arfleidslunne þinn Brooder, Gal. 4. v. 5. þvi Gud hefur mig i þier, og fyrer þig, Arfleidt til Andlegra og Himneskra Giæda; Minn Brooder ert þu, þu hefur mier alltijd auðsynt allt gott Brooderne i allre Sælar og Lijkamans Naudsyn, Jæ øllum Mannraunum; eg æ þig fyrer Broodur medann eg life, lijka i Daudanum, og epter Daudañ, jæ, alltijd einn goodañ nærgiæteñ, milldañ og nytsamañ Broodur, og hefi eg þo, þvi midur, þetta Bræðra-Lag tijdunt af mier broted, þo slepper þu alldrei þiñe Trygd og

Trwfeſte. Gen 45. v. 5. Af þvi nu ad þu ert, O JEſu, minn Brooder, þa er eg fullviſs um̃, ad oll mijn Eymd og Veſolld ſnijſt i Fognud; þar af veit eg þad viiſt, ad þu kallar hier þiñ H.mneſka Fodur og ſo minn Fodur og minn Gud: Þvi ſkulu þad alltijd mijn Urræde, ad flya i ſierhverre Hrygd og ꝍliggiande Naudſyn, i ſanne Trw og Trauſte, til þeſſa mijns Guds og Fodurs, þvi hann veiter mier Vidtoku; Eñ þad ꝍngrar mig og hræder, ad eg ſo þrꝍlega hefi þig ſtiggt og moodgad, miñ Himneſke Fader, med Syndum mijnum; Þvi eg er eitt Ohlijdeð Barn, og Illſkañ mijn er ſo yfred mørg og mikil, ad ſtundum veit eg varla, hvad eg giøre. Hegde ſier þvi þitt bleſſada Fodur Hiarta vid mig i hvert ſiñ, ſem hollaſt og hentaſt ſijneſt; Eg vil giarnañ beigia mig under allt þad Hrijs, og ſierhvern þañ Vønd, ſem þijn Myſkun vill ꝍ mig leggia, og taka mier þad til þacka; fullviſs um̃ þad, ad þu ætlar ollu ſem nærſt: margreinda Nærgiætne þijna og Myſkun efa eg alldrei, ad eins bid eg þig, minn Gud og Fader, gack ecke i Doom vid mig og ſtraffa mig ecke i þinne Reide, helldur tiꝍ mier, ſo hier epter ſem hijngad til, midt i Neyd allre, þitt Myſkunar-rijka Fodur-Hiarta, og lꝍt þu ecke, O Drottenn minn, adra lijda fyrer þad, ſem eg illur Þrꝍll hefe broted. Þeſſara ſtrax nefndu Lauſnarans Orda ſkulud þier og vel giæta, elſkuleger Guds Aſtviner, ſem erud Einſtædingar og Forſvars litler fyrer Mønnunum, 5. Moſ. B. 10. v. 18.

lijka

lijka vel hrakter og Foot=trodner, ofann a adra Eymd og Sorg, þvi Verollden̄ plagar ad brwka ecki sijdst sitt Fals og Flærade, sitt Stollts og Skijffinni med ymislegum Rangindum Myskun=arleysi og Spieskap vid soddan̄ Guds Vesælinga: Þeim verdur sagt, beig þin̄ Hrigg, vier vilium þar yfir. Huggist þar vid, þo Verolldin̄ vijsi ydur Dyrnar, þa standa ydur þo opnar Myskunar=Dyr Guds a Himnum, sem er ydar Gud og Fader; Ja, Astrijkur Elsku Fadmur JEsu Christi, ydar Brodurs, er ydur opin̄, lijka sem hann stood hier opin̄ fyrer hanns, þa fyrer Heiminum Munadarlausum, Lærisveinum; Efist ecki, verid Hughrauster, JEsus er eins JEsus og han̄ var þa. JEsus byrtist hier fyrst Mariu Magdalenu, fra hverre hann hafde wtrekid Sio Diofla; Enn fæ eg hier sied, O JEsu; þitt Myskunar=Hiarta, sem betst leitar ad tijndum Saudum, og þa fundnu ber med Fagnade heim a Herdum þier; Þvi soddann saunydrande Syndara elskar þu, og villt ecki fra þier reka, þvi þu ert ecki komin̄ ad kalla Riettlaata, helldur syndugа, til Ydrunar og Yfirbootar, Matth. 9. v. 13. Og þar sem þu þessa til þijn komna endurnærer, þa skrijd eg a medal þessara, hin̄ stærste Syndare, ad þijnum Footum, minn Frelsare, þær fadmande, fullviss um̄ Vidtoku, og kroftuga Saalar Endurnæring efter þijnum O=raskannlegum Loforduм, AMEN.

# 12. Capitule.

Um̃ Kveñaña Utgaungu i añad Siñ til Grafariñar, og um̃ Engiliñ sem þær sau þar og heyrdu.

OG Kvinurnar gengu iñ i Grøfina, og sau eitt Ungmeni sitia til hægri Hlidar skrijddañ sijdu Klædi hvijtu, og þær urdu hræddar.

HVorninn ad Eskunnar Eiginlegleikum sie varid, nær hun er heit, hrein og stadfost, þad auglijser Ord Drottenns: Hun blijfur og þreytest ecke, 1. Cor. 13. v. 4. Og Daudiñ kann ecki ad slijta hana, edur slockva heñar Glædur, Cant. 8. v. 6. Þetta sannadist mikiñ Part a þessum goodu Kvinnum; þeim leid JEsus ecki wr Miñi, hañ var þeim Jlmsætur og elskulegur i Lijfinu, elskulegur var hañ þeim og eirniñ dauiñ: Þær fylgdu honum epter a medañ hann umgieckst, eirniñ þa hann pijndist, doo, og var greftradur, þær leitudu hañs Harmþrwngnar efter þad hañ var uppriseñ, og eckert kunni þær fra hanns Elsku ad skilia. O Gud giæfi! Ad þu christinn Madur elskadir þinn JEsum; An hanns Elsku ert þu ecki ad eins, ecke christinn Madur, helldur Bolvaniñi undirorpiñ, þvi hvor hann elskar ecke Drottiñ JEsum Christum, hañ er Anathema Maranatha (þad er Bolvadur) seger Sancte Paall, 1. Cor. 16. v. 23. Ad Elskann sie sterkare enn Daudenn, þad sie eg a

siaal

sialfs JEsu Elsku, er hann hafde til mijn, hañ lagdi ecki fra sier þessa Elsku, þo hann legdi af sier Lijfid, þeir megnu Kvalaña Straumar kuñu ecki ad utslöckva Elld Elskuñar i mijns JEsu Hiarta; Þvi ætti eg eins ad elska þig, miñ Herra, i Krosse sm Kiœte, þviad i Krossenum er ad marka eins Elsku til þijn; Þad ma kalla Matar Ast, ad elska þig ecki nema i Velgeingniñi, enn falla fra þiñi Elsku a Freistingar Tijdiñi. Eñ med þvi, Herra JEsu, ad nu er su Tijd yfir oss komiñ, a hverri virdast ma, ad Elskañ til þijn sie nærsta miög koolnud, þa virdstu, vegna þiñar heitu Elsku, og Heidurs Nafns þijns, ad styrkia oss, þijn veiku Born, i þinne hreiñe og Omeingadre Elsku stödug ad standa, so vier ecki i heñi koolnum med þessare koolnande Verölldu, helldur upptendrast mættum i heñi, fyrir þañ himneska Astar Elldiñ H. Anda, þu sem elskar þijna Elskendur ætijd og æfinnlega, Joh. 13. v. 1. Sa blessade Engill O Drottinns, sem hier byrtist nu Kviñunum, sijndi sig i eiñi Yngis-Mañs Mind. Hier ma eñ fiña eiñ fagrañ Lærdoom, hverium þu skallt ecki helldur gleima, mijn Saal. Þeir himnesku Guds Englar elldast alldrei, helldur er þeirra Æsku Bloom ætijd sijfelldlegt, og geingur alldrei til Þurdar, hvad Lausnariñ giefur ad merkia, so talande um Borninn: Þeirra Englar a Himnum sia jafnann mijns Fodurs Auglit, sem er a Himnum; Matth. 18. v. 10. Maduriñ, so i þessum Fullkomlegleika, sem odrum i Fyrstuñe af

Gude ſkapadur, hlijtur nu ſijdann Syndafalled til Hrornunar ad ganga, og i Alldurdoomſins Veike opt ad mædaſt, ſamt Pvijngun ymislegri; hvar fyrer David ſeger: Vort Lijf varer-um Siotyger Ar, og nær þad kiemur hætt, þa eru þad Atatyge Ar, og nær þad er ſem koſtulegaſt, þa er þad eintoom Mæda og Erfide, Pſalm. 90. v. 10. Petta ſtadfeſter og Forfaderenn Jacob: Fæir, ſeger hañ, og iller eru mijner Lijfdagar, edur Vegferdar Dagar, Gen. 47. v. 9. Þetta, med fleiri añari Veſolld, eru Syndariñar Verdlaun; Samt hoſum vier i ſlijku þa Huggun, ad vier eigum fyrer Hende Englum DRottinns ſamlijker ad verda i Dijrdinni, og hver ſa, ſem þetta ſitt mæduſama Lijf endar i hreini Trw a JEſum Chriſtum, hann fær fulla Lækning, og Afvending allra Eymda, þar ſem er ſijfelld Æſka, Heilbrygde, og eilijfur Fognudur; Þa eru allar Guds Barna Eymder wti og forgleimdar. Þreigid þvi þoliñmooder, þier Guds Viner, ſem mørg Hrigdar Ar hafid hier afſtadid, og vitid, ad þvi ſtyttra er epter af Leidiñi i ydar Fodur-Land, þar þier verdid ungir ſem onnur Orn, Pſalm. 103. v. 5. Þeſſe DRottinns Engill byrtiſt Konunum ſitiande i Grofiñe; Þar med yſerlijſte hann Sigre og farſællri Endalykt a allre Pijnu og Strijdi vors DRottinns, þvi nu var unninn Sigur a Synd, Dauda, Diofle og Helvijte, eñ Lauſnarans Hvijld og eilijf Majeſtatis Stioornan uppbyriadiſt. So lenge ſem vier lif-
um

um hier a Jørdunñ, þa erum vier i siifelldu Striiðe, hier er ei að eins við Holld og Blood að beriast, helldur og við argviitugañ Heim og illañ Diøful, sterka, slæga og siivakande Ovine, Eph. 6. v. 12. J mooti hverium Gud setur suma af siinum Vælingum, þo i ondverdañ Bardaga edur Fylking. O Herra! hardt og ærdugt er þetta Striid; Enn hverium þu hiaalpar hañ er hoolpiñ; Efter þetta Striid kiemur Hviild og Sigur a Himnum hiaa Gudi, þar dryckiar hañ siina med himneskre Vellystingu aan alls Enda. Engilliñ sat ecki hier a Vinstri, helldur Hægri Hlid, aviisandi Haatign hiñs blessada Sigurvegara JEsu Christi, og ad Gud hefdi honum, eftir hañs Mañdoomi, Sess og Sæti wtvalid til siñar Hægri Handar, sem David umtalar segiande: O Rottenn sagde miinum O Rottne, set þig til miñar hægri Handar, þar til eg legg Ovini þiina Skør Foota þinna, Psalm. 110. v. 1. Hver Ord Christur sialfur itrekar i Gudspiallsins Ordum, Matth. 22. v. 44. Engillinn bodar oss og med þessum Sesse, hvilijkra Kosta Guds Viner hafi sier ad vænta hier a Jørduñi, sem eru, ad eiliisur Gud med siñi Magt og mystunarriikre Vernd, standi þeim til hægri Handar i øllum Mañraunum og Haaskasemdum, so siñi og sialfur Gud hefur lofad med Ordum og endt vid siina i Verkum; hvar fyrer þeir meiga med David fagnande siingia a þeñañ Haatt: Þu rakst miina Ovine a Hæl aptur, þeir eru fallner og fyr-

irfooruſt fyrer þier. O DRotteñ, þu ſem beſt veitſt i hvilijkum Hæſka þijn Born eru ſtodd i þeſſum hætta Heime bæde a Andleganñ og Lijkamleganñ Hatt, Pſalm. 9. v. 4. Slepp þu alldrei af oſs þiñi Myſkunarrijkre Verndar Hond, fadmi hun oſs og geimi i allri Hættu, ſo ad vier alltijd glader i þijnu Hiaalpræde ſijngia meigum med Brwdinne og ſegia: Hañs Vinſtre Hond liggur under mijnu Hofde, og hañs Hægre Hond umfadmar mig,, Cant. 2. v. 6. Amen.

## 13. Capitule.

Um Engilſins Predikun fyrer Kviñunum.

EN Engilliñ ſvarade og ſagde til þeirra: Hrædiſt ei, þvi eg veit ad þier leited ad JEſu af Nazareth, ſem kroſsfeſtur var, eige er hañ hier, þvi ad hañ er uppriſeñ, ſo ſem hañ ſagde: Komed, ſiaaed þañ Stad hvar hañ var lagdur, gangid helldur ſkyndilega burt, og ſeged þad hañs Læriſveinum og Petri, ad hañ ſie uppriſeñ af Dauda: Og, ſiaa, ad hañ mun ganga fyrir ydur i Galilæam.

Næſt fyrerfarande Gudſpialls Texta var oſs Innundervijſad, ad þeſſe DRottinns Engill, ſem hier auglijſteſt Kviñunum, hafi klæddur verid hvijtu Klædi. Ad ſoñu kañ ecki, þu chriſteñ Madur, nooglega hier a Jordu ad utſkijraſt Vegſemd H.

Guds Engla, eñ þad ſkyniu̇m vier, ad þeſſer him-
neſku Andar hafa ecke Klædnadarins Þorf fyrer
ſiᴂlfa ſig, edur ſlijks mannlegs Um̃bwnadar og
Naudþurftar, þo hafa þeir opt ſlijkt brwkad fyrer
Mañа Sioon, nær þeir hafa þeim opiñberaſt, og
þad einungis ſiᴂlfra Mañaña Veikleika vegna,
og til ad kynna þeim þar med eitthvad Gott alltijd,
ſo ſem hier. Engilliñ kieñer med ſijnum Klæd-
nadi, ad vier alltijd brwka ſkulum Sidſamlega
Hegdan, i ollum vorum Athøfnum, ſem riettilega
vilium Chriſtner heita, lijka vel þo vier ſieum eins-
lega ſtadder, þvi alltijd erum vier i Guds og Eng-
lanna Augſyn, jafnvel þo Mennerner ſiᴂi oſs ecki,
um̃ hveria og miklu miña-vardar: Ei ad ſijdur
bligdaſt opt marger meir fyrer þeſſum, helldur eñ
Gudi; O þᴂ ſtooru Skam̃ſyne! Enn ſierdeilis
ſkalltu geyma gooda Sidſemi, og fylgia heñi i þijns
Guds Hwſi og Muſteri, Pred. 3. v. 17. hvar þu
ᴂtt einkum ad þioona Gudi, kom þu ei þᴂngad
nakinn; A Sᴂlunne, edur þeim innra Mañinum,
ſkalltu bera, fyrer ſaña Trw, Skrwda Riettlæti-
ſins, og allshᴂttadrar Gudrækni; Um̃ þetta var-
dar meſt. Þu ſkallt og, af Dæme Guds Barna,
bera þar og ᴂ Lijkamanum ſidſamleg Naudþurf-
tar-Klæde, epter þijnu Stande, enn giora þig
þar ecke til, med nockre Hof-Frækt edur Nybreit-
ni, ſo ſem Dᴂrum Alldar þeſſarar er tijdt; Sodd-
añ Heilræde ſkyllder þu geyma! Þad Fyrſta Ord
Engilſins hier til Kveñaña, er HUGAR Hreſs-
ing.

ing. Hrædist ecke seger hañ, Þvi eg veit ad Þier leited ad hinum Krossfesta JEsu af Nazareth, eige er hañ hier, hann er uppriseñ so sem hañ sagdi. Mañsins Stirkur er ærid lijtill i sialfum sier, æ hañ er ecki stoort ad treysta, hañ vegur nærsta lijtid, jafnvel Þo margur miked læte; Otti og Skielfing er eiñ Arfur, med fleiru slijku, til vor fra Adam kominn, hver opt æ stuttum Tijma hefur Mikil-Menninn fellt, lijka vel og yferbugad Þa, sem St. Peturs Dæmi, og fleiri annarra, utvijsar; Þvi giefur Guds Ande Þetta Heilrædi, fyrer Muñ St. Pauls ollum Þeim sem epter vilia taka: Hvor hann Þykist standa, siaæ so til ad hann falli ecki, 1. Cor. 10. v. 12. Enn Þar sem Þvi hefur nu Þañiñ stundum varid verid fyrer mikil-Monnunum, hvers skal Þa Lijtilmagninn vænta sier? Marger hafa Ottaslegner ordid vid Englanna Opinberan, Jud. 13. v. 21. sem Dæme finnast noog til i Skriftinni. Enn, mijn Saal, hvad sem Þijnu Istoduleyse lijdur, hveriu Þu bid Gud vægia og hægia epter Þorfinne, sem ollu kann til besta ad snwa, Þa Þarftu Þo alldrei ad hrædast nær Þu ert i sannri Epterleit Þijns HErra, Þvi Þa eru Þeir fleyre sem med Þier eru enn æ moote, ef Þu leitar af Hiarta, hann mun i Þvi Verke Þinn innfallande Veikleika og Ostirk myskunsamlega umbera og forlaata, giæt Þu Þess ad Þiñ Edla Brwdgumi JEsus hefur barist og yfiruñid allañ Her Þiña Ovina, so enginn Þeirra fær nockurt Valld æ Þier, og ecki eitt Haar

skaddad a þijnu Hofde an hanns Vilia. Dioss-
ullenn er ad vijsu skædur, enn hann kann ad sonnu
ad offra enn ecke ad uppsvelgia, þar er engenn For-
dæming a þeim sem eru i JEsu Christo. Rom. 8. v.
1. Logmalsins Bolvan er bitur, enn Christur er
Uppfylling Logmalsins og vor Fridur, þess Bol-
van er i Blessan snwed, og hver a hañ trwer er
Riettlatur. Eph. 2. v. 15. Rom. 10. Daudenn er
hardur, enn nu er hañ fyrer JEsum Christum sæt-
ur ordenn, hanns Broddur Syndenn er brotenn,
Ja, hañ er i Sigur uppsvelgdur, 1. Cor. 15. v. 54.
So eitt Guds Barn kañ i Trwñe og sælri Von
goodra Umskipta ad segia til hanns: Kom þu sæll
þegar þu villt.

Heimurenn er falskur og flar, enn lat þu hann
brasta mikid og segia: Vier vilium hañ med Hæd-
ung heimsækia. JEsus svarar og segier til þijn
og mijn, þu Guds Barn!, vered hughraustet, eg
yfirvann Heimeñ; Og til Heimsins segier hann:
Hier skulu þijnar stolltu Bylgiur lækka sig. Allt
þetta att þu i Trwnne ad þeckia og þacka þijnum
blessada JEsu, mijn Sal, og vera Ohrædd, nema
þu skallt Ottast þiñ Gud med Sonarlegum Otta,
sem er med Hiartannlegre Elsku blandadur, þvi
Otte an Elsku er annars Præls-Otte, og varastu
ad styggia þinn Gud. Þannig er nu ein sonn
Gudhrædsla a hreinum Trwar-Grundvelle, og
þiena þier þa aller Hluter til hins besta, Rom. 8.
v. 28. Er þad nu so, þvi villtu þa kvijda? Nu
þeñ-

þeñañ Upprisu-Fögnud vors HErra skipar Eng-
illenn Kvínunum ad boda Lærisveinunum og Pe-
tre, hvern hann hier sierdeilis med Nafne til-tekur.
Alltijd rætast ad Vonum, miñ JEsus, þijn blessud
Ord; Þu segier: Heiler þurfa ecki Læknarans,
helldur þeir sem kranker eru, Matth. 9. v. 12.
Petur hafde þig afsvared, þad var einn hrædelegur
Glæpur, samt var nu hañs Synd gleymd og fyrer-
giefinn. So ert þu DRottenn miñ nadugur og
myskunsamur, þu hefur mesta Myskun veitt þeim
Stoor-Syndugustu, mesta segie eg, þvi heñar
Mikilleike þeckest þvi betur, sem sa er argare og O-
verdugre er vidtekur. Eg vil giora Eydemørkena
ad Stødu-Vøtnum, og þad þurra Landed ad
Uppsprettu-Bruñum, segir DRotteñ hia Spa-
mañenum, Es. 41. v. 18. Þetta nær vel til Stoor-
Syndaranna, þadañ veiter DRotteñ opt beisk-
ustu Ydrunar-Tarum fyrer sinn Anda upp ad sij-
nu Hiarta, eñ fra sier aptur Himneskum Svolun-
ar Straume siñar Myskunar, þa fagna bæder,
Gud og Syndareñ, eins sem goodur Fader fagn-
ar betrande Barne, og verdur so Elskann opt epter
a hin heitasta; DRottens Nad sannar i þessu siñ
Eydstaf: So sañarlega sem eg lifi vil eg ecke Synd-
arans Dauda, helldur ad hann lifi og leidriettest.
Ezech. 33. v. 11. Soddañ Guds Myskunar Sære
breiddest yfir og hulde Peturs Meinsære; O
DRottenn, þu sedur best þa Hungrudu, þar a
bygge eg þa Alyktun, ad eg meiña einganñ nær
stand-

standa til Arfs Myskunar þiñar, enn eina synduga sannydrande Sælu, þvi mier virdest, minn Ilmsæte JEsu, ad þu breider þig yfir slijka, meir enn hiarta-good Mooder yfir sitt siwkt og sundurkramed Barn, hun vill ad sonnu biarga, enn gietur þad ecke alltijd; Enn þu O JEsu, bæde villt og gietur, þvi er þad Ord ollum Hlutum dyrmætara, ad þu ert komeñ i þeññ Heim Synduga Sæluhoolpna ad giora. 1. Tim. 1. v. 15. Hvad skal þier nu þrijsta mijn Sæl til ad elska Elskuna JEsum, ef þad er ecke þetta?

Gud lagde sialfur einn Skiñ-Kyrtil a Adam Fordum, þa hañ stood nakeñ hræddur og skialfande fyrer hañs Augsyn, falleñ i Synd og Dauda, Gen. 3. v. 21. Eñ Myskunar-Hondenn þijn, miñ JEsus, hefur marg Þusund Siñum breitt sig yfir mig nakeñ og skamraudann vegna Syndaña, og meddeilt mier Motle þijns Riettlætis, Es. 61. v. 10. og þañig huled mijna Blygdan, hvers eg vil med heitre Elsku og Þacklæte miñast allar Stunder.

Æ minn O Drottenn, halltu fram vid mig þinne Nææd, eg bid þig af diwpustu Audmykt mijns Hiarta, yfirgief þu mig alldrei, helldur, nær sem eg aumur fell og hrasa, þa væg þu mier, og þa mijn Yfirsioon er mest, syn mier þa epter Þorfinne mesta Myskun, so ad eg, hvern þu hefur so hiartañlega ad þier tekid, endurnært og uppæ-kostad, verde alldrei Þiosnenum ad Bræd nie Herfænge. Amen, seig O JEsu, þijn Bæn er heyrd, AMEN.

# 14. Capituli.

Um̃ Heimfør Kvenãna fra Grøfiñe og Christi Opiñberan.

EN Pær geingu wt skyndelega, og flijdu fra Grøfiñe med Otta og Fagnade miklum, og hlupu, so ad þær kuñgiørdu þad hanns Lærisveinum þviad komiñ var yfir þær Otti og Forundran, og þær søgdu eingvum neitt, þvi þær voru hræddar. Og þa þær geingu ad kuñgiøra þad hañs Lærisveinum, sia þa mætte þeim JEsus, og segier: Heilar sieud þier; og þær geingu til hañs, hielldu um̃ hañs Fætur og tilbædu hañ. Þa sagde JEsus til þeirra; Eige skulud þier ottast, fared og kuñgiøred mijnum Brædrum ad þeir gange i Galilæam, og þar skulu þeir mig sia.

ÞAd mikla Lan og margfolldu Gæfur DRottins, so sem og hañs Huggun og Hugsvølun, eru oss ecke þar til meddeildar, ad vier holldum þm̃ einungis fyrer sialfa oss, helldur, so sem Mageñ medtekur ad sonnu Fæduna (þo ecke einungis fyrer sialfann sig, helldur og hinum ødrum Lijkamans Limum til Styrks og Hressingar); So eigum vier og ad meddeila ødrum þurfande af DRottens

eñs Eigu, ofs i Hendur selldre, sem Raadsmoñum, ef vier skulum ei samlijker vera þeim illa Þioon, er sitt Pund groof i Jordunne, og sijdañ med honum sta Verdlaunenn; Þad gooda Verkid i soddann Efnum skulum vier og ecke ofleinge undanndraga, helldur hrada ofs að þessum, sem ødrum, Dygda-Veige, medann Tijmenn er. Þetta hverttveggia kienna ofs þessar goodu Kvinur i Upphafi þessa H. Texta, og Ord DRottens bijfalar ofs slijkt margsinnis. Stood Kvinnunum eiñeñ gott af Hlijdninne i þessu, hver betre er enn Offur, þvi að Leidenne mættu þær JEsu med Bodan sijns Fridar og Fagnadar; þa mætte þad uñ þær med riettu seigiast, ad þær hefdu Hnossed hondlad, og þa Edla-Perlu funded, hiaa hverri aller Hluter eru rijrer, og allt fyrer hana giefande, hveria þær og ad Vonum fagnande fødmudu, og hielldu uñ JEsu blessadar Fætur. O þa ylmande Glede! O þad sætasta Sælgiæte! O þad Epterlaungunarsamasta Hnoss! Hier er nu ad hugleida þad sem ædur er undañgeinged uñ Mariam Magdalenam, hverre JEsus bannade ad snerta sig, eñ þessum Kvinnum lofade hañs Millde þad. Hvad skal uñ þetta halldа? Þad heyrum vier uñ Mariam, ad hun var bwenn ad medkienna og þeckia JEsum ad vera siñ Edla-Meistara, ædur enn hann bannade heñe þitt, þess er og ecke gieted, ad hun angrast hafe þar af, þo hun þad ecke feinge, þvi hun var full-sødd vordeñ af sannre Trwariñar Glede, og Þeckingu a JE-
 sus

ſu, lifanda uppriſnum ; Eñ þeſſum Eſablondnu og hrœddu Kviñum lofade hañ þetta: So mœtt þu, Guds Barn, lijſa epter hanns Myſkunar Hiarta: alldrei ſyniar hann ſijnum Rœd þyrſtum Skiepnum þeſſarar Andlegu Sœlar Naudþurftar, mikllu helldur bijdur hann hana fram, hañ leitar ſiœlfur epter þeim Vannœttugu Saudum, og leggur Plœſtureñ yfir þeirra Sœr, epter þvi nœkvœmann og Grœdſluriſkañ, ſem Sœrid er vidkvœmara og þarf ſliootare Adgiœrda, og medtekur ſo hvern þegar hann kiemur œ hanns Fund, Joh. 6. v. 37. og rekur eingann frœ ſier, þvi hann ender alltijd ſitt Rœdar Loford, ad ſundurbriootta ecki brœkadann Reir, og wtſlockva ecke lijtt logande Lijn-Kveik, Eſ. 42. v. 3. Alldrei bregdſt þad, JEſus ber meſta Umhyggiu fyrer veikre Trw, ad hun meige nœraſt ſem eitt Lioos; hañ ſem Hwngradur er epter vorre Velferd og Sœluhiœlp, ſkyllde hann ecke nœra og hiœlpa vid þvi Medali, œn hvers vier kuñum ecke ad komaſt i Himna-Rijke? Eñ vorre Skylldu ſkulum vier ei gleyma i þvi ad leita hañs i þeſſare Veike, og hinum mikla Trwar-Vanmœtte, þvi O Rotteñ er Verndan hins Fœtœka og Verndan i Neydeñe; þar fyrer, þu ſem ſlijkt þecker af Orde Guds og fyrer Upplijſing H. Anda, treyſtu Drottni, þvi hann yfirgiefur alldrei þa ſem hanns leita, ſegier David, Pſ. 9. v. 11. Pier veiteſt ad ſoñu, O Madur, ecke Lijkamlega ſem þeſſum Kviñum ad ſiœ hier JEſum, edur hallda og þreifa um hanns bleſſ-

blessadar Fætur, þvi þu geingur nu i Trwnne einn ecke i Skodaniñe, þu horfir a hier sogd Fadmlog med Hugskotsins Augum og andlegre Ihugan, so sem fyrer Speigil og i Raadgaatu, 1.Cor.13.v.12. Laat þier, Saal miin, lynda þad, og þacka þu þiinum JEsu, sem so optlofar þier Syndugri ad þreifa a sier og hallda um siinar Fætur med þiinum andlegu Trwar-Hondum, hveriar hañ Ostyrkvar og skialfande stidur, og helldur so siñe Hende, a þessari þiñe Hende, so hun skuli ecke af honum slitna edur olldungis Maattlaus verda, þaangad til þu fær ad sia hañ um siider so sem hañ er, Auglite til Auglitis. Þvi skallt þu nu, eins sem Jacob, neyta þeirrar Orku, sem Gud giefur, og hallda þiinum HErra, Gen.32.v.26. Vitande ad þar af stendur þier allsheattud Blessan. Fyrre er gulldt eñ vakid er, og so helld eg þad vera i Trwarinnar Efnum; ecke einasta þeir Trwar-sterkustu Stoolpar, helldur og þeir Trwarveiku Guds Vesælingar munu bæde marger komnet, og komast iñ i Hiñna-Rijke og eilijft Lijf, þvi miin veik Trw, sem þo er ecki epter minne, helldur Lijfgiafarans JEsu, Mælingu, giorer ecke hanns miklu Trwfeste Onijta edur ad eingu; vere eg so veikt Barn sem vera vill i Trwñe, medañ JEsus giefur Hiartanlegt Hungur epter sterkare Trw a sialfum sier, þa reiknar hañ mig sitt Barn; og hvad vardar mig þa um añara Doo ma, medañ þesse fordæmer og wtskwfar mier ecke hvad alldrei skiedur, þar hef eg hanns Bref og Jn-

ſigle uppaa. Enn framar hier um̃ ad tala, ſijneſt mier, mijn Saal, ſem þu faaer ad þreifa aa og um̃faδma þijns HErra Fætur i þvi haaverduga Kvölldmaaltijdareñar Sacramento, hvar hañ riettet ad þier ölldungis ſiaalfann ſig, Jaa, allañ ſiñ bleſsada Lijkama, ſitt heilaga Holld og Blood; mun þa þeſſe DRottens Myſkun ecki meiga kiæta þig, og þerra þijn Sorgar-Taar? Sannlega, þar ſem þu medtekur þetta ſannydrandei Trwnne, er þier þad ſo gott, og eingu ſijdur, eñ þo þu hefder i Ferd vered med þeſſum Konum, þvi hver þeſſa Lijffins Fædu medtekur, ſem ſtrax var mællt, hann lifir eilijflega. Joh. 6. v. 35. Eg meina og, mijn Saal, ad riettelega kallaſt meige þijns HErra Fætur, hanns trwlynder Pioonar hier aa Jørdu, þvi þeir eru Sendibodar i Chriſti Stad, ſem Paulus vitnar; Og Eſaias ſegier: Hverſu elſkuleger eru aa Fiöllunum Fætur þeirra, ſem Fridenn boda og Hiaalprædet predika, Eſ. 52. v. 7. Fadma þvi Saal mijn þeſſar Fætur þijns JEſu tilbærelega epter hanns Bode, og haf þaa i ſkylldugum Heidre, Syr. 7. v. 31. Enn varaſtu ad ſetia þig ydrunarlauſa ad þeſſum Footum, þvi þad aflar þier Guds Reide og Hegningar, ſem ei lætur ad ſier hæda. Matth. 22. v. 6.

Minn Elſkulegaſte JEſu, eg vil þig, medañ mier Lijf endeſt, heidra, og heitum Elſkunnar Fadme um̃vefia, og mier hallda um̃ þijnar Fætur, þær kyſſa, og ſkylldu glega jafnann vyrda, þar til hiaalpe þinn Styrkleike mijnum Veikleika, og greide mijnar

Fætur

Fætur fram̃ a Veg Fridarins, so eg Frid-Land eilijfs Lijfs epter þetta Lijf odlast mætte, AMEN.

# 15. Capitule.

Um̃ Vitnisburd Vardhallds-Mañaña af Upprisuñi Christi.

Enn medañ þær gengu i burt, sia! þa komu nockrer af Vardhallds-Moñunum i Borgina og kuñgiørdu Høfud-Prestunum allt hvad vid hafdi borid. Og þeir søfnudust samañ med Olldungunum halldande Radstefnu, og gaafu Strijds-Moñunum ærna Peninga og søgdu: Seged; Ad hañs Lærisveinar komu um̃ Nott, og stælu hönum a medañ vær svafum. Og ef þad kañ ad heyrast fyrer Lands-Doomaranum, skulum vær yfertala hañ, og giøra ydur ohulta. Og þeir tooku Peningana, og giørdu so sem þeim var kient, og þesse Ordroomur er vijdfrægur vordiñ hia Gydingum allt til þessa Dags.

HVersu aumkunarlega ad Satan forblinde syndugar Manneskiur, a hverium hañ hefur Fang feinged, og leidi þær eiñi Villu i adra, þær Grofiñi i Snøruna, þar til eru mørg Dæme

bæde ritud og siaañleg, a þessare sijdurstu Haus-ka-Tijd, a hverri Gud vardveiti sijn Born nad-arsamlega! Menn meiga þad sorgande vita, ad nær Diofullenn hefur svælt einn Syndara til eins Illvirkis, kiemur þar stundum eptir annad og hid þridia, og hyggia sier so ad bæta eina Skom̃ med añari nijrri, og verdur so, epter Lausnarans Ord-um, hia þessum hid sijdara verra hinu fyrra, Luc. 11. v. 26. Þad var stoort Illvirke og hrædileg-ur Glæpur, ad þvi Leite sem Gydingum vidkom, ad þeir, Guds Sonar eiged Foolk, skylldu hneppa hann wt af Vijngardinum og aflijsa hann; Hitt var þo eingu betra, sem a epter kom, ad þar sem þeim var yfirbevijsud JEsu Upprisu Dijrd af þessum Vokturum, og kunnu þar ecke i mooti ad mæla, ad þeir med ærnum Peningum kaupa skyll-du af þeim somu nærsta Oaheyrelega Lijge, og ollum audsiena Uppdiktan, þvi nær Madur sefur, kañ hañ ecki ad vita hvor stelur þo stolid sie, þvi hef-ur og þesse Ord-Roomur ecki ad Ordsakalausu vijdfrægur ordid; Þad er og lijklegt, ad þesser Peningar hafi þeim ecke fricalser vered, helldur eñ Silfur þad sem Judas vidtook, og aptur til þeirra snarade; Þad var og ecki meira ad stela þesum hv-erutveggiu Peningum wr Guds Kistuñi, helldur enn Ærunni fraa Gudi, hveria þo er Oþægra ad fela helldur enn þad Þioofsstolna, so sem þad og gieck þessum vondu Lyganna Kaupmoñum. Lær hier af, þu sem elskar Lygena, og hana glorir þier

stund-

skundum ad Athvarfe, fyrst, hvadañ hun kiemur? Þier svarast: Hun kiemur af Dioflinum, þvi þu munt hafa heyrt þess gietid, ad hañ sie Fader Lygeñar, Joh. 8.v.44. Þetta er nu Grundvollurinn þessarar þiñar Iþroottar. I Añañ Stad þenktu med þier, ad hvilijkum Manne ad Lygiñ giore þig, hvad miog hun upphefie þig? Hun giorer þig, hvort helldur þu brwkar hana þier til Gamans, til Fegrunar þiña illu Mœlefna, eda odrum til Skada og Nidrunar, þa giorer hun þig, sege eg, þo þu meiner ad koma þier stundum fram med heñi, ad Lærisvein Diofulsins og hanns Barni, og fellur þa ecke Epled lœngt frœ Eykenne. Þu mœtt og strax i þridia Mœta siœ, hvert þitt Kaup mune vera fyrer þetta Starf? Sem er Deyding Sœlar þinnar, Sap. 1.v. 11. Lijt þu nu eptir þessu ollu samañ; So muntu siœ, hvad fagurt þetta þitt Leikfœng sie med hveriu þu hyggur þier þo kañskie stundum ad bæta Hag þiñ, edur skiemta þier og odrum. Vara þig, O þu Madur, vid soddañ Heliar Odygd, sem so margañ hefur i Olucku leidt, af þeim sem hana hafa sier tamid. Lœttu ecki helldur kaupa þig til þessa med neinum Fegiofum, nema þu viller kaupa Helvijte til Handa þier, þvi þo Mwtann glanse i þijnum Augum, þa skyllde þier þo fegre þykia Sœl þijn og Æra. Trw mier, so sem þad Upphafid er siallðañ lijkt Endinguñi, so mun þier og synast Fegurdiñ burt af so ofludum Peningum, þegar þig, mœskie œlijka og Judam, velgir vid

þeim epter aa seirna, og þu hlijtur þeim ad wtspya, og Gud wtsteiter þaa af þijnum Kvide, þvi hvad Madurinn nidursaaer mun hann uppskiera, jafnvel þo ei sie giørtRaad fyrer þvi i Upphafi þessarar og þvilijkrar Kauphøndlunar. Laat þu ecki, sege eg enn, Gaafur, 5. Mos. 16. v. 19. slaatt Tal, Vinaattu, Uppheſd, Magt nie Hootaner, edur nockurn Hlut aunann giora Tungu þijna maattlausa edur Maallausa i Sannleikans Opinberan, nær sem Þorf og Skyllda krefur, hann i Liooſe laata, 5. Mos. 17. Þvi þad er þier eingin Boot, þo þad hendi marga, so sem þad hægir einkis Kvolum i Helvijte, þo margir pijnist þar; Eda munntu vockud vilia segia ad þad sie ecki verra fyrir þig enn adra? Vørstu vid þvi, ad ef þu tijdkar ad fiska i þessu Lyginnar Nete, Act. 5. v. 4. sem rided er af Andskotanum, og hætt ir ecke, þa giefur þad um sijdir Bølvan og Olucku i Avinninginn; Og vinna þo sumer so miked til þess Avinnings, ad þeir, lijka sem þesser Vard-Menn, liwga uppaa sialfa sig ymsum Skømmum og Odygdum, þvi sijdur ad þeir vid adra hlijfist, og finna eingre Samvitsku, enn Satan losar þeim aa medann ad giora þaa tryggva edur orugga, lijka sem Hofud-Prestarner Vard-Monnunum. O þu eilijfe Gud, sem ert sialfur Sannleikurenn, vyrdstu med þijnum Sannleiks Anda, Joh. 15. v. 26. ad geyma øll þijn Børn fraa Villu og Svikum Diøfulsins, og aa medal þeirra øll christenn Yfervølld, ad þau hverki þyggi Mwtur, nie odrum

um giefi til ad spilla þar med i nockurn Maata Rikettinum og Sannleikanum, helldur ræki hveru-tveggia i alla Stade efter þijnu Bode, hvert helldur giora er um Rijkann edur Faatækann, so alltijd megi sia Saklausi behallda Sakleysisins Alykt-an, og Doomendurner mege alltijd med Samuel taka til goodrar Samvitsku, hvad sem hver vill tala, 1. Sam. 22. v. 3. Aller vier meigum rjetti-lega reiknast Andleger Voku-Menn og Vaktar-ar yfir Grof vors DRottinns, enn þesse hanns Grof er vort Hiarta: 1. Cor. 3. v. 16. Lijndwk-arner, i hverium vier eigum hann ad geyma, er hrein og Omeingud Trw, þvi Christur bijr fyrir hana i vorum Hiortum; Enginn stelur honum wr þessu Herberge, þo hann misseft, nema vor Svefn, vorar eiginn Synder og Odygder, þeim meigum vier þar um kienna, og sialfa oss þar fyrer skullda. Vilier þu nu hia þier hallda, mijn Hiartkiæra Saal, þijnum Elsku Unnusta JEsu, þa maattu ecki sofa med þeim morgu a þessa Heims Kvollde; Andlegum Dofinnleika verdur þu, fyrer Hiaalp DRottinns, fraa þier ad kasta, ef þu villt ecke missa þinn Herra; Þad syniſt nu sem hann ofri þvi ad vijkia i burtu, af þvi ad Menn festa nu Svefn-inn og hafa fest um Stunder. Hvad sem nu hier af vill verda, veit Gud. O mijn Saal, J Guds Nafne vak þu og tak Vara a þijnum Herra, þvi hier er um einga Smaa-Mune ad tebla, so mun þier vyrdast a þvi sijdarsta Allsheriar Þijnge.

Vak þu i Daglegum Tarum, ſannre Ydran, og heitre Hiartans Bæn; Bid Gud ad veita þier Hiaſtod og Fulltijnge, þvi an hanns formoattu eckert Gott ad giora, og þar ſem ſynaſt maa, ad Lijk-Bondinn ſieu allareidu logd a þennañ Heim, hefur þu Ordſok ſtyniande (med Dwfunne) ſo ad andvarpa ſim Simeon: Nu lat þu DRotteñ þiñ Þioon i Fride fara, Luc. 2. v. 29. Og vilie JEſus enn teigia Tijmann, ſo ad þu ſioaer Fiorbrot Veralldarinnar, i hverium ad allt uñ Koll keyriſt, ſo hallt þu þier þo vid þinn JEſum, þad maa gylda hvad gylda vill, Lijf edur Dauda, hann vill þa allri Beiſkiu i bleſſadann Sætleik ſnwa, burthrinda ollu Dioſulſins Vardhalldi, og afvenda allre Olucku.

Minn goode JEſu, eg veit ad ſonnu, ad eg a ad vera eiñ Vaktari þinnar Grafar, og eiñ af þiñ miñſtu Vsku-Moñum þijns Vijngards, aumur og Overdugur: J hverutveggiu er eg nærſta ſvefnugur, doſiun og ſofande, ſo mier hæfir Blygdan mijns Andlitis; Enn væg þu mier, goode Gud, og haf Medaumkan med mijnum Veikleika, eptir þiñi ſtooru Myſkunſemi, hvor ed hylie og mier fyrergiefe mijn Afbrot, og vaki ſo þitt Verndar-Auga, ſem hverki ſefur nie ſifiar, yfir mier og ollum þijnum Bornum, Pſalm. 121. v. 4. Amen.

* * * * * *

* * *

# 16. Capitule.

Uñ Utgaungu Lærisveinaña til Emaus.

ANN epter þad, þa er tveir af þeim ferduduſt, opiñberade JEſus ſig þeim i añarlegri Lijkingu, þa er þeir gengu uñ Þorpa-Grundernar. Þviad ſiaa þu, ad tveir af þeim gengu þañ ſama Dag til nockurs Kauptuns, þad ed var fraa Jeruſalem Sextyge Skeida-rwm ad Nafne Emaus, og þeir toludu ſijn aa milli, uñ alla þaa Hlute ſem vid høfdu borid.

SJe þad þijn Hiartans Gyrnd og Eptirlaangan, mijn Saal, ad naa Funde þiins aaſtrijka Brwdguma JEſu Chriſti, þa verdur þu ad ſegia lauſt vid þennañ Heim, og ſkilia þig fraa Selſkap Ogudlegra Manna og giora þad af fullri Alvoru, ecki med Ordi einaſta, helldur med Verki og Sañleika, þvi alltijd hefur þu Jllt af Verolldiñe, hun er fordiørfud i Gyrndum Villudooms ſins, þvi Satan er heñar Høfdinge, eptir hvers Pijpu hun danſar, þegar hun bijdur þier Fadmiñ, og lætur ſem blijdaſt, þa hefur hun Dalilæ Hiarta, fullt Svika og ymiſlegra Flærda; þa vard Samſon hid fyrſta faanginn, er hañ laa i Faangi þeirrar Svikſomu Hooru, hveria hann elſkade, Jud. 16. v. 19. So ſem nu þeſſe Hoora var, ſo maattu lijſa epter Verelldiñe,

olldinne; Þu skylldet þvi taka sterkañ Vara a Þier, og varast Svikiñ. Þo þu nu verdir ad um̃gaangast i Heime þessum, 1. Cor. 5. v. 10. medañ þu fær ecke ad kvittast vid Lijkama þessa Dauda, Rom. 7. v. 24. (Hvør Dvol, þo saart mæde margra Gudhræddra Manna Hugskot, sem verda i Flocke Ranglaatra ad flækiast sem Loth i Sodoma), þa sia þu til, ad ei samlager þu þig Ofrioofsomum Verkum Myrkrañ, Eph. 5. v. 11. Edur illre Breitne Gudlausra Hyrduleysingia, ad ei verdir þu Hluttakare Glæpa þeirra, og sijdañ einnig med þeim Strafsins og Oluckuñar. Giæt þu, mijn Saal, i Añañ Stad, hvert þu att ad stefna, ef þu villt finna JEsum; Þesser Lærisveinar hugdu sier ad fara til Emaus, hvert Kauptun lærder Menn hallda sitt Nafn teked hafe af Vatne, af þvi sa Stadur var allavega Votnum um̃gyrdtur, og var eitt oruggt Vijgi fyrer þaa er flija villdu, ef braad Ofsookn bar ad Hondum. Vort Lijf i þessum Heimi er eitt Hrakningsfull Vegferdar Reisa, a hverri marger mædast þrønglega: Sw Harma-Klogun er bædi Forn og Ny. Jacob giorir þvi rietta Yfirskrift þessarar Reisu segiande: Faair og illir eru mijnir Vegferdar-Dagar, Gen. 47. v. 9. Og David seger: Eg em Giestur og framande a Jorduñe, Ps. 119. v. 19. Þessarar Reisu verdur þo goodur Ender fyrer ollum þeim, sem Stefnu hallda til þess himneska Emaus med Huga og Hegdan, þvi þar er þad rietta fasta

Slot

Slot og Frij=Stadur, i hverium Ohulter blijsa þeir sem þangad komast fyrer ollum Ovina Aræsum, og engen Pijna snerter framar. O Rottenns Utvallda, þar eru Straumar lifande Vatns framflootande af Stoole Lambsins, Apoc. 22. v. 1. med ylmande og eilijfre Sætleiks Svolun: Inn til þess Slots flijr Hiartad og Hugurenn, nær hann mædest af þessa Heims Eymd og Hormung, og ymsar Ovina Aræser ædynia, og þad er su Andlega Vegferdar=Reisa, enn hin fullkomna kiemur æ epter. O Drottenn, veit þu mier þijna Naad og Fulltijnge til þess eg stadnæmest ecke i Raade Oguðlegra, helldur burtvikie fra þeim vonda Selskap, og hafi eckert Hlutskipte med þeim, og nær mijn Vegferdar Reisa er æ Enda kliead, þa gled þu mig i þijnu eilijfa Dijrdar=Rijke. J Þridia Maata hugleid þu mijn Saal, hver og hvilijk þu skallt vera ef þu hyggur þier ad finna JEsum. Þesser Reysu=Menn voru JEsu eigenn Læresveinar, og þeir sömu voru hriggver og harmande. Þu maatt og mijn Saal vera JEsu Læresveinn, annars verdur Bid æ Fundenum, þu maatt vera þad, segie eg, i Sannleika enn ecki eintoomu Nafne, med hvert marger vilia nu læta sier duga: Þu ert þad i Sannleika, ef þu elskar JEsum mest allra Hluta, og virder allt Þreck hiaa honum, Phil. 3. v. 8. Ef so er, þa elskar þu og hanns Ord, utbreider þad og medkienner, lætur þier stioorna af honum, og lynda sier hvad sem hann lætr vera. JEsus giefr stutta og skijra

Ut=

Utskijring hier yfir og segier; þier erud mijner Vin-
er ef þier giored þad eg bijd ydur, Joh. 15. v. 14.
Hier œ skalltu leggia alla Krapta, mijn Sæl, med-
añ Lijfed endest; hanns Bod hefur þu, hañs Bod
skalltu eiñeñ geyma; þad er, stunda þad sem þau
biooda, hata, flija og fordast þad þau baña, og ver-
ia ollu þvi Punde sem þiñ JEsus hefur þier i Hen-
dur feinged, þessum þijnum Unnusta til Þocknun-
ar og Avinnings i alla Stade, og œ ollum Tijm-
um: so elskar þu JEsum, og so ertu hanns Vinur.
Enn framar; sie þetta þijn Hiartans Gyrnd og A-
stundan bæde Dœtt og i Hlioode, þa er þad eitt
Merke þar til, ad þu talar þa ecke einasta vid JEs-
um i þijnum Bænum, helldur ræder þu og um hañ
vid adra, vijdfræger hanns Nafn, og wtbreider
hanns Lofstijr med þinne Twngu, þvi þad er henne
tamast sem Hiartanu er kiærast, þu lætur þier þa og
eirneñ lynda hañs Kross, og hañs Ok verdur þier
sætt og elskulegt, þvi tryggver Menn plaga ad lijda
Lwst og Leidt med sijnum Astvin. Lijt nu til, og
skoda grant hvad þu kunner ad sioa af þessu, og þvi-
lijku i Heiminum: Er nu ecki Krosseñ Christi hat-
adur œ þessare Tijd? Eru ecke hanns Bod lœgd til
Sijdu? Eru ecke optast Veralldleger Hluter œ
Tungunne? Hvar er Hoogværd? Hvar er Lijte-
læte? Ad slijku skallt þu huga, og þvi Athugalaus-
are og verre sem Heimurenn gioerest nu, þvi meire
Uppervan skal þad giora þier i Astundan sannrar
Gudhrædslu, og meige brijna þeigt Jœrn so þad
bijte,

lijte, so vere slijkt þier ein Skierping, viler þu annars ecke verda Heimenum samferda ofann til Sodoma og þadañ i Elldenn sem alldrei uppbrennur.
O minn goode Gud, gief oss i JEsu Nafne, Styrk þijns H. Anda, so ad vier elskum þig, og stundum af Hiarta þad sem þu hefur oss boded, so vier eigum þig alltijd ad einn Naadugann Gud bæde i Lijfe og Dauda, Amen.

# 17. Capitule.

Um̃ þad hvernen̄ Christur kom̃ i añarlegre Lijkingu til Emaus Reisu-Mañá.

OG þad skiede so, þa þeir rædduſt vid, og spurduſt aa sijn aa millum ad sialfur JEsus nalægdist þaa, og gieck Jafnframt þeim, enn þeirra Augu voru so halldenn, ad þeir þecktu hann ecke.

HJer wt af hugleid þu enn, mijn Sæl, Elskurijkt Hiartalag þijns DRottens; hañ er alltijd nalægur ollum Sañ-Gudhræddum, og ecke sijst i þeirra Astrijdu og Freistingum, so hañ endurnæri þa, og er styrkur i þeirra Veikleika, hañ vidriettet þa Veiktrwudu, styrkir þa Vanfæru, huggar þa hrelldu, og hiaalpar þeim follnu aa Fætur: þvi skalltu alldrei efa Hiaalpræde og Myskun þijns Guds i nockre Neyd, hann bæde vill og kañ ollu til besta ad koma. Hann segier, hvar sem Tveir edur Þrijr

eru til ſamans komnir i mijnu Nafne, þar vil eg vera midt a medal þeirra: Matth. 18.v.20. Slijkt er good Huggun fyrer alla þa er Ottaſt DRotteñ, enn fyrſt hann er med, hver kann þa ad vera a moote? Fyrſt hañ verndar, hver kann þa ad granda? Þvi ſem hann geymer, hver kann þvi ad ſtela? Hanns Hond er Ohullt Hyrdſla.

Þeſſer Tveir Læriſveinar mætti ſegiaſt ad vera ſem burtvillter Sauder fra DRottenns Sauda Hwſe. Veik Trw uñ Chriſti Uppriſu, og Otti fyrer Arœſum rak þeſſe Lomb a Flootta i hætta Villuſtigu, ſo ef ſa goode Hyrdereñ JEſus, hefde ecki leitad ad þeſſum tyndu Saudum, mundu þeir hafa hitt Ulfiñ, ſem þeim hefde tortijnt; eñ hañs Giædſka veik þeim aptur til Sauda-Hwſſens. O DRotteñ! Opt hef eg aumur burtvillſt fra þiñe Sauda-Hiord, og viked a vondann Glotunar og Glæpa-Stig ymſra Ranglætinga, og nærſta hlijdenn vered Holldſins og Diofulſins Aeggingum, ſem mier hefde eilijfs Dauda aflad, hefder þu ecke, O HErra, uppleitad mig tijndann og tapadann, Luc. 15. v. 6. Og vikid a rietta Leid aptur til þiñar Hiardar. Soddañ Myſkun hefur þu margſiñis audſyndt mier O-verdugum, Lijfid mier opt giefid, og allt annad gott a eg þier ad þacka. Epter ſijna Uppriſu byrteſt JEſus, ecke ollum, helldur alleina ſijnum Læreſveinum, og þeim Gudhræddu Kvinnum, ſem hañ elſkudu, og epter honum leitudu: Þeſſer feingu ad ſia hann eñ ecke adrer, hañ þecker ſijna

og

og hann þeckteſt af ſijnum, Joh. 10. v. 14. Hann viſſe Sorg og Hormung þeſſara ſinna Aſtvina, er þeir bæru epter hañ, hañ kom og ad hugga þa epter ſiñe Loſan; Þier hafed nu ad ſönnu Hrygd, eñ eg ſkal ſiaa ydur aptur, og ydvart Hiarta ſkal fagna, og þañ Fögnud ſkal engeñ af ydur taka. Eñ þeſſa urdu ecke hañs Oviner niotande, er ecke miñtuſt hanns nema til Laſts og Vanvirdu, og ei villdu af Illu læta; Þvi hverneñ kañ ſæ ad vænta ſier JEſu Næalægdar, edur ſæ hana, er hañ Prioofkuſamlega og þrælega fræ ſier hrekur, med Ydrunarlauſu Framhallde Synda og Ræanglætis? Ef ſæ Riettlæte hiælpaſt naumlegà, hvar mun þa ſæ hinn Synduge og Omillde byrtaſt? Ef Guds Viner fæ ad klaga yfir Sioonar-Miſſer ſijns HErra, ſem hann þo af Hiarta gyrnàſt, hvad vill þa hina ſkie, ſem hverke hafa Leit nie Laungun epter honum? Enn hvar JEſus er olldungis burt, þar er Dioſullenn. Heyr þu Barn mitt! Villtu hafa JEſum i Filgd med þier, ſo mæatt þu endelega locka hann til þijn med H. Tali og Gudlegum Munn-Rædum, ſem þeſſer Læriſveinar. Klæm og Keſkne, Bloot og Formælingar, Baktal og Bryxle, hryggia og burtfæla hann, Eph. 5. v. 4. Enn inntaka Satan til Herbergis hiæ þier aptur, og hverſu mun ſoddann Ræade vegna nema illa! Owfurnar hrædaſt Hrafna-Mæalid, og Lombenn Ulfſins Hrinur; Eins er og þeſſu vared; med vondum Muñ-Söfnude rekur þu D Rotteñ i burtu, ſa-
 mt

mt er þeſſe hrædelega Synd ſo ydkud af nockrum, ad jafnvel Børnenn, ſem fyrſt fara ad tala, og mæd- ur eñ þau kuña FADJR-VOR, eru epter Oll- dinne fullſær og ſnidug i Eydum, Nyde, Bloote og Bañe, og rekia ſo þannig Ogudleg Synda-Spor þeirra Satans Erindisreka, er ſlijkt hafa þm̃ kien- dt og fyrer þeim haft, ſo vondra Forelldra, 1. Kong. B. 15. v. 3. ſem añarra Samvitſkulauſra Manna og Synda-Þræla, af hverium Gud mun um̃ ſijder Reikning heimta; þvi ef ſa mæter þwngu Stra- ffe, ſem forſoomar ad leida þeſſa Smælingia til JEſum, med Samlauſte Stundan chriſtelegs Aga og Undervijſunar, þa mun hinum ei liettbærara ver da; hyggi ſierhver ad ſlijku, og vande Verk ſinnar Kollunar i þeſſu ſem hveriu odru, i Guds Nafne; annars mun Barnanna Saalna Klogun, ſart ſvijda ydar Saalum. So vondur ſem ſa Rijke Madur var, þa villde hann þo ecke ſijna Brædur i Helvijte. JEſu bleſſadur Bloods-Kraptur vok- ve, væge og vardveite oſs alla fra þeim Kvala- Stad! Nær þeſſer Emaus Reiſu-Menn voru a Ferdenne hryggver, talande um̃ JEſum, kom hann til þeirra i annarlegri Lijkingu. Þo eg gan- ge i Myrkvum Dal og Daudans Skugga, ſegier David, þa hrædeſt eg einga Oluck u, þvi D Drott- enn er hia mier, Pſ. 23. v. 4. Slijks hafa og Guds- hrædder Menn alltijd ſier ad vænta, hia hverium JEſus er alltijd i Neydenne, hann brigdar ecke ſijn Ord, ſamt eru þeirra Tarafull Augu opt

so Sioondøpur a soddann Tijmum, ad þeir þeckia ecke so fliootlega hanns Naalægd; og þar fyrer maa þar Oskialldann heyra soddann Harma-Klogun: O Drotteñ, þvi geingur þu so fiarlægt og geymer þig a Hørmungar-Tijmanum, Ps. 10. v. 1. Þetta er alijka og þa einn er villtur, og þecker ecke þad sem honum er þo adur kunnugt. Annars byrtest JEsus oss med þrennu moote.

1. Andlega i Ordenu og Sacramentunum; þar sia aum vier hann einasta med Augum Truarennar, enn ecke ødruvijse, og þvi maa slijkt heita ein hulenn Mynd, epter Lijkamlegre Vijsu.

2. Kiemur hañ til vor i einne Framande Myndu, þegar hann sender oss adskiliannlegann Kross og Mootlæte; þa þeckium vier hann opt ecki sem oss byriar, þvi Vanmaattur og Veikleike vor gietur þa ecke alltijd komed þvi fyrer sig, ad hañ elski oss i soddann Tilferlum, lijka sem Barnid kañ ecki fyrr enn sijdar meir, þa þad er komed til Vits og Ara, ad þeckia Fødursins Elsku af Hyrtingunne.

3. Kiemur JEsus til vor i Eigennlegri Mynd, nær hann kiemur med sijna lifande Huggun, bæde Andlega til Saalarinnar, so og eiñenn til Lijkamans, med nærkvæmum Bæter og Linun eiñrar og aññarar Eymdar, Ps. 91. v. 15. Þa epter aa taka Hiørtun vor til ad brenna, edur huxa þañig, þetta hefur mijnum JEsu geinged til ad græta mig, ad hann feinge þvi betra Rwm hiaa mier med sijna Huggun; eg vil hiedann af vid soddann kannast.

Þu ſæte HErra, kom̃ i þeirre Aſynd til mijn ſem hier þocknaſt, þvi þin̄ Tilgangur er alldrei utan̄ goodur; ef þu kiemur og ert hia mier, hvernenn ſem þu kiemur, þa maa allt verda mier ad Goodu, lijka vel maa þa Helvijte ſnwaſt mier i Himnarijki, þvi hvar þu ert, þar er Himnarijke; ætla þo, ſæte JEſu, mier ecke meira en̄ borid giet, Forþienuſtann mijn giorer mig hræddann: þo eg vilie þig ſeigen̄ eiga, og þier treyſta, þa verd eg ſamt Maattvana, ſtander þu fiarlægt, eg vil ſeigen̄ allt lijda med þier, hiaalpa þu mier, og þijn Hiaalp leide mig lokſins af þeſſum Harma og Taara-Veige i eilijft Epterlæti; Þa fæ eg fagnande og frijadur af øllum Eymdum og Haaſka þeſſa Heims, lioomande ſem Sool, i þijnum Liooma, þu bleſſada Sool Riettlæteſins, ad ſiaa þijna Eigennlega Aſynd, eilijflega þig loſande, AMEN.

# 18. Capituli.

Um̃ Samtal Chriſti vid Læreſveinana aa Veiginum.

OG hann ſagde til þeirra: Hvad eru þad fyrer Rædu ſem þid høndled yckar aa mille reikande og erud hriggver þar af? Þa ſvarade ein̄, er Cleophas var ad Nafne, og ſagdi til han̄s: Ert þu alleina ſo Framande til Jeruſalem, ad þu veitſt ecke hvad aa þeſſum Døgum þar inne

hñi giørst hefur? Hañ seger til þeirra: Hvad er þad? Þeir søgdu til hañs: Þad af JEsu af Nazareth, hver ed var Spaadooms Madur, maattugur i Verkum og Ordum fyrer Gude og øllu Foolke: Hveernig ad vorer Hofud Prestar selldu hañ i Fyrerdæmingu Daudans og kroßfestu hañ. Eñ vier vonudum ad hañ munde endurleysa Jsrael: Og yfir allt þetta er nu hiñ þridie Dagur i Dag er þetta skiedi. So og hafa skielft oß nockrar Kviñur af oß til, þær ed aarla høfdu hia Grøfiñe verid, og fundu ecke hañs Lijkama, komu og søgdu sig eirniñ sied hafa Englaña Sioner, þeir sem segia hañ lifa; Og nockrer vt af oß geingu til Grafariñar og fundu eins lijka sem Konurnar høfdu sagt, eñ hañ saau þeir ecke.

EJñ goodur Lækner giefur ecke Lækninga Medol vid einu Saari, eda Siukdoom, nema hann sie aadur ad vita Upphaf og Ordsøk Saarsins edur Siukdoomsins, i Ondverdu; Noog eru Smyrsliñ i Gilead hia þeim stoora Læknis Meystara Jsraelis vid øllum Meinsemdum, samt vill hann ad aller spinnbere sier, med Bæn og ydrande Kvortun, Eymder og Vesølld sijna, og sierhvad sem angrar ad hverium Tijma, ef Boot skal giefast

aſt og Huggun meddeilaſt, ei þad ad hann vite ecke allar vorar Nauder, og hvad oſs þiakar i hvert eitt Sinn; Edur, þvi ſkylldi hann ecki vita hvad hann ſialfur a oſs leggur? Sem veit øll Ord a vorri Twngu, øll Verk og Hugſaner Hiartans, Jer. 17. v. 10. So ſeger hann hier; Hvad mædir ydur ſo miøg? Hvad þreynger ydar Hiarta? Eñ hygg ad, Guds Barn! Þegar JEſus ſyniſt þier ad lata ſo Okunnuglega, þa vill hann lata ſialfa oſs þeckia vort eigid Jſtøduleyſe, Vantrw og Oþolinnmæde med fleyru ſlijku, og tilbwa ſier ſialfum ſo hinn hagfelldaſta Auinningar og Stroffunar Veg til vor, ſo oſs ſialfer betur þeckium, ydrunſt og giørum Boot, þvi nær vier høfum ſo berlega þeckt vora eiginn Vanvirdu, þa fleigium vier oſs med þvi heitare Tarum ad JEſu Footum, og mænum Augunum uppa hanns Myſkun, leggiande Saal og Lijf hønum i Valld, alijka og grated Barn hegdar ſier vid ſijna Moodur: J einu Ordi: Þetta giører JEſus, ſo hann locki til ſijn allt vort Hiarta, og ad þvi giørdu, ſundur breſtur eirninn hanš Myſkunar-rijka Hiarta af nakvæmre Vægd og Medaumkan, Jer. 31. v. 20. O JEſu minn, opt blygdaſt eg ad ſegia Moñum Mein og Angur mijns Hiarta, eñ þier, þu Elſku Mooder, hvoria eg vil hverki, nie ſæ, neins dulid, vil eg hryggur og þo hræddur ſie, þad opinnbera; Þu giører vid þad allt, ſem nærſt er þijnu Hiarta; Allogur þijnar vil eg giarnañ lijda! Ef eg er undir þeim ſaart

grat-

grætande, þa lætur þu mig ecke leinge Huggunar bijda; Eg er þier fyrer þa Trw, sem þu hefur i mier verkad, samteingdur, so ad hvad mijnu Hiarta þreynger, þad þreynger og þijnu Hiarta, og lætur þu þad ecke lenge Bootalaust. Reyndur veit best soddann Sanninde skijrast fortelia.

Af Cleophæ Andsvare uppa DRottens Spurs Maal, lære aller JEsu Piõonarsaña Trygd og Hollustu vid sinn Herra, og þad af sialfs hanns Dæmi; ydur byriar ad vera maattugum i Ordum, med soddañ Rædu, so Amiñingaña sem Huggunaña, er þreyngia sier inn til Hiartans kroptuglega sem tvieggiad Sverd, ad þier avinnid Christo sem fleyrsta, hver' epter þeirre Naad sem honum er giefiñ, an Afdraattar; Þvi ef þier hyggid grant ad, mun ydur Osofande þess Þørf synast nu a Dogum, bæde sialfra ydar og añarra vegna: Þad þarf og endilega ad vera, ad Maattur þesse auglijsist og i Verkunum, so ad þeir, sem þier med hverutveggiu lijsa eiged, siae ydur ecke lifande dauda, Apoc. 3. v. 1. Edur þau somu daudu Verk ydkande, sem þier hardlega straffed og straffa eiged a odrum, Þvi ef odruvijse er, hvad vill þvi epterfylgia? Añad enn þad, ad þier valldid þvi, ad Gud og hañs Ord er forsmaad, og þier so sialfer ad Maklegleikum banvirdter: Er þo sw Vanvirda sem eckert, ef oñur kiæme ecke a epter seirna, hverrar þeir meiga vijst vænta, sem i slijku framfara, og nidurbriota so hrædilega og Blygdunarlauslega þad med añ-

arri-Hendinne, ſem þeir lataſt ſo koſtgiæfilega uppbyggia med añari: Hyggium ad ollum Krijngum-Stædum fyrre og ſeirne hier ꞷ lwtande, ſem þa fyrer ollum Oblindum opnaſt munu. Vorer Hof-ud-Preſtar og Hofdingiar ſelldu hañ i Fyrerdæmingu Daudans og kroſsfeſtu hañ, ſeger Cleophas. Pilatus kroſsfeſte ad ſoñu Jeſum, eñ þeſſer þreyngdu honum þar til; ſa ſem eggiar og ſtyrker einn til til þeſs illa, ſa ſem, ſege eg, ecki hindrar og afrædur ødrum ſem kañ, þad illa, mun hañ ecki vera lijkt ſekur, ef ecki ſekari, eñ hinir ſæwiiſu er þad giora? Hvad giorir þad, ad JEſus og hañs Bod eru nu ſo af morgum ſoottrodiñ? Andſvar; Þetta ſtrax nefnt er ecki hid miñſta, helldur hellſta Ordſok, fyrir utann þad, ad þar finnaſt marger ſem ſtyrkia einn i hañs Ohlutvendni, vegna Beidne þeirrar boluudu Agyrndar, ſem i ſialfum þeim rijker: So eru þeir og eirniñ til, ſem giora eiñ og añañ wt til illra Verka, enn þad þridia ſyniſt nu morgum lijtel Synd, þo þeir gamni ſier ad annarra Vondſku, eñ ad þegia og leggia ecki til, ſkal nu heita Hoogværd og ſtoor Heilagleike: Enn Sooparner eru hverke ſamannbundner, og þar med marger Lim-litler, og þvi mæ þetta gaanga ſo wt, þar til Soopur þeſs Hærſta fellur yfer alla, edur og burtſoopar olldungis ollu ſoddann Endeme i ſinne Reide: O Tijd! O Tijd! Sem nu ſyniſt ad bijda þeſſarar Tijdar.

O þu hærſte HErra JEſu, ecke ad eins Selſkapur Gydinga, helldur mijn Bloodug Jllſku-

Verk

Verk seldu þig i Kvaler og Krossens Dauda. Ei-nusiñi er þad noog: O ad eg giørdi ecke slijkt optar: eg vil, eg vil segenn bæta mig, enn þijn Hiálp styr-ke mig þar til! Þu hefur med þinne Kvol oss alla endurleyst, þar uppa skal sig forlaata, og þvi tr-wa, ad Synder mijnar mune ecke kunna ad hamla þvi, ad eg næe med þier, minn Herra, Jñgaungu i þitt Dijrdar-Rijke; ad fullu sanna eg þad þa, ad þu hafir mig frelsad, nær þu veiter mier Oendann-lega Unadsemd Fognud og Glede i þvi eilijfa Fød-ur-Lande. Cleophas seger framar, ad Kvinnur-nar hafi skielft þa med sijnu Tali, er þo mætti vera þeim hinn stærste Gledi-Bodskapur, hefdu þeir þann Tijma samannborid þad vid JEsu Fyrer-sagner ædur um sijna Uppriisu; en slijks giætu þe-ir ecke, þeirra Harmur og Trwarveike liet þeim ecke epter ad siña neinum Gledi Sogum. So gengur þad og eiñig opt til fyrir oss; Vort ængrædt Hi-arta kiemur ecke alltijd fyrer sig æ soddann Tijd ri-ttre Þeckingu Hlutarins, Esa. 38. v. 11. Þad verdur þa stundum ad Skielfingu, sem añars þi-enar oss til Huggunar, þvi Hollds Skilninguriñ i Mootlætinu er blindur og hindrar fyrer Trwñi, og þeim riettu Skilnings-Augum, 1. Cor. 2 v. 14. Verde þa sagt til eins Krossberara: Þier gengur vel, þvi þu ert Guds Vinur: Þa kiemur honum þesse Sañleikur so undarlega fyrir, sem sie þad Hardyðge og stoort Vorkunarleyse, jafnvel þo hañ megi vita þessa Bevijsing þar uppa: Þesse Hrygd

sem stundleg og liett er, þó tvegar ollum þolinmood-
um JEsu Krossberendum eina eilijfa og yfir allañ
Maata mikla Þijngd Dijrdariñar, 2. Cor. 4. v. 17.
Jaa, Mañsins Trw i Hormung Freistingaña er
nærsta lijk einu Skipe, sem hrekst i stoor-Bilgium
og sterk-Vidre, hveriu þa og þa liggur vid Hvolfe,
eñ steypist þo ecki olldungis, Psalm. 107. v. 17. Eñ
þar fyrir steypist Trwiñ ecki, ad Drottiñ kiemur
so opt i Leitirnar, og helldur sialfur vid, nær allur
Mattur og Pol vill til Grunns gaanga, jaa, nær
fletia ætlar so miog, ad varla er ad fiña eina Hn-
ijfs Eggiar Þickt millum Lijfs og Dauda, þa snijr
Guds Vægdar og Naadar Hond þessu Hroosi
aptur til riettrar Naasar. Miñ goode JEsu, sem
þeckir og grædir soddañ Hættu Saar; Eg trwe
ad soñu, enn hiaalpa þu miñi veikre Trw, og þo
mig aumañ vilie nu margt mæda, og eitt Angur
odru filgia, þa vona eg ad þijn Giædska muni snart
koma, og þessu Vatne i Vijn snwa, AMEN.

# 19. Capitule.

### Um Predikun Christi fyrer Lærisveinunum a Veginum.

OG hañ sagde til þeirra: O þier
heimsker og treger i Hiarta ad tr-
wa þvi ollu sem Spaameñerner
hafa talad; hlaut Christur ecki þetta ad
lijda og iñgaanga so i sijna Dijrd? Og hñ
took

took til fra Moyse og ollum Spamoñ-
um, og lagde wt fyrer þeim allar Ritn-
ingar, þær af honum voru.

ÞEgar Cleophas (sem ꝏdur er umgietid) hafds
opnad og auglijst Sꝏrinn þeim Himneska
Læknir JEsu Christo, þa liet hann eige leinge und-
anndragast ad giora þeim til gooda. Fyrst hell-
ir hañ þar inn beisku Vijni, siñar Stroffunar, og
kallar þꝏ Heimska og Trega; Þvi sañlega er sꝏ
heimskur og nærsta sꝏvijs, sem fylgir Hollds Sk-
insemiñe i Trwariñar Efnum, 2. Cor. 2. v. 14.
Þvi hiñ sami er lijkur þeim Mañi sem kveiker eitt
Lioos midt i ByrtuSoolariñar, i þeirri Meiningu,
ad hañ siꝏe betur til, eins sem Liooſed sie biartara
eñ Sooliñ, sem þo eckert lijser i heñar Lioose: So er
og sꝏ nærsta sꝏvijs, sem ecki vill trwa nema þvi
Einu sem lijkamleg Augu siꝏ, og Hendurnar ꝏ-
þreifa, þo fiñast soddañ Heimskingar fleir eñ skyll-
de, og þad meira er, ad þeir vilia ecki lꝏta sier un-
dirvijsa, og forsmꝏ Vitskuna, Prov. 1. v. 22.
Og med þvi þeir akta ecke um hvad Guds Ord seg-
er þeim, verda þeir ad Vantrwudum Þussum,
Rom. 1. v. 22. meir elskande Lijgina eñ Sañleikañ,
og falla þvi opt i Orvænting; So geingur þad þm
sem hafa Typtun Drottins, og ei vilia sier til hañs
snwa ꝏ medann DRottiñ frambijdur Nꝏdina,
Esa. 65. v. 2. Þau Ord er eg tala, þau eru An-
de og þau eru Lijf, seger vor HErra: Jꝏ minn

Gud,

Gud, þau eru einasta Huggun mijns Hiarta, og ædsta Lækning allra minna Meina, i allre Astrij-du mitt Lijf-Atker, sem alldrei forgeingur. Epter þvi sama þijnu Orde, sem er Ilmur Lijfsins, 2. Cor.2.v.16. verdur þo ad avijta þeña hardhnackada og hreckvijsa Heim, i Tijma og O-Tijma, og þo hann trwe ecke þeirre Predikun, þa blijtur hon sa ad vera Vidleitninn, Ezech. 33. v. 2. ef skie mætte ad honum yrde snwed fra Helvijte.

Sal mijn, forakta ecki Typtan Drottinns, og lat þier þad alldrei mislijka, þo Guds Þioonar straffe þijnar Synder, elska þa miklu framar fyrer þad Verk, þvi þeir vilia þar med leida þig fra Myrkrinu til Liooßins, fra Diofulsins Rijki til Guds Rijkis, þvi nær þeir hafa leidt þig til Saar-anna Þeckingar og þeirra Tilfinningar wt af Logmaalinu, og finna þig slijkt hatande og hafnande Syndinni, leida þeir þig i Smyrsla-Hws Drottiñs Naadar Fyrerheita og Jesu Forþienustu, sem þig þa græder, so þa kiætist Gud og hañs H. Englar, Lúc. 15. v. 7. 10. Þa kiætist þu, þaa kiætast Drottins Eyrindisrekar, og aller þeir sem a Guds Parte standa; Allt soddañ sier þu hier satt ad vera, þvi þegar JEsus hafdi straffad Lærisveinana, huggar hañ þaa strax aptur, segiande: Hlaut Christur ecki þetta ad lijda, og inngaanga so i sijna Dijrd? Sem villdi hañ segia: Þad sem JEsus af Nazareth hefur lidid, þad hefur hañ lidid mañlegu Kyni til Frelsunar, og þad af aliktudu Guds

Raadt

Raade, sem giørdest ædur eñ Madurenn var skapadur, Eph. 1. v. 4. Þad er og allt fyrer-sagt, þvi kunne þad ecke ad slaa Feil. Minn Sæte HErra! Engenn naudgade þier ad lijda so beiska Kvøl og Pijnu, þijn Elska og Oumrædeleg Hiarta-Giædska til Mañkynsins, ad þad fordæmdist ecke, kom þier til þessa, hier fyrer gafst þu þig viliugur i soddañ Pijsler og hrædelegar Kvaler; Mijn Sæl, soddañ Elsku þijns HErra læt þier alldrei gleymast, læt hana, segie eg, vera þier eina sijfellda Uppvakning ad þiena med Trigd og Elsku þessum þijnum Uñusta, so og ad taka viliug hañs Kross uppa þig, sem er þier eiñ Heilsusamlegur Kaleikur, Ps. 115. v. 13. O eitt Astar-Teikn Guds! Þu kannt ecke ad fa stærre Æru hier i Heime, helldur enn ad bera Krossen epter Christo, so þu lijkist hañs Hrigdar Mynd hier i Tijmanum, uppa þad þu faaer epter a, hanns Dijrdar Mynd ad bera eilijflega.

Þegar nu þitt Holld, sem alltijd gyrnest i moote Andanum, amast vid og mootþægist Krosse þijns HErra, þa þagga þad nidur med þvi ad leida þier i Hug þetta Þrent.

1. Guds Rad, sem ælyktad hefur, ad engenn skule a Himnum Coronast utañ sa, sem ædur hefur riettelega barist hier a Jørduñe; oss byriar, segier Postulinn, fyrer margar Hørmungar inn ad ganga i Guds Rijke, Post. G. 14. v. 22.

2. Læt þier i Hug koma JEsu Epterdæme, hafi hañ lided, so mattu og lijda, ef þu skallt lijkiast hon-

honum, fyrst Elskañ hañs til þijn, þvijngade hann ad lijda fyrer þig, so skal og Elskann þijn til hanns þvijnga þig til ad lijda og giora þad hañ þier bodid hefur, 1.Cor.4.v.14. so ad eckert skae þig fra honum og hanns Elsku skilid.

3. Lat þier i Hug koma þa Epterkomande Dijrd, sem Krossenum filger, og Coronu Lijffins, sem þu att ad fa til Launa (efter Guds Nadar Lofordi) fyrer þessa Hrygd sem stundleg og liett er, og ecke hennar Virde. Rom.8.v.18. Athuger þu under Krossens Oki grant þessar Ordsaker, muntu framar fagna Krossenum eñ mootþægast honum, þvi þad er illt Nafn ad heita Ovinur Krossens Christi, og eiga sijdañ fyrer Høndum Fordæmingareñar Æfilok: Phil. 3.v.18.19. Hugsa þu framar a þad, ef þier er þijn Velferd kiær, ad vera ecke lijk þeim Selskap sem þessa Yfirskrift hefur, og vit ad sa maa hier nidur sa i Tarunum, sem þar skal med Fognude uppskiera; Þvi hverneñ skal Gud þerra þau Tarenn sem allrei hafa runned, og hvernenn kunna þau ad reña hia sij-glodum Sælkiera þessa Heims, sem hverki þecker Gud nie sialfann sig.

Loksins lagde JEsus wt fyrer þessum Lærisveinum allar Ritningar um hañ talande: þa sæ eg best ad þeckia þig minn HErra JEsu, nær þitt blessad Ord undervijsar mier um þig, sem bæde gledur og giorer vijsa þa einfølldu. Ps. 119.v.130. Þu Blessada Sarons Bloomstur, þijn Ord eru sem

Allt

Alldingardur, i hverium þau Alldin spretta, sem kiæta Mannsins Saal og Hiarta, og giefa Saalu-hiælplegañ Vijsdoom þinnar soñu Kynningar; J odrum eñ þessum Alldingarde giesst slijkt ecki. Þu ert, O JEsu, sem eitt Gull Eple i Silfur-Skaal H. Ritningar, Prov. 25. v. 11. Þad sama Edla-Hnoß er minn Fiesioodur, hvern mijn Saal elsk-ar, og gyrnest af Hiarta, þvi hann enn eckert annad, er hennar einka Unun i allre Neyd og Angist; Lat-tu O JEsu þijn Ord gledia mijna mædda Saal i Lijfe og Dauda, og epter Daudann, æ þvi sijdar-sta Allsheriar-Þijnge, AMEN.

# 20. Capitule.

Bæn Lærespveinaña ad Christur være hiaa Þeim.

OG þeir tooku ad nalgast Kaup-tuned þad þeir geingu til, og hañ liet þa sem villde hañ leingra gaan ga, þeir neiddu hañ og sogdu: Vert Þu Hiaa Oß HERRA, Þviad KVOLL-DA tekur, og æ DAGINN lijdur.

HVert Ar hefur sinn Utgaang, og hver Dagur sijna Ending, so og eiñinn þetta auma og vesæ-la Lijf, þad fær og uñ sijder ad sia sijna Endalikt: mijner Dagar, med ollum Þwnga og allre Ar-mædu sia loksins sitt Kvolld, æ hveriu eg fer al-farenn wr Heiminum, i Himininn, Joh. 23. v. 4.

wr Strijdenu i Siguriñ, wr Sorgiñe i Gledena, jaa, wr allre Veralldar Astrijdu i Hendur Drottens, Spek. 3. v. 1. Þa er eg komenn i þad Himneska Emaus, til hvers minn Hugur hefur hier opt hvarflad, Hiartad epterlaangad og Augun mænt, og hvert eg nu til þess Tijma þraai marga Stund, Phil. 1 v. 23. Hier þyker sumum gott ad vera, enn Hierveran laung, er laung Plaaga; hier plaagar Synder, hier plaagar Verolld, hier plaagar Dioffull og Freistingar, fyrer utann Hvors-Daglega Mædu, þvi Einn Dagur med odrum hefur sijna Byrde, og opt er aa Einum Deige ecki Eymd Ein; Eñ i þvi Himneska Emaus er feingeñ full Boot allra Meina. EJA VÆRUM VJER ÞAR!

Þegar Læresveinarner naalægduſt Kauptwnid, liet JEsus sem villde hann leingra gaanga. Christenn Madur, Kross og Hormungar eru ad sonnu Holldenu beiskar, þvi þa klagar margur og segier: DRotteñ hefur aangrad mig, saa hinn Almaattuge hefur hrellt mig; ei ad sijdur erum vier aa soddañ Tijmum naalægri þvi Himneska Kauptwne aa margañ Haatt, þvi Hiartad forbetraſt vid Hrygdena, þad sem aadur var kalldt og dofid, verdur þa klockt og Tilfiñingarsamt, þad sem aadur ecki synti uñ DRotteñ, þad leitar þa DRotteñs: Eñ þad er Hormungeñ mest, þegar DRotteñ syniſt ad laata þa, sem vilie hañ forlaata eiñ Kross-Berara, so hañ hlijtur ad klaga med Job og segia: Þu ert mier nu uñsnwenn til eins, sem er hrædelegur og

grid-

audsyner þijna Reide a mier, med þeim Styrkleik=
num þinnar Handar, Job. 30. v. 4. So og med
David segiande: Þvi geingur þu so fiarlægt, og
geymer þig a Hornungar=Tijmanum. Ps. 10.
v. 1. Somuleidis med Jeremia, ad DRottenn
hegde sier sem Giestur og framande, Jer. 14. v. 8.
Thren. 3. v. 3. Og snwe Hendeñe i moote sier: Enn
uñ soddañ Guds Vidhondlan vid sijna, skyniar
Mann ecke alltijd, og kiemur þvi ecki fyrer sig i Hor=
munguñi hvad soddann hafi ad þijda, helldur verd=
ur opt Oþoliñmoodur; Eñ DRotteñs Tilgang=
ur i þessu er sa, ad þessara Trw rietteleg og miklu
dijrmætare fundenn verde helldur enn forgeingelegt
Gull sem i Ellde er reynt, til Lofs, Dijrdar og Heid=
urs, nær JEsus mun opiñberast, 1. Pet. 1. v. 2.
Alijka er þetta, Guds Barn, og nær goodur Vin=
ur sijner sig afundeñ vid þañ sem hañ elskar þo heitt,
enn ætlar honum i Huga sijnum mikla Upphefd og
Æru epter a seirna. Samt ma þvi ecki neita, ad
þessar Rauner sieu saarar og all=vidkvæmar medañ
þær yfirstanda', og hitte þær þig, er audmiwkrar
Bænar Plaastur hin besta Lækning vid þessu Saa=
ri, sem Dæminn morg sijna, bæde þetta Lærisvein=
añа og fleiri, hun afrekar alltijd hia DRottni uñ
sijder einhveria Linun og Lækning, hverrar þu skallt
bidiande bijda þolinnmoodur; Skoda þu Dæmid
a þeirre Canverstu Konu, Matth. 15. v. 22. seq.
Sem er eitt hid lioosasta hier uppa: So og Eck=
iuñar, hverrar Bænar=Naudan kom uñ sijder
G þeim

þeim Rængloata Doomara a Stad til ad hiaalpa henne, hvar yfir JEſus giorer ſoddann Aliktan og ſegier: Skyllde Gud þa ecki giora Frelſun ſinna Utvalldra, ſem Nott og Dag til hañs kalla, eñ þo hañ hafe Þoliñmæde þar yfir? Luc. 18. v. 7. Þetta er nu þad Ofriki, ſem Chriſtur ſegier ad Himnariike þoli, og þeir ſem Ofriikid giori, þeir hreñe þad til ſijn med Makt. Matth. 11. v. 12. Jaa, Gudhræddra Bæner giora ſiaalfum Gude þetta Ofriike, hvert hann giarnañ lijdur. Þo einn Fader være hardhiartadur, þa mætte hann þo ſrida ſig ef Borniñ umkriingdi hañ og griete; þvi munu þa ecki Guds Barna Taar viña a Myſkunar-Hiarta Guds, ſo hann heyri og Bænheyre, ſem giorer hvad þeir Gudhræddu gyrnaſt, heyrir þeirra Andvarp og hiaalpar þeim, Pſ. 145. v. 19. Eg er viſs uppa, ad alldrei misliikar þier þad, O Drottenn minn, þo eg med Bæneñe neyde þig, og hallde mier ad þier, þvi vil eg alltijd giora þad, og maa alldrei miſſa þig; miſſe eg þig, þa miſſe eg Liifid og allt gott; Eg er nu opt hungradur epter þvi, ad faa ad eignaſt þig ad fullu Leite, Pſ. 42. v. 3. Og ſu Dvöl eykur Stundum Hiartanu Trega; og hvad munde þad þa vilia verda, ſkyllda eg midt i þeſſu miſſa þijna Andlega Naalægd, og ſiaa þijn a Bak; O JEſu, laat þad ecki ſkie, vert þu mijn Huggun i Hrygdenne, mitt Lioos i Myrkrenu, mijn Hiaalp i Neydeñi, þaangad til þu ert allt i öllum. Eg kañ ecki med mijnum Peña, ecki med Tunguñe, og ecke
i Hug

i Huganum upptelia allar þær stooru Naudsyniar sem oss þrijsta meiga til ad bidia JEsum hiaa oss ad vera, og hvad mun eg Faavijs þad kunna, sem eg helld ad engeñ giete fullkomlega; Enn þad veit eg sem aller meiga vita, ad Kvolldar nu ærid miog aa marga Vegu i þessum hætta Heime, Jer. 6. v. 4. Og fyrer utañ oñur hañs Kvolld-Rockurs Vitne, eru allar Stietter i hverium hriggelega Kvolldar; þad giorer morgum Guds Bornum Hrædslu og Hiartans Angur; þad er allt vel þo lijde aa þennañ Veralldar-Vetur, þvi fagna Guds Born, og þeir aller aa medal þeirra, sem Von-gooder ordner eru uñ snart-lidenn Hormunga Vetur siñar Hiervistar med Simeone; Enn hitt er Hormung ad vita, hversu allri Dygd og Dygdum Kvolldar i ollum Stiettum. J þeirre Andlegu Kvolldar hreinne Kieñingu Guds Orda, eñ Fals-Lærdoomur og Villur hafa vijda Yfirhond, so alldrei veit nær ad JEsus er olldungis wtrekiñ; og þo hañ sie enn aa Twngunne, og hanns hreirn Lærdoomur, drottnar ei ad sijdur Ranglæted, sem ei kañ ad forelnast vid þetta Lioos, utann añadhvert sie reyndar hatad. J þessare Stiett syneſt Bwksorgeñ opt wtreka Gudhrædſluna, og trwa Aſtundan Embættis Verksins; Agyrndenn teingeſt ſo vid þeſſa ſijna Syſter, Luc. 16. v. 14. Matth. 23. v. 14. Ad Riettvijſi og Myſkunar-Verkum verdur gleymt; Hræsnenn samlagar sig opt þessum, er sig augliisir i Talenu vid Stoor-Meñeñ, hverium spaad verdur

Sigur-For nælega i hveriu Verki og Athofn sem Achab Fordum ; Hier vid bætist Stroffunarleyse Syndanna, Ezech. 33. v. 8. sem nu hefur Hoog-værdar Nafn a þessu Kvollde. Soddañ og fleire Odygder, sem nu fara i Vørt, starta stoor illa a ollum, eñ þo verst a þeim sem lijsa eiga odrum, bæde med Lærdoomi og Lijferni i þessu Rockri, og af hverium, nær Dageñ til fulls byrter, heimtur verdur Reikningur Saalnanna. J þeirre Veralldlegu Stiett Kvølldar eiñenn stoorlega, þvi fyrer utann þad, ad hver Unglinguriñ hleipur uñ añañ þveran i þetta Sæte , og soddañ Zoans Hofdingiar Es. 19.v. 11. sæcka nu ecki, hvar fyrer Løgenn verda a Eyrunum dreigenn ; þa hafa nu Mwtur og Fie-Giolld eitt stoort Geinge, hveriar Ogudleger Meñ þiggia, og begia so Veg Riettarins, Ordsk. 17. v. 23. Es. 1. v. 23. Þessa maa sa Aume og Faatæki giallda, enn til hins Rijka er sagt : Ydar Þienare, farid i Fride. Þier Guds Foolks Doomendur! varist soddann, otteft ORottenn og vijkid fraa Jllu, ad ei verded sialfer sijdar i Reide dæmder, þvi lijka hafid þier Reiknings ad vænta.

J Hwsstiꝛornar-Stiettinne Kvølldar og, þvi þar rijker Asmodeus, Hatur og Ulfbwd medal sumra Hioona, þar siaast Agalaus Børn, med illra Forelldra Uñmerkium, og a þeim Akri eru margar Netlur og Þyrnar Prov. 24. v. 3. Lastanna, sem giorer Hiartans Angur. Þar maa sia a sumum Hiwum Krans Odygdaña, Svik, Ohlijdni.

ni, Agyrni, Ulfbwd, Drambſeme, og adſkilianleg Illſku-Por, ſem nu gǽnga Fiollum hærra. Og hver kañ i ſtuttu Maale ad upptelia allar þær Svijvirdingar ſem nu eru i fullum Proſka ꝏ þeſſu Kvølldi Veralldarinnar. A Sodomæ Borgar Kvollde liſde hun i hrædilegum Skom̃um, ſem hroopudu i Himiniñ, hun foorſt og i Rottinus Reide-Ellde; Eñ hvad nu Illſku Kvolld-Verkum Heimſins (og ꝏ medal añars þeſſa Lands) eptirfylgir, veit Gud, hver lengi hefur þoliñmoodlega bedid, og eñ bijdur eptir Boot. Gud giæfi ad Meñ villdu þeckia ſijna Vondſku! Eñ hvad ſkiedur? Peir þurfa Muñiñ med Hoor-Konuñe og ſegia: Eg hefi eckert illa giort, fyrer þvi mun þar verda einn vondur Tijme. A Kvølldiñ geingur Sooliñ under: Enn, O JEſu, þu bleſſada Sool Riettlætiſins, haf Polinnmæde, gack oſs ecke under, helldur lijs hverre Stiett, ſo hver einn i ſijnu Embætte betre ſig og lære riett ad giora, ſuw þu oſs, ſo er oſs ſnwid, lækna þu oſs, ſo verdum vier heilbrigder; Enn þu hugleid, O Madur, ad Kvølldi þijns Lijfs, ſem kiemur um̃ ſijder, og vert ecki vid þvi varbwiñ, þu veitſt ecki nema þetta Kvølld verdi þitt hid ſijdarſta Kvølld. O JEſu! Eg þrǽe ſem Pioonin, epter þeſſu minna Lijf-Daga Kvollde, yfergief þu mig alldrei, helldur vert þu mier nǽlægur med þijnu Hiǽlpræde i Lijfi og Dauda, AMEN.

* * * * *
* * *

# 21. Capitule.

Um̃ Þeckingu Lærisveinaña a Christo i Giesta-Herberginu, og Apturſnwning til Jeruſalem.

HAun gieck inn og var hia þeim. Og þad ſkiedi þa hañ ſat med þeim til Bords, ad hañ took Braudid, bleſſade þad og braut, og riette ad þeim; Þa opnuduſt þeirra Augu ſo ad þeir þecktu hañ, og hañ hvarf fra þeirra Augum. Og þeir ſøgdu ſijn a mille: Brañ ecki ockar Hiarta i ockur þa hañ talade vid ockur a Veginum, og opnadi fyrir ockur Ritningarnar? Og þeir ſtoodu upp a ſømu Stundu, og ſneru aptur til Jeruſalem, og fundu þa Ellefu ſamañſafnada, og þa ſem med þeim voru, hverier ed ſøgdu: DRotteñ er ſannarlega uppriſeñ og heſur byrſt Simoni; Og þeir ſøgdu hvad giørſt hefde a Veginum, og hverniñ þeir hefdu þeckt hañ i þvi hañ braut Braudid.

ÞO ad ſa Almaattuge Gud ſie i Raun og Sañleika eiñ Oſigrande HErra, og Oyfirviñanlegur Gud, þa verdur hañ þo ſigradur med Bæn

eins

eins syndugs Mañs, sem mörg sañferdug Dæmi sanna. Nær þeir Heidnu villdu Godum sijnum hiá sier hallda, giördu þeir sier Gullvidiur og bundu þau med; Eñ so skalltu ecki heimskulega imynda þier Almætte DRottiñs: Hvrad eins kañ þu honum hiá þier hallda, ad þu brwker þar til trwada Bæn ydugl ega. Eg veit og trwe, HErra JEsu, ad eg er inulæstur i þijn blessud Myskunar Ydur, i hveriun þu hefur vitiad og fundid mig, eg trwe og ad eingenn Hæske, Neyd edur Sverd kañ mig ad slijta wr þiñe Hende, og alldrei yfergiefur þu mig: Þegar eg hefi til þijn kallad i mijnum Bænum, þa hefur þu alltijd giegnt og hiálpad mier, mig mun og hier epter ecki helldur neitt Gott bresta af þiñe Hendi; Þvi þu ert Styrkleikur Lijtilmagnans, Styrkleikur hins Vesæla i Hormungunni, eitt Skiool fyrer Stormvidrinu, og einn Skugge fyrer Of-Hitanum, nær ed Vijkinguriñ Olmast, so sem eitt Hretvidre á moote einum Vegg. Esa. 25. v. 4. Jáa, mijn Bæn til þijn i Neydinne bindur þig betur hiá mier enn nockur Gull-Vidia, þvi Bæn hins Fátæka heyrer þu giarnann, og áangradañ Anda fyrerlijtur þu ecke. HErrañ blessade hier og braut Braudid, og fieck það Lærisveinunum. Þetta var ein Almennileg Máaltijd, þvi ecki er hier (ad mijnu Viti) neitt talad uñ Sacramented, og ber slijkt öllum vel ad hugleida nær þeir medtaka Guds Gáafur edur Fædslu sijns Lijkama, þvi allt vort Uppehellde þigg-

ium vier af Myskunar Hendi Guds, hverri hann upplijkur, og sedur allar lifande Skiepnur med sinne Bleſsan: Psal. 145. v. 15. Þvi skal og sierhver, fyrer audmiwka Packlætis Hond, rietta slijkar Gæfur Guds i JEsu Hond, eñ gleipa ecki Braudid sem gijrugur Hundur, helldur med Bæn og Bleſsan medtaka þaa Fædu, sem Lijkamañ skal sedia og endurnæra; Þu skallt og, hver sem þu ert, vakta þig, ad snara ecke dreiſsuglega fraa þier, nie under Fætur, þeim smaau Braud-Molum, hvar med Skaparenn verdur foraktadur, enn þvi Forakte fylger aa epter Hwngur og Olucka. Hondla þvi alltijd vel med Guds Gæfur, og nær þu ert mettur, prijsa hann, so munt þu ei Skort hafa aa hanns Hiaalp; Vert ei Svijnunum lijkur, er þau nidurfallande Eple af Eikunum upptijna, eñ til Triesins reña þau ecki Augunum; Þm Svijnum er þo sa Madur lijkur sem þyggur og þackar ecki: Soddañ Svijna og Hunda Art fordast þu. Medtaker þu nu Gæfur Guds, sem þier er sagt, og aflir þu þeirra i Sveita þijns Audlitis, froomlega i þiñe Stiett, þa rietter JEsus ad þier og brijtur þier þad Braud, sem hañ vill bleſsa; Eñ hver sem stelur, ruplar og rænir Braudinu wr añarra Hende, hann maa med riettu segiast ad medtaka soddañ Braud wr Satans Hende, hveriu ad fylger Bolvan eñ ecki Bleſsan. HErrañ hafde nu ecki Þorf þeſsarar Maaltijdar, og ei hyrdti hañ um hana; Þu skallt þo bioda þijnum HErra til
Bords

Bords, Guds Barn, hvad þu og giører, so hann er so gott sem þinn Bord-Giestur, ef þu sedur hans þurftuga Lime epter hanns sialfs Bode, hveriu Myskunar-Verke þijnu ad þa eptirfylger rijkugleg tijmanleg og eilijf Blessan, þvi þad þu þessum giorir, reiknar hann sier giørt vera. Es. 58. v. 7. Matth. 25. v. 34. seq.

Vid hier greinda DRottiñs Hondlan opnudust Læri sveinanna Augu, so ad þeir þecktu hann. Af Blessan DRottiñs mættu og, christeñ Madur, skynia Guds Nærdar Nælægd alltijd, þa skylldu þijn Augu opnast til ad þeckia Guds Hætign og þinn Audvirdilegleika og Overdugleika, ja, Guds allt, og þitt eckert. Ef so være, munder þu audmykia þig, eñ ecki vestna i Drambi og Oddygdum, sem margur blindur nu giører, gætande þess allsiitt, ad Guds eru allar Eigur, enn vier erum Rads-Menn þeirra margra, er þar af skulum Reikning HErranum standa a sijnum Tijma.

Ritningenn seger, ad Adams og Evu Augu hafe opnast epter þad þau voru i Syndina falliñ, þa sau þau hrygg og hrædd sijna Blygdan, Gen. 3. v. 7. og Misser þeirrar sæñu og blessudu Guds Myndar, þeynkiande einasta a Kvolina og Daudañ, eñ sau einga Linun nie Harma-Boot. Og þesse Synda-Arfur er so rijkur med odru Illu, lijka vel i morgum sem þo eru af Gude endursæddir, Luc. 8. v. 13. Ebr. 3. v. 14. ad þeir vilia ecke þeckia Gud af hañs Giædsku, edur audmykiast vid

G 5 hanns

hanns Længlundar=Gied, margfalldt Eptirlæte og Velgiørder, ecki heyra talad um̃ Syndina, þvi sijdur þeckia hana, þar til þeir eru um̃ Koll dottn= er, og Guds Vøndur Hiwdfletter þaa, og sian þeir þaa stundum so hryggver sijna Blygdan, ad þeim verdur varla Trw talinn um̃ Guds Nꝍd i Chri= sto JEsu, Psalm. 38. v. 4. Ecke so, christenn Madur! Helldur þar sem DRottenn snijr so opt ad þier sijnum Myskunar og Velgiørda Fadme eina Tijd epter adra, bæde Andlega og Lijkamle= ga, þa laat þier segiast i Þeckingu þijns HErra og soddann Nꝍdar=Tijd, sem þesser Læresveinar, hverier hier i Emaus, vid Braudsins Brotnin= gu, þecktu hann upprisenn vera, og glødduft hiart= annlega, sannande þar med, ad JEsus hefdi fyrer sijna Upprisu øllum trwudum Guds Børnum andlega upprijsande afrekad eilijfa Blessan og Skrwda Riettlætisins, so þau skylldu alldrei fra= mar meir nakinn finnast, Gal. 3. v. 17. Opinb. 3. v. 18.

Medann þesser Lærisveinar voru a Reisune, og JEsus talade fyrer þeim af Ritningunum, brann þeirra Hiarta i þeim, sem þeir hier sijdar auglijsa. So skal og sa andlegi Guds Orda Elldur, hvern JEsus einig frambijdur þier a þessare þinne Rei= su, upptendra i þier, þu Guds Barn, andlegann Elld Trwarennar, Gudhrædslunar, Fagnadar= ins og Kiærleikans, þvi þar sem Guds Ord, er Guds Ord, en̄ ecke Mañaña Ord, so hefur þad og gudlega

gudlega Verkan i þeim og þeirra Hiortum er þad medtaka riettilega, og er þeim sem ein Leidar-Stiarna, hver þeim lijser, so sem þad fegursta Lioos ꝏ ditñum Vege þessararar Villugiornu Eydemerkur, Psalm. 119. v. 105. vermande þau Iskolldu Hiortun; Jer. 23. v. 29. Iꝏ þad blessada Ordid DRottiñs er Sæde allra Dygda, i hverium hellst Akre sem þad fær Rwm og Rætur.

O Herra Jesu, hvad kallt og dofid er optsinnis mitt Hiarta! Þar eru inni margfolld Synda og Sorga Myrkur, sem þiꝏ og ꝏngra mijna Sꝏlu, og þau andlegu Auguñ eru opt ætijd Siondopur; Soddann Eymd mijna ꝏlijttu i Nꝏd minn Hiartans HErra, verm þu og gled mitt Iskallda og sorgande Hiarta med himneskum Astar-Elldi og Huggun þijns H. Anda, og lꝏt so þitt Ord og Liooma þijns Andlitis, sem upplijser Auguñ og þerrar Harmiñ, lijsa mier wr ollum nu yfirstandande Mootgꝏngs Bylgium og Syndaña Skugga til eilijfs Lijfs, Lioosſ og Glede. Lærisveinarner stoodu strax upp, fooru og kunngiordu sijnum Med-Brædrum sier meddeildann JEsu Opinnberunar Fognud. Þegar þu snijst, þa styrk þu Brædur þijna, sagde JEsus fordum til Peturs, Luc. 22. v. 31. Þegar vier medtekid hofum Sætleika DRottiñs Nꝏdar og Myskunarrijkustu Velgiorda Andlegra edur Lijkamlegra, þa eigum vier ecki ad hallda slijku fyrer osſ einsamla, helldur so sem þꝏg epterbreitande Born, giora

odrum

ødrum hid ſama gott af Elſku og Kiærleika, ſem vi-
er i Trwñi ſiñum ad JEſus hafe oſs giort; Sa
ſem af hønum er uppliiſtur, uppliiſi einn annann i
Myrkrum og Villu ſitiande: Sa ſem huggadur
er, huggi aptur i moot þa hryggvu, og ſo i ſierhver-
iu; Þvi hid tendrada Lioos, ſkal ecki ſetiaſt under
Mæli-Aſk, helldur a Kierta Halldenn, ſo þad lii-
ſe øllum þeim i Hwſinu eru, Matth. 5. v. 15. og
chriſtnum Manne byriar ad vera ſem fagre Roos,
er gledur adra i þeirra Hrygdum, þvi ſoddann
ſkartar vel. Minn Gud, gief mier þad Hiarta
og Sinne, ad eg, af þier huggadur, hugge adra
ſorgande, med hvert Slag ſem eg megna, og þier
er Diirdlegt, enn þiinum Børnum þarflegt, ſo
þinn Priis af mier wtbreidiſt alltiid, og i alla
Stade, AMEN.

# 22. Capitule.

Uñ Tiimañ a hverium JEſus kom til
Læriſveinaña, þa hañ byrtiſt þeim
fyrſt i Jeruſalem.

ANN ſeinaſt, er þeir Elleſu ſatu
til Bords, byrtiſt hañ, og þa er
þeir tøludu þetta, var Kvølld þeſs
Dags, ſem fyrſtur er Vikuñar.

ÞEtta Kvølld, ſem JEſus byrtiſt fyrſt Sam-
eigennlega Læriſveinunum, var þeſs Dags, a
hveriuñ hann hafde ſnema Morguns uppriſed, hv-
er

er Dagur nu er vor Sunnudagur, sem ꝍdur er
umgieted. A þessum sama Deige hafde hañ byrt
sig Mariu Magdalenu, so og Kviñunum til sam-
ans, þar næst þeim Emaus Vegfarendum, og sijd
añ Petri, eñ sijdarst ad Kvollde byrtest hañ hier
Læri sveinunum til samans, ad ei skylldu þeir hañs
til Morgundagsins bijda Harmþrœngner; og er
slijk D Rottens Adferd engeñ Nyung, hañs Vani
er ad koma hvad hellst til siña þegar þeim liggia mest
ꝍ; Nær i oll oñur Skiool er fokid, opnast þeim þet-
ta Skiool, þvi þess verdur þa og eiñeñ hvad Hiart-
añlegast leitad; þegar Medlætis og Fridar Dyr
þessa Heims eru Guds Bornum byrgdar hid Yt-
ra, liwkast þeim upp Myskunar Dyr D Rottens
hid Jñra, med Fride og Huggun H. Anda; Þeg-
ar Sorg og Daude strijder ꝍ Utvortis, þa er hann
med Gledinnar Fortolum Innvortis. Haf þvi i
Minne, þu Guds Barn, Kvolld-Veniu Tijma
Guds Hialpræðes, enn þa er Kvolld komed nær
mest ꝍliggur. So byrtest þa Gud ad Kvollde vo-
rum fyrstu Forelldrum, og gaf þeim i sꝍrri Synd
og Dauda stoddum þa sætustu Hugsvolun um
Kviñuñar Sæde, sem þau, og oss alla sijdañ end-
urnærir, Gen. 3. v. 15. Nu synde JEsus þetta
Fyrerheit Guds uppfyllt vera, med Sigre sialfs
sijns Upprisu ꝍ þessari Kvolld-Stund, er hañ kom
til Lærisveinaña; þa var Hoggormsins Hofud sun-
dur marid, og hañ ollum sijnum Herklædum svip-
tur, samt hañs Armleggur sundur brotenn, hvar
vid

vid Saaliñ sig fagnande gledur, Þvi JEsu Christi vors Herra Lijf og Sigur, er vort Lijf og vor Sigur eilijflega. A Kvolld-Tijma kom Dwfañ aptur i Orkina med eitt afbroted Oliu Lauf-Blad, af hveriu Noe fagnande formerkte, ad Flooded være Þverrad a Jorduñe, Gen. 8.v. 11, Frelsarenn JEsus (yfir hvern sw himneska Dwfañ H. Ande kom fyrrei hanns Skijrn) kom hier og a Kvolld-Tijma til siña Lærisveina og færde Þeim hid ylmsætasta Oliu-Lauf-Blad siñar Fagnadarfullu Fridarbodunar: Saa blessade H. Ande kiemur enn i Nafne JEsu Christi i Hiortu Guds Barna med margt eitt Oliu-Blad Guds Naadar Orda og Fyrerheita, samt Hiartans Hugsvolunar, og Þad a Kvollde Hormunganna, synande Þeim Þar med ad Flood Guds Grimdar Reide sie med Floode JEsu Bloods-Kraptar og dyrmæta Sigurs af Þerrad, so og ad Þeirra Taara og Kross-Mædu Flood skuli hier, med Gudlegre Huggun, kriddast og yfirdreifast, enn sijdann til fulls afÞurkast i Þvi eilijfa Fodurlande. Um Kvolld edur Nætur-Tijma kom JEsus til Læresveinanna, Þegar Skipid hraktest um Bilgurnar i Mootvidrenu og huggade Þa, Matth. 14. v. 24. seq. So maattu enn Þa, kiæra Guds Barn, vænta Þijns JEsu Naalægdar, a Noottu edur Kvollde Þinna Mootlætinga, nær Bilgiur Freistinganna og Mootvidre ymsra Mannrauna mæter Þier; Þegar Þu nu sveyma Þykist i Byrleyse Luckunnar og Holldlegs

Medlæti-

Medlætis og soddann Sorgar Hafi, enn sier adra sigla fullum Seglum, þa kiemur JEsus til þijn, huggar þig harmande og segier: Eg em hia þier i Neydenne, eg vil þier þadann wtrickia og þig vegsamlegann giora, Ps. 90. v. 15. Þvi ad þroteñe Veralldlegre Glede, uppbyriast sw Andlega og Himneska, sem ecke er fyrer alla Veralldar Glede wissande: Þad munu þeir sijdar saña satt ad vera, sem hier hafa hleiged, enn þar grœta.

Þegar Lijffins-Kvolld var komed fyrir hinum H. Stephano i Grioot-Hrijdeñe, þa byrte JEsus sig, fyrer Opnan Himnana, standande til Fodursins Hægre Handar, so sem wtbreidande Fadmiñ i moote hanns Sœlu, hveria sœ Guds Ástvinur honum eiñeñ afhendte. Eins lijka, christiñ Madur, œ þijnu sijdarsta Kvollde, byrter JEsus sig þier, so sem reidubwenn, ecke einasta ad taka þig wr Grioot-Hrijd allra Veralldar Anauda, helldur og þa wr diñum Daudans Bondum iñ œ Land Lifande Maña: So bijd nu þa DRottens, sem komande kiemur og ecke tefur, Hab. 2. v. 3. Medann hañ dvelur ad koma, er hann ad tilreida þig ad medtaka sig, so yckar Samfunder verde þvi farsœlli og bœdum Gledelegre. Seint og Snemma, Jœ, ad Morgne, um Middag og Kvolld Opinberade JEsus sig œ sijnum Uppristu-Deige; Hinn same JEsus wtbreider enn Hendur sijnar allañ Dagenn, Es. 65. v. 2. So-hann medtaki alla þa, sem sier vilia til hanns snwa; Um Kvolld, Morgna

og

og Middeige vil eg kveina og grata, þa mun DRotten heyra mijna Raust segier David, Ps. 55.v. 18. Eñ, O HErra JEsu, þu sem so hefur tiað fyrre þijna Mykunseme, þeim sem ad þier hafa leitad, hvad opt meiga Saler þinna Turtil-Dwfna kvaka epter þier og bijda þijn, fra einum Deige til annars, fra Morgne til Kvolld-Rockursins, og fornema ecke þijna sætu Huggunar Raust? O hvad sart vill soddañ Strijd mæda Hiartad! Ad sia þig ecke, er hid þijngsta Mootkast, ofañ a adrar umkrijngiande Mootlætingar. Eñ, mijn Saal, hvar fyrer forundrar þig þesse Bideñ epter þijnum HErra? Ordsokiñ er hia þier sialfri; hann hefur so opt til þijn hroopad eina Tijd epter adra, fra Morgne til Kvollds, og boded þier ad betra þig, og bæta Illverkenn, enn þu hefur daufheyrst, og eckert Ydrunar Andsvar giefed, hallded afram i Syndenne i Glaum og Glede, og audsynt þañig Priootsku og Fiandskap i giegn þijnum Gude og HErra, Es. 22.v. 12. Rom. 8.v. 7. 8. Þvi er þad nu meir eñ verdskulldad, O sæte JEsu, þo eg um nockurn Tijma meige þijn eiñeñ bijda i mijnum Hormungum, Ja, þo þu later mig hroopa epter þier fra einu Kvolldenu til annars, þa skal þo ei orvænta, þvi þar med geingur þu þo ecki i fullann Reikning minna Misgiorda, hvern Reikning engenn fær stadest, Joh. 11.v. 6. Þijn Mykunseme er so mikil og brennheit, ad þu giorer ecke epter þiñe Grimdar Reide, og snijr þier ecke til ad fordiarfa alldeilis, hvad

hvad munde añars verda af eiñum Jardar Orme, sem inndruckid hefur Syndena sem Jordeñ Vatned? Jaa, O Rottenn, þu sem sagt hefur til vor; vidurkienn ad eins þijnar Synder. Eg vidurkieñe þær miñ Gud af Hiarta, og bid uñ Naad i JEsu Nafne, þar fyrer veit eg og, ad þu villt ecke leinge ofsækia þetta visnada Haalm-Straa, þvi þad er eingenn Prijs þijnu Nafne nie þiñe stooru Myskun þo þvi burt feiker med Stormie þinnar riettferdugu Reidei eilijfar Pijsler, þu sem svared hefur, ad ei vilier Syndarans Glötun, Ezech.33.v.1. Eg skal nu vona og bijda, þijn Dvöl er engeñ Naadar Afneitun, helldur minnar Bænar og Trwar Upporfvan; O ad eg kinne þessu alltijd riettelega fyrer mig ad koma! Þa munde mijn Ønd þreya audmiwk og þolinmoodare, helldur enn opt skiedur, epter Kvollds-Stund þiñe, minn HErra; þvi komer þu ecke fyrre, þa kiemur þu þo aa heñe, þesse þiñ Tijme er og hiñ besti Tijme; beste segie eg, þvi þa verdur Mañ fegnastur, nær hañ er sem þurftugastur, þinn Koss verdur mier þa sætastur, þegar eg er sem særdastur. Eñ, O þu Mooder Myskunsamasta! þegar Kered er orded af Hormungum fullt allt aa Barma, so mijnum Veikleika tekur ad ofbiooda leingur af ad swpa, laat þu mig þa ecki leinge bijda þinna Naadar-rijku Uñskipta, Joh.2.v.9. Eg vil feigeñ hier epter tilstunda fyrer þijna Hiaalp ad draga ecke leingur undañ mijna Ydran til Kvollds, helldur ad medann þar kallast eñ i Dag vil eg hvert Dags

Kvolld væta þijna Fætur med Taarum, samanblondudum vid þitt Blood i Trwnne, og midt i þvi Verke wtaf ſofna, þar til eg ſkal um̃ ſijder, hiedan̄ af hier kalladur, til fulls ſofna, og Dauden̄ aa mijnu ſijdarſta Lijfs Kvollde ſtormar aa þetta veſæla Bein-Hws, ſo hann þad nidurbrioote og Saalunne þadan̄ wthyſe; hugſvala mier þa, O JEſu, med þinne Fridar Naalægd, og dreip þa aa Saalu mijna þeſſu Hunaange: Vert þu hughrauſtur Sonur þier eru þijnar Synder fyrergiefnar; So maa Kroppurinn fara i Jordena, enn Saalen̄ falle i þin̄ Fadm, min̄ JEſu, ſem ert vort Lijf og Uppriſa, Joh. 11. v. 25. Amen̄.

## 23. Capituli.

### Um̃ JEſu Komu ad luktum Dyrum.

HEd Dyrnar voru apturluktar, þared Læriſveinarner voru Samannkomner, fyrer Hrædſlu Saker vid Gydinga.

SO ſem þad hefur optaſt verid Venia Guds Almaattugs, ad koma til ſin̄a aa Kvolld-Tijmanum, edur ad undergeingenne Sool Veralldlegs Medlætis, mannlegra Urræda og Huggunar, þvi heiler þurfa ecki Læknarans; So er þad og einn han̄s tijdkannlegur Haattur ad koma til þeirra ad luktum Dyrum, lijka ſem hier til Læreſveinanna. Sa lifande Gud, ſem ſkapad hefur allra Hluta

Edli,

Edle og Nꝏtturu, er ecke Nꝏtturunne undergief-
inn eda vid hana bundenn, honum er eckert Ord O-
mꝏttugt, og engeñ Hlutur kañ hindra edur hamla
hanns fullkomeñe Fyrerætlan; þess byriar Guds
Børnum ad giæta, i hvada Oefnum sem þau eru
stodd, þa nær Gud alltijd til þeirra, þvi hañ er all-
stadar, og uppfyller Himin og Jørd: Þad beviijs-
ade vor HErra med sialfu Verkinu, i þvi hañ kom
hier med Ønd og Lijkama i giegnum læstar Dyr.
Hann sem ꝏdur fæddest i Heimenn af Osaurgudu
og Ospiølludu Meyar-Lijfe, og uppreis af til-lukt-
re Grøf, med Innsigludum Steine, hañ kann og
ad þreingia sier þar iñ, hvar mannleg Skynseme
sier enga Vegu, sem er medal annars i þær innstu
Hiartans-Nætur, hvadañ hañs Kraptur sier wt-
dreifir: Slijk Ihugan er alla Tijma ein stoor Gle-
de og Sꝏlar-Svølun. Hier fꝏum vier aumer
Menn ad dragast med þrøngbærann Daudans
Lijkama, medañ Sꝏleñ hefur þar iñe siñ Bwstad,
hver epter hennar Vidskilnad fær ad snwast i sitt
fyrra Verkefne, þvi hañ er Molld, og ad Molldu
skal hañ aptur verda og Madka Fæda, hveria Job
kallar sijna Moodur og Systur, Job. 7. v. 14. Eñ
þesse O-ꝏsialeige Saur verdur sijdar i Uppris-
unne, af Guds Almættis Krapte, fyrer JEsu
Upprisu, endurnyadur, fegradur og forklꝏrad-
ur, og Sꝏluñe samteingdur, til ad lifa i Gnoogt
Fagnadarens hiꝏ Gude eilijflega: Matth. 13. v.
43. Soddann mꝏga kallast luktar Dyr fyrer

mannlegre Skynseme, enn er þo Hindrunarlaus Vegur fyrer Guds Almætte, hvar til sonn Trw segier sitt Amen.

Auk þessa eru margar til-luktar Dyr ad finna, giegnum hveriar JEsus kiemst og kiemur þo alltijd til sinna Astvina, oc þægelegum Hiaalpar-Tijma: Opt virdest veikum Mañe, einkum i Freistingunum, ad Guds Hiarta-Dyr sieu hardlega aptur-læstar, so þadann fæst varla einn Huggunar-Drope, og segier þvi med sijnum HErra: Gud minn, Gud miñ, hvar fyrer hefur þu yfirgiefid mig. Enn iñañ skams, þa minst varer, upplijkur JEsus soddañ Dyrum, so Madureñ vidlijfgadur, hrestur og endurnærdur, segier aptur: Pad er Fullkomnad, Gud hefur miñ Hrigdar-Seck i sundur slited, og hiartannlega ad sier tekid mijna Saalu; Es. 38.v.17. Og hversu ununarsamlega med Tvosolldum Bæter eptera, ad JEsus upplwke þessum læstu Dyrum veit Reynslañ giørst ad segia. Opt er Mañaña Hiarta-Dyrum i Sannleika apturlokad fyrer þeim, er i Eymd, Besolld og Sorgum velkiast, so þar er ecke ad fa einn Bægdar nie Vorkunar-Dropa, helldur eñ Vatn af hørdum Hellu Steine; Og hverrar Vorkunar skal Mann vænta hia þeim, sem meir hæda eñ vorkieña, meir bryrla eñ bæta um añarra Mañ-Rauner, og giefa Mootlætingum þeirra Olucku Nafn? soddañ Satans Nødrur, firdtar øllum Kiærleiks-Taugum, skiera særara enn nockurt Sverd, þvi þeir hafa lært

af sijnum Fodur ad deyda og drepa, særa og stijnga; Þetta giora þeir daglega sinni eiginn Sealu, og hælast um̃ þad eptir æ; Og þvi munu þeir þa hlijfast vid adra? Enn med soddann Adferd þeirra bætist opt eitt æ annad ofann. Lijka verdur Stundum Vina og Naunga Stodinn vollt æ Mootgangs-Tijmanum, Ps. 38. v. 12. So hier er nærsta saatt sem fulltreysta mege, Ja, eckert nema blessad Mysturar-Hiarta Guds, hvers Hond ad medtekur nær Mañaña Hond burt hrekur; Þegar Verolldinn hefur ælyktad og sagt: Eg hefi eckert med þeñañ Mañ ad bestilla; Þa seger JEsus: Mier ert þu Velkomiñ, þu ert minn, eg þecke þig med Nafne, og þu hefur funded Naad fyrer mijnum Augum: Ad þessu Skiooli opnu, mæ fara um̃ hinar Dyrnar sem fara vill; JEsus hefur noog Skiool, noog Raad, lijka vel ad upplæta hveriar Dyr sem hañ vill fyrir sijnum, so sæ Ogudlege mæ Stundum þiena einu Guds Barne æ moote sijnum Vilia. So hefur Jesus þessar Dyr upplætid! Vorar eigiñ Hiartans Dyr eru optsiñis hardlæstar bædi fyrir sialfum Gudi med Ydrunarleysinu, so þo hañ æ þær tijdt klappe, Opinb. 3. v. 20. fær hañ þar ecke iñe: So og fyrer hañs Voludum, þvi mæ Lazarus so opt Kaunum vafiñ liggia fyrir Dyrum wti, Luc. 16. v. 20. Ad bæde er Hiartad og Hwsed lokad. JEsus kiemur ad luktum Dyrum, og kremur med Krossins Hamri so þad Ydrunarlausa Hiarta, ad þad

verdur ſundurmared, og þad Medaumkunarlau⸗ ſa maa læra af Svida ſiña eigiñ Saara, ad kieña i Briooſti uñ adra, og vita ſo hvad þeir hafa ad bera, grraatande ſijdañ med Grratendum. Vort Hiarta, ſege eg eñ, er ſo hardlæſt, ad þar fiñſt eing⸗ iñ Taara⸗Dropi, eingiñ Andakt, eingiñ Andvarp⸗ an, og eingiñ Huggun, þo Hugurinn hwngradur vilie þetta odlaſt, hier af kiemur þad þa opt, ad Vonar og Trwariñar⸗Dyr verda ærid naumar, ſo Hiartad veit ecke hvad uppa ſkal ſlaa, edur til Bragds taka; Midt inn i þetta Volundar⸗Hws, kiemur Meina⸗Booinn bleſſadur JEſus, mykter, vokvar og huggar Hiartad, ſo þad endurnæreſt af Jl hanns Aſtar og Anda, og kiemſt ſo til Ro⸗ legheita. Jaa, miñ JEſu, þig kañ eckert ad hind⸗ ra, og ecke Synder mijnar, ad koma til mijn, Rom. 8. v. 38. ſeq. Þegar eg ſæ þaa Naad ad eg gyrniſt þig af Hiarta, og hveriar hellſt Dyr ſem mier opn⸗ aſt til Lijfs edur Saalar⸗Nota, til Tijmañlegra og Eilijfra Giæda, þa eru þær mier af þier opnad⸗ ar, þu bleſſade Liooſsins og Lijfſins Fader, hvørs Elſku Elldur ad alltijd er brennande, hvørs Hugguuar⸗Brunnur alldrei þrijtur þeim hrygg⸗ vu, Eſ. 55. v. 1. Og þo aller adrer gleyme mier, þa gleymer þu mier alldrei, og ei muntu nockurn Tijma fyrer mier læſa þijnum Myſkunar og Naad⸗ ar⸗Dyrum: J hverium hellſt Þreyngſlum ſem eg er ſtaddur, þa nær þijn Naadar⸗Hønd alltijd til mijn: So hefur þad verid, ſo mun þad verda eins

a Noott sem Dege. Og so sem þu hefur marga Hialp og Medamkan veitt mier, so bid eg þinn H. Andi stioorni mier, Mystum ad veita þeim eg a og kañ ad biarga med Ord edur Verk, so hverki sinist Hendur, Hws, nie Hiarta, læst fyrer þijnum Volludum Saudum, helldur hier epter alltijd opid fyrir þijnu Bodi og blessudum Vilia; enn hardlæst fyrir Diefle og hreckvijsum Heimi þessum, samt Hollds og Bloods Gyrndum. Þu gafst mier þitt Mystunar-Hiarta, þier gief eg aptur mitt Hiarta; Soddañ Vijti eru hin bestu, lat mier so opnar Dyr eilijfs Lijfs a Dauda-Stunduñi, ad eg med öllum Utvölldum ödlist þad himneska Dijrdariñar Heimkyñi. Þess skalltu adgiæta, mijn Sal, ad þa JEsus var iñkomiñ ad luktum Dyrum til Lærisveinaña, þa stood hañ. Adur felldu hann Syndir vorar i Þijnu og Þijsler, i Daudañ og lokfins i Gröfina, nu er hañ med veglegum Sigre uppstadiñ, og stendur sem Hetia hia þeim hræddu, Huggarinn hia hryggvum, Vidriettariñ hia follnum, Lækniriñ hia siwkum, Lærimeistarinn hia sawijsum, Verndariñ hia Offsooktum, Hirdirinn hia Saudunum, og Lijfed hia Daudum. A soddann Hatt vill JEsus enn standa hia öllum þeim, sem a hann trwa, þvi hann er med þeim alla Daga allt til Enda Veralldar, Matth: 28. v. 20. Falli eg nu aumur eitthvert Sinn under Krossins Byrde, edur (seint opt skiedur) i Syndena, eg skal þo gledia mig vid minn JEsum, siñ hia

mier ſtendur og vidrietter mig, Ja', þo Diøfull og Heimur binde ſijn Raad ſaman mig ad fella, og mier fyrerkoma, eg vil þo ſamt Okvijdinn vona a JEſum, hann mun mig aumann ſtirkia ſo eg faae ſigrad i hanns Krapte. Hitt angrar mig og hryggeder optlega, ad eg hefi auked þier, O Drottin minn, Mein og Mæðu, med mijnum Illgiørdum, og þad eg enn ſo tijdt ſtyggi og hryggi þig, minn Frelſare; Eg vil feigenn varda Boot vid ſlijku, enn mijnum Veikleika og Vanmætte vægi þijn Giæðſka, ſem veit af hveriu Verk-Efni eg er; Eg vil af øllu Hiarta i Trw og Þacklæte þier þioona; Eg vil glediaſt mig midt i mijnum Eymdum vid þinn Sigur a Diøflinum og øllum hanns Her, hvern þu hefur Footum troded: Þar fyrer Lof ſynge þier Englar og Menn, og allt hvad er og heiter a Himne og Jordu, Amen.

## 24. Capitule.

Umm þad, ad JEſus ſtood i Mided.

**O** JEſus kom ſialfur, og ſtood i Mided þeirra, og midt a medal þeirra ſagde hann þeim.

**M**Ided hefur alla Tijd veglegur Stadur verid halldinn og hid hærſta Tignar-Sæte, þann Seſs hafa opt wtvalid þeir meſtu Magtar-Menn, einig hafa þeir Yppurſtu Hluter þar Stadar numed: A Feſtingar-Himninum er Sooliinn i Mided hiar

Plan

Planetunum: J Mided var Lijffsins Tried i Edens Alldingarde: Alltijd er Manndygdiñ i Midiid: Hiartad Mannsins er midt i Briostinu; Og Medaihoofid œ alltijd ad aktast og vardveitast, þo oss þad nærsta erfidt veite; Þad hindrar Satan sem mest hañ mœ: J Syndiñe leitar hañ vid ad giora oss añadhvert of-hughrausta, edur of-Orvæntingarfulla, so ad œ einhvern Hiart skuli Þœnkarner ploaga oss lijka vel til Dauda: Þetta vill hañ, añadhvert vier giora skulum ofmiked edur oflijted af fleirstum Hlutum. JEsus hefur ratad fyrer oss alla Medalhoofed, bætt og uppfyllt med sinne Fullkomnan allann vorn Ofullkomlegleika: Hvar sem vor Sœal sier til hañs, edur skignist epter honum, þa er hann alltijd i Mided. Ef þu skignest epter honum œ Himnum, þa er hañ þar Mid-Persoonañ þeirrar hæblessudu Guddoomsins Þrenningar i þeim eina og eilijfa Guddoome, þvi Þrijr eru þeir sem Vitnisburdenn giefa œ Himne, Fadirinn, Ordid og H. Ande, og þesser Þrijr eru Eitt, 1. Joh. 5. v. 7. Þar œ Himnum er JEsus einn Medalgœngare mille Guds og Manna, 1. Tim. 2. v. 5. Þar er hañ sœ himneske Aaron med Reikelsis Kier siñar dijrmætrar Fyrerboonar; Vilie Gud med Reidinnar Sverde Syndaranum nidur hrinda til Helvijtis, þa fellur JEsus i Fodursins Fœang med sinn Betaling og bidur Vægdar, þar med fær Syndarinn Lausn. Enn skignist þu epter JEsu hier nidre œ Jordunne, þa sier þu

hann þar eirninn i Midid. Midt a millum Betle-
hems Borgar Jnbyggiara fæddist hann. A mid-
re Noottu vard Fiarhyrdurunum bodud hanns
Fæding af einum Engle, Luc. 2. v. 8. seq. Midle
marg-Þusunda himneskra Her-Skara; Audsyn-
ande, ad hann sie midt i Myrkrunum Boot Syn-
danna, Mwr fyrer Hæskanum, og sa er Hiart-
anu hæge, þvi lijse, og þad hugge, nær þad sveim-
ar a Sorganna Hafe, og Augunn væta Sæng-
ina med Tarum: Tolf Ara var hañ i Midid hia
Lærifedrunum i Musterinu, hvar hañs Guddooms
Vitsku lioomade med Forundran adra uppfræd-
ande, Luc. 2. v. 46. Hvar med hann helgadi og
blessadi soddañ Lærdooms og Menta Samkvæmi,
og syndi sig ad hafa a þvi alla Velþocknan, nær
þad þienar hañs Dijrd, og Uppbyggingu hanns
Christne. Johañes sa og JEsum midt a medal
þeirra Sio gulllegu Liooſa-Stiaka: Apoc. 1. v. 13.
So er hañ og eñ midt i Samkundum Guds Bar-
na, þvi hvar tveir edur þrijr eru samañkomner i
hañs Nafne, þar vill hañ vera midt a medal þeir-
ra, Matth. 18. v. 20. Hañ, sw blessud Riettlætis
Sooliñ, er a þeim andlega Festingar Himne chri-
stilegrar Kyrkiu midt a medal Stiarnaña, sinna
Ordsins Þienara, hverium hañ ecke ad eins held-
ur i siñe hægre Hende, þad er, verndar og vardveit-
er, so hver þa snerter, snerter Sialldur hañs Au-
ga, helldur og leggur þeim sitt Ord i Muñ, Es. 51. v.
15. Og hañs Andi talar fyrer þa, so Lijssins Food-
ur

ur meddeilt verdi hañs Saudum, er afvende eilijfu Hwngri. J Pijnunne var JEsus kvalenn, midt a mille tveggia Ræningia, Joh. 19.v. 8. Nær hann afskoof þa Handskriftina sem i moote oss var, og i Setningum var hulinn, og oss gagnstædileg; og feste hana med sier a Krossinn, Col. 2. v. 14. Og fann eilijfa Endurlausn øllum þeim sem a hann trwa.

Hier epter sijna Upprisu stood hañ midt a medal Lærisveinaña, eingum of-fiærre, helldur øllum so nærre, ad aller þeir mættu hafa Hlutdeild i honum og hañs Forþienan: Petur hafde ad søñu mest syndgad med siñe Afneitan og Eyde, eñ þess miñtist nu JEsus ecke, hañ var honum eins nalægur sem hinum Lærisveinunum. So ert þu, O minn JEsu, mier aumum eins nalægur, þo eg sie hinn stærste Syndare, ef eg ad eins snu mier til þijn fyrer sanna Ydran, so sem þeim heilagre og betre eru; Þvi þu leitar giarnann ad tijndum Saudum, og ert kominn Saluhoolpid ad giora þad sem tapad var, þijn Vægd bregdst ecke veikum, og Myskun þijn sneider ecke hia þeim aumu, þvi þessara Glotun villt þu ecke; Þvi skal þad mijn Huggun hvar sem eg er staddur: Hafi eg þig, miñ O Drottiñ, þa hyrdi eg hverke um Himin nie Jord, eda hvad þau boda mier, Ja, þo ad eiñiñ mitt Lijf og Saal vanmegnist, ert þu, O JEsu, alla Tijma mitt Hiartans Traust og Hlutskipte, Ps. 73. v. 26. Minn Ovinur er Syndinn, hveria eg (æ þvi verr) giore

mick

mier ad Vin, opt vitanlega, optar Ovitanlega, hun vill fyrſt raada ofmiög, enn ſijdann fordæma; Þar gengur þu œ midle, og tekur mig wr þeſſum hordu Bondum, ſynir mier ad ſonnu Guds Reide i giegn henni, enn þo ſtrax aptur þitt Riettlæte, ſem ſie minn Betalingur: Skyllda mijn er þad þvi ad elſka þig, þar þu hefur mier ſo margt og mikid Jllt uppgiefid, og ecki gengid i Doomiñ. Eñ nu ad þeſſum Ovin yferunnum, er oll Magt annarra miña Saalar Ovina wti og endud, bæde Logmaalſins, þvi œ moote þeſs Bolvan ert þu, JEſu, mijn Bleſſan; Daudinn er beiſkur, eñ mooti hañs Beiſkleika, ert þu, JEſu, minn Sætleike; Dioffullenn er falſkur og œſækiñ, eñ moote hönum ert þu JEſu, mijn Vernd og Voktun; Verolldiñ er hörd og hreckvijs, eñ moot heñi ver mig Almœttur, Vitſka og Sætleike mijns JEſu. Soleidis er nu JEſus millum mijn og þeſſara; Og þo ſo langt og vijdt villdi koma, ad eingiñ Madur vilde edur kyñi ad koma mier til Hiœlpar, nie hræra ſiñ miñſta Fijngur mier til Adſtodar, ſo mijn Saal og Hiarta væri olldungis af Hormungaña Vatni umflotid, Jœ, þo Meñirner, þar œ ofañ, legde allt mitt Mœleſne wt œ falſkañ og rangañ Veg, ſo ſem Job yfer klagar, Job. 13. v. 4. Þa er þo JEſus mijn Hiœlp, hann bæde kann og vill ſamt vera hia mier, ſo ſlijkt allt hafi einga Neyd, þvi hvad ſem angra vill, þad verdur þo ei ad Angre þegar JEſus huggar, lijka ſem þa Elldureñ villdi brena

þa Prica Sveina i Babilon, enn gat ecke brent; Soddañ Sikur ſeter allt Mootlæte, þvi hvar Gud er med, hver kañ þar i moote? Rom. 8. v 31. Miñ Gud, mitt Hiarta er Mid-Partur mijns Lijkama, eg bid þig af þeſs Jñſtu Rootum (þu veitſt þad er mijn Alvara) ad þu vilier þar bwa, þvi bwer þu þar, ottaſt eg eckert, og vil eingu kviida.

O þu Lioomanda Lioos! O þu Uñuſtenn ſætaſte Saalareñar! O þu Athvarfid elſkulegaſta, ørugg-aſta og trwfaſtaſta i øllum Naudum! O þu bleſs-ada Lijffins Eik! Lijs þu oſs i þeim ſijdurſtu Dau-dans Myrkrum, ſadma oſs i þeim Fiorbrotum, hlijf og vernda oſs i þeim hætta Bardaga, lække þa Lauf-Bloden þijn øll Andar Saareñ, og leid oſs af þijnum Sætleikans Sadning endurnærda i ei-lijfar Tialld-Bwder Fridarens wr þeſſa Heims Her-Bwdum, Amen.

# 25. Capitule.

## Um Christi Fridar-Bodan.

FRIDUR SIE MED YDUR.

Þad Foolk ſem gieck i Myrkrunum ſier eitt miked Lioos; og yfir þeim ſem bwa i myrkvu Lande ſkijn þad klaart, ſegier Spaamadurenn Eſaias, Eſ. 9. v. 2. þo hañ tale hier ſierdeilis uñ Heidingiaña Uppbyrtingu og andlega Kallan til Trwarinnar a JEſum Christum, þa meiga þo lijka þeſſe Ord naa til hier greindrar bleſſadrar Fridar Bodunar DRottens; Hier kveikte ſaa bleſſade Lioosſens

Skap-

Skapare, og ſiálfſt Liooſid JEſus Chriſtur eitt hid meſta Stoor Lioos hiá ſijnum Læreſveinum i Hrygda Myrkrum ſtoddum.

A JEſu Pijnu Tijma, og þar epter, mátti þeir i Veikleika ſijnum ſegia ſem Job: Eg vonade epter Liooſe, og ſiá þar var Myrkur, Job. 30. v. 26. hverin og ſamſiñtu þeir Emaus Reiſu-Meñ, ſegiande, VJER VONUDUM AD HANN MUNDJ ENDURLEYSA JSRAEL. Nu ſátu þeir i Sorga og Vantrwar-Myrkrum, Já, i þeſſu Kvolld-Rockurs Hwme ſveimudu þeir einñ i Hrædſlunnar Dimu, meinande ad ſier mundeþa og þa Vopnlauſum Vode og Offsookn bwenn af Hende ſiña Ovina; þeir hofdu og aadur i Náttmyrkrenu, þa JEſus var fángenn, hann yfirgiefed og frá honum flwed, ſo mátti þeir nu og i ſárum Kvijda Samvitſkuñar ſijta og gráta, midt i ollum þeſſum Myrkrum, ſo hier voru at Ferdum Andleg og Lijkamleg Myrkur under eins, Já Myrkur mátti hier ſijnaſt Jñvortis og Utvortis, yfir, under og á allar Sijdur, ſo ſem þeir ſijneſt opt enn, ſem vidlijka eru ſtadder og þeir voru nu, þvi nær ſo er áſtatt, heiter þad ſo ſem David ſegier: Engeñ Heilbrygde er i mijnu Hollde fyrer þiñne Ognan, og eige nockur Fridur i mijnum Beinum fyrer ſokum Synda minna; Pſ. 38. v. 4. Hier vard og og engenn til ad leita þeſſum Myrkrum frá med neinne Fridar-Vodan, ſo þeir giæte ſier þad i Nyt fært vegna Veikleika Trwareñar,

innar, og Hrygdarennar Yfirgnæfanlegleika, so þeir sem þar til sender voru urdu þeim Mæduſamer Huggarar, so sem stundum er lijka tijdt vor a medal, so hier er (ad mijnu Vite) hiñ liooſaste Speigill ſorgande og aumstaddra Manna Ymynder.

Til þessara so aumstaddra og ſarmædra Sauda kom nu Læknarenn, DRottenn JEsus Christur, ecke ſærande þad ſærda med nockrum Hardendum edur Straffe (sem opt er tijdt i þessum Heime) helldur med ſætre Fridar-Bodan til þeirra Fridlauſra, af hverre hanns Myſkunarrijkre Hondlan, nær sem mier hun i Hug kiemur, mier alltijd stendur ein lifande Huggun, þvi JEsus er hinn same og hann var þa, Ja hinn same allt til Eilijfdar, Ebr. 13. v. 8. hann giefur ad ſonnu allañ riettnefndann Frid og Farſælld, so Andlegann sem Lijkamlegann, so Jardneſkañ sem Himneſkañ, hann lætur sitt Fridar-Bod i Fridarins Evangelio Skiært hliooma, og framberast af Fiollda sinna Fridar-Bodara, hvert (ad ſoñu) alla christna snerter, eñ þo sierdeilis þrongrada, edur sturladar Samvitskur i þeirra Sorgar-Bondum, eñ samt hrijfur þad þeim ecke nema JEsus prediki Jñvortis i Hiartanu, nema hañ bode þar Frideñ, og hugge sialfur þad ſorgande Hiarta; 1. Joh. 3. v. 20. Þessu er ælijka vared og fyrer Jacob, þegar Syner hanns ſogdu honum ad Joseph lifde, hann hugſade allt annad, og kom þvi ecke fyrer sig ad þad være so, þar til hann

heyrde Joſephs Ord og ſea Vagnana, þa liſnade hanns Ond, ſo hann ſagde: Þad er mier noog ad minn Son Joſeph liſer. Gen. 45. v. 28. So og vid JEſu Innvortis Fridar-Bodan ſierdeilis gledſt Hiartad, og Sæalenn Endurlifnar. JEſu Fridur er ſw Hyrdſla, ſem oll Himneſk Audæfe hefur ad geyma, hañ lietter af oſs Syndanna Byrde, hañ ſtiller Orooſeme Samwitſkunnar, hañ dyrfer oſs ad forakta Diofulinn, hann gledur oſs i Hormungunum og Offooknum Heimſins, hann giorer Daudann ſætt ſmackande, hann ſlitur Hiartad, medann þetta Lijf varer, til JEſum i Hædena, enn Sæalena ſijdañ iñ i Land lifendra. Þegar nu þar fyrer þeſſe Tvo Hioon, Sturlan Hugarens, og Fridur OMottens, ſænga ſamann, þa verdur þar nærſta Fagnadarſom Hioona-Sæng, þvi Jeſu bleſſadur Bloods Kraptur, ſem er allra Meina og Mædu Boot, laugar, bleſſar og hreſſer þa þeſſe Hioon, hver hann hefur ſamann viijgt med þeſſare ægiætu Viijgſlu-Predikun.: Sæler eru þeir ſem harma, þvi þeir ſkulu huggader verda. Matth. 5. v. 4.

Þad ſorglega Synda-Brot vors fyrſta Fodurs Adams ſyrdte oſs ollum Fride, Blijdu og bleſſadre Vingan þeſs eilijfa Guds, þar af hafa ſijdann ſprotted oll Synda og Sorga-Myrkur, Ytra og Iñra yfir oſs dyniande: Þad Dauda Mein matte engenn bæta, nema bleſſadur Fridar-Hofdingenn JEſus, Eſa. 9. v. 6. af hvers Fyllingu

su vier hofum feinged Lausn, Naad og Frid vid Gud aptur, Rom. 5. v. 1. Enn þad mætte hann so dijrt kosta, ad hann vard sialfur þar fyrer Fridlaus ad verda, og af Gude Yfirgiefiñ, Marc. 15. v. 34. so vier nædum i honum og fyrer hañ þvi Eilijfa Fridar Hnosse, Eph. 2. v. 14. þar fyrer veitest oss eiñeñ hier i Heime so margur Astar-Koss lifanda Guds, og so morg Hægd og Stilling á Samvitskuñar Hugar-Vijle og ymsum Sorga-Myrkrum: Jaa fyrer oss afrekadann Frid vors Frelsara, er nu Gud vordeñ vor ástrijkur Fader, og kañ ecke framar ad fortæra oss i Loga siñar Reide, edur Fridlausa Synda Refsing á oss ad leggia, þvi þañ Reideñar Blossa, hefur hañs Elskulegur Sonur JEsus slockt med þvi Bloode og Vatne sem rotrañ af hañs Hiarta. So skal þaa slijkt Fridstilla vorar Samvitskur! Hvi seig mier, Guds Barn, hvilijkur er þesse JEsu Fridur? Hann er Olijkur Veralldariñar Fride, Joh. 14. v. 27. þvi hennar Fridar-Bodan skal engeñ Madur trua; Edur lijtst nockrum þad Fridur, ad kissa og bijta under eins, so sem heñar er Vane til? Enn JEsu Fridur er eiñ Stadfastur Fridur, þar er ecke Eitt i Dag, Annad á Morgun, þvi jafnvel þo hañ lœte þig i Dag, finna til þess Himneska Sœtleika, eñ á Morgun til Beyskiu Helvijtes Angistar, þa er þo þad Sijdara engeñ Fridar-Roskun, helldur Stadfesting hañs Fridar yfir þier: Medañ vier erum i þessum Ofullkomlegleika, þa giorer

erer Sætleikiñ oſs yfrid glada, af hverre Glede vi-
er giorunſt ſtundum hofmooduger og meinum oſs
ollum ſælle, og Gude þægelegre; enn ſo ad þeſſe and
lega Drambſeme ſkal ecke Oſdiwpar Nætur oſs til
Skada og Fordiorfunar, þa ſender Gud oſs hitt til
Handa, uppa þad vier ſieum Lijtelaater og Otta-
ſlegner, þvi þa verdur betur verkud Saaluhiaalpeñ.
Þo St. Paall være i Paradis Himen uppnumenn,
2. Cor. 12. v. 4. þa maatte hann þo þar hiaa ſleig-
enn verda af Andſkotans Engle, v. 7. og ſo hefur
þetta geinged og geingur eñ optſiñis Guds Vin-
um; þvi ſagde eg, ad þetta være DRottenns Frid-
ar Stadfeſting enn ecke Roſkun. Verolldenn
helldur þad Frid, þegar hverki er Siwkdoomur,
Skaarkt, Olaan, edur Utvortis Ovinur, og allt
leikur i Lynde; Enn Chriſti Fridur er þar i iñefal-
enn, ad nær Madur er umkrijngdur af Syndenne,
Daudanum, Dioflenum, Verolldenne, ſamt ym-
ſum Ovinum og Mootkaſte, hann er þo ſamt fyrer
allt þetta i Chriſto JEſu gladur, hughrauſtur, og
oruggur i Hiartanu; 2. Cor. 6. v. 9. 10. Þann
Mann kalla eg i Haadeigis Stad: Enn, chriſtenn
Madur, vilier þu verda JEſu Fridar, hier og ſijd-
ar, eilijflega niootande, þa varaſtu hann af þier ad
brioota med vijsvitande Ydkun Syndanna, edur
Ydrunarleyſe og Vantrw, helldur ſtunda þu ad
hafa daglega Frid vid Gud, fyrer hreina daglega
Ydran, ſo og Frid vid þinn Samchriſtenn, ſo
miked ſem mogulegt er, þvi hverier hellſt Fridenn
hafa

hafa, og þyker liett og lijted honum ad raska, þeir eru a Veige Glotunarennar, og eru riett kallader Her-Menn Andskotans, þvi þad er Art Ogudlegra, hverier ad hafa engann Frid, so sem D Rottesi segier hia Spamannenum: Es. 57. v. 21. Eg hefe mijnum trwfasta JEsu þvi optlega lofad, eg vil þad og fyrer hanns Hiaalp Hughraustur efna, sem er ad strijda vid Synd, Diøful og allt hanns Herlid; Enn, O JEsu, laat oss alla þijns Fridar og Frelses niootande verda fyrer Saal og Lijf, og leid sijdann hier fraa med Fride i eilijfann Frid, AMEN.

# 26. Capituli.

Um þad ad JEsus synde Læresveinunum sijnar Hendur, Fætur og Sijdu.

ENN þeir skielfdust og urdu hræddder, meinande sig siaa Anda nockurn, og hann sagde til þeirra: Þvi erud þier so skielfder, og þvi uppstijga sodann Þanckar i ydar Hiortum? Siaaed mijnar Hendur og mijna Fætur: Þad eg em þad siaalfur, þreifid aa mier og siaaed: Þvi Ande hefur hverke Holld nie Bein, so sem þier siaaed mig hafa. Og þa hann hafde þetta sagt; Synde hann þeim Hendur og Fætur og sijna Sijdu; Þa

urdu Læreſveinarner glader, ad þeir ſau HERRann.

AF þeſſu Dæme Læreſveinaña er augliooſt, ad Maňeſkiañ ſie af Nátturuñe Ottafull og Hrædſlugiorn, og er þad, ſem hver añar Veikleike, eiñ Arfur fraa Adam komeñ, hver lijka vel heimſookt hefur þa froomu og Gudhræddu, hverium þo Samvitſkañ good er daglegt Sælgiæte og Hugar Hreſsing, ſamt hefur þad þeim tilfalled optlega; eñ þo lángt ödruvijſe eñ Ogudlegum Möñum, hverra Ottaſeme ad velldur ecke einaſta Iſtöduleyſe Nátturunnar, helldur og þad, ad þeir eru ſier ſo margrar Vondſku og Glæpa medvitande, hvar fyrer Salomon ſegier, ad þeir flye þo engeñ ellte þa, Prov. 28. v. 1. Ia, þeir hrædaſt hvert þiootanda Lauf-Blad, Lev. 26. v. 17. Gudhræddra og froomra Manna Otte er þar i moote einn Sonarlegur Otte, og ſo ſem David ſegier: Þiooned DRottne med Otta, og gledied ydur med Skiaalfta, Pſ. 2. v. 11. Vid þeñañ Hrædſlunnar Veikleika maa þo kañſkie margur beriaſt lijka ſem hveria adra ſaara Freiſtinga Aſtrijdu, ſem maaſkie virdeſt ad vera lijtilvæg epter Maña Doome, eñ er þo reindar mikil; þvi þad er mikid ad forgleima Gude og vantreyſta honum, hvad þo opt ſkiedur ofhræddañ Mañ, þvi ſegier DRotteñ hiaa Eſaiam: Eg, eg er ydar Hugſvalare, hver ert þu þa, ad þu hrædeſt fyrer Möñum, þeir ed þo deya, og fyrer Maňaña Börnum, ſem fortæraſt ſem Hey, og forgleyma Drottne

þeim sem þig hefur giort, Esa. 51. v. 7. Jaa, þad maa sat: kalla sem Seneca seger hier um̃, ad eckert sie vesælla nie heimskulegra eun sijsélldur Otte, og þad oruggasta sie ad hrædast eckert nema Gud. Eitt veit eg, og þvi trwe eg, ad so framt eg leitast vid ad fordast Ostickanlega Hrædslu, þa reiknar Guds mijns Myskun mier ecki mijna Hrædslu fyrer Synd, helldur giefur mier Hluttoku i þessu Orde: Sæll er sa sem alltijd er uggande, en̄ sa sem hardsvijradur er, mun falla i Olucku, Prov. 28. v. 14. Lærisveinañ Otti ordsakadist þar af, ad þeir meintu sig ad sia Anda nockurn. Þar af er merkiande, ad Andarner, edur þvilijkar Siooner, eru til, hvad og vijdar maa sia af Skriftenne, og eru þa þesser Andar añadhvert gooder edur vonder. Þar af eru gooder Andar þeckiañleger, ad þeir aminña og upphvetia til gudlegra, leisilegra og Soomalegra Hluta, er þiena gudhræddum Moñum til Huggunar og Sæluhialpar. Þeir vondu þar a mote, upphvetia a einhvern Hatt til Ogudleika, Hiatrwar, Villu, Lygi, Vanheidurs og annars þvilijks ills. Marger iñbirla sier, ad Siooner og Fyrerburder sieu daudra Maña Saaler edur Lijkamer: Þar mæla þo Guds Ord i moote. Gudhræddra Saaler kuña þad ecke ad vera, þvi þær vid Lijkamena skildar, eru i Hende DRottinns, Ps. 31. v. 16. Sap. 3. v. 1. Ei helldur vondra Manna Saaler, þvi þær fara til Helvijtis, Ps. 55. v. 16. Ps. 49. v. 15. hvar Daudinn nagar þær:

Og hvert hellst ad Eykinn fellur, þar liggur hun; Eccl. 11. v. 3. Ecki helldur kunna þad ad vera Lijkamer Gudhræddra, þvi þeir hvijla i sijnum Svefn-Hwsum, Esa. 26. v. 20. Apoc. 14. v. 13. Ei hellдur Lijkamer Ogudlegra, þvi þeir koma ei aptur i sitt Hws, og þeirra Stadur þecker þa ecki framar; Job. 7. v. 10. Og Madkar og Ormar fortæra hverutveggium, Syr. 10. v. 12. Þvi mœ hier af siaast, ad þeir giete ecke vered hier reikande. Og skyllde þad so vera, þa yrde þad ad skie añadhvert af Guds Skipan, edur þeirra eigiñ Fyrertekt. Af Guds Skipan skiedur þad ecke, þvi þad kieñer oss hverge Ritningenn, miklu helldur er hun þvi mootstædileg. Ecke helldur af eiginn Vilia: Ad hverutveggia sie satt, syna oss Ord Abrahams til þess Rijka: A medal vor og ydar, seger hann, er miked Diwp stadfest, so ad þeir sem hiedann vilia fara nidur til ydar, gieta þad ecke, og þeir ecke fra ydur upp til vor komist, Luc. 16. v. 26. Vier meigum ecke kasta þwngum Steine a Læriſveinana, fyrer þad þeir hræddust hier hinn besta Vin og blessadann Fridarbodara JEsum, þvi þeir hræddust ad sonnu hann ecke, hellдur sijna raungu Jñbirling. Komi JEsus til vor med Krossen, þa skielfunst vier optnærsta: Og hver af oss tekur gladur og fagnande i moote soddañ? Samt verdur þvi ecki neitad, ad soddann Hrædsla kiemur af Van-Þecking og Trwar-Veike. JEsus a alltijd ad vera velkomiñ, um hveriar hellst Dyr

sem

sem hann kiemur, hvert helldur um̃ apturluktar Sorgar-Dyr, edur opnar Glede-Dyr; Vier eigum ad varast ad rietta oss ofmiøg epter vorra eigenn Jn̄birlingum, edur hallda fast uppa vora eigin̄ Þanka, a hveriu Skere þo margan̄ flæder, so ad þeir trwa þeim opt framar en̄ sialfum Gudi. Fyrir slijkt aavijtar Lausnarenn hier sijna Lærisveina, og undir eins aaminner alla oss ad vier stunda skulum andlega Hug-Dyrskku, i þvi, ad biooda Ecaass Holldi Heimi og Diofle, vitande ad hann er dæmdur og med oss hefur han̄ ekert, helldur en̄ med vort Hofud JEsum Christum; Hvar fyrer han̄ seger til vor: Ottast ecki, eg em med þier, vijk þu ecki, þvi eg em þin̄ Gud, eg stirki þig, hiaalpa þier, og helld þier vid, fyrer þaa hægri Hendina mijns Riettlætis, Es. 41. v. 10. En̄ fyrst han̄ er med oss, hver kann þa ad vera aa moote oss? Rom. 8. v. 31. Vier eigum, sem blijdin̄ Born, ad laata oss segiast i þvi ad trwa ecki ofmiøg Hollds Skilninge og Jn̄birlingum vorum; og hofum þær ecki fyrir vort Evangelium, svikular og a falldan̄ Klaka leidandi.

Herra Jesu! forlaat mier mijna Otierlega Hrædslu og lykna min̄i Trwar-Veike, gief ad eg trwe þier og þijnu Ordi, graati mijn Synda-Saar, og gledjest af þeim Grædslu Medolum, er þu þar vid leggur, hvert þau Holldinu swr edur saar fin̄ast, so mun þijn Myskun a hagkvæmum Tijma, hugga og endurnæra mitt hryggva og Naadþyrsta Hiarta, er tijdum laangar epter þier, Drottin̄ mitt Hiaalp-

ræde. Þu O JEſu, barſt Sáriñ a þijnum forklárada Lijkama, til þeſs ad næra þijn veikttruud Børn med þeim og þeirra Aþreiſingu; Eñ eg mun fyrer þiña Sára Skulld ecki bera mijn Sár leingur eñ til Dáudans, þa veit eg þau læknaſt ad ollu Leite, þar vid gled eg mig opt, ja, ſo opt ſem eg ſie, hverſu ad hier vill ein Sorg, eitt Sár odru filgia. Eg ſæ og midt i þeſſa Heims Mootgángs Bilgium, ad þreiſa andlega a þijnum bleſſudu Sára-Orum. Nær Holldid vill hafa ſiñ Viliai Syndiñe, byrtaſt opt Hiartanu þijn Sár og ſegia til mijn: Hugleid þu þeſſe Sár, villt þu nu ÿfa þau upp aptur, er ſo ſárt eitt Sinn ſvidu þinna vegna? Villt þu nu kroſsfeſta þiñ JEſum ad nÿu? Af ſoddann Sioon og Tillite giefſt mier opt Ordſok af uppbyriudum og áformudum Synda Vegi graatande aptur ſnwa. Ad giordre Syndiñe, midt i Kvalning Hugarins, hefi eg feingid, mier til Heilſubootar, ad ſiaa eiñiñ þeſſe þijn Sár, miñ Herra, ÿfrid opt, einkanlega þitt Hiarta Sár, er þu heſur þeſſu ad mier hvijſlad: Laat af, og vert hughrauſtur Sonur, eg vil ecki þijna Glotun, eg man til þijn, mijn Elſka og Mÿſkun er ſo brennheit, ad eg vil ecki giora vid þig epter minne Grimdar-Reide, eg hlijt ad vægia þier og vera þier Mÿſkunſamur, til þeſs þreÿnger mier mijn breñande Hiarta Elſka.

J Freiſtingunum ſkÿna og þeſse Sáriñ ſkiært fÿrer Augunum, Opinb. 2. v. 10. Nær eg i

Aungvite Trwariñar, Poliñmædiñar og Vonar-
iñnar ligg lijka sem sa hrasade a medal Ræning-
ia, og helld mig so nær af Gude yfirgiefiñ, so skamt
er a mille Lijfs og Dauda: Þa synir JEsus mi-
er þessi sijn Saar, einkanlega sijn Handa Saar
og seger: Munt þu nockud sa gleymt þeim Hrijng-
num sem er a þiñi Hendi, Lofk. 8. v. 6. Ætlar
þu þa ad eg muni gleyma þier, hvern eg hefi teiknad
i mijnum Hondum? Esa. 49. v. 16. Hver hefur
þijngad til hiælpad þier? Hefur ecki mijn Hond
borid þig og hiælpad þier, medañ Moodur-Hond-
iñ hiellt enn a þier, þar eg þig, og nu sijdañ, hefi
giort þier hid sama, Esa. 46. v. 4. Cap. 63. v. 9.
og ecki forgleimt þier. Hvad opt hefur mijn Hond
reyst þig falliñ a Fætur, stutt þig i þijnu Embætt-
is Verke, vardveitt þig i Hæskanum, og teked þig
sem einn Elldibrand wr Elldinum? Psalm. 66. v.
12. Þvi villt þu nu þa vantreysta minne Mysk-
un og Trwfeste? Esa. 43 v. 10. Jac. 1. v. 12.
Hefi eg ecke sagt þier, ad Trwudum sie allt mogu-
legt, og ad þetta hitte þig, so þu reyndur verder, og
odlist sijdann Corounna, Opinb. 2. v. 10. Ver-
tu þvi gladur i mier, sem til þijn man, og þig skal
gledia. Sie eg Rædlijtell og vite ecke hvert eg
skal mier snwa i þeim og þeim Vanda, hvar Hr-
ædslann þreinger a adra Hlid, eñ Vanvitskañ a
adra, med fleyru þvi, sem þar kañ ad ad stidia, sie
eg miñ JEsu, þijn Saar, einkum þinna Foota, sem
þa leida mig a þañ rietta Veg, Psalm. 25. v. 12.

Item 32.v.8. Sie annars, munde eg falla ä Veg Olucfunnar hier tijmannlega, enn ä Veg Fordæmingarinnar eilijflega. Soleidis veitst þu nu miñ JEsu, ad gledia og endurnæra. Nær sem þu nu synir mier Saarinn þijn ä þijnum særdum, hryggvum og naudlijdande Limum, med hvert Slag sem þad vera kañ, þa vil eg giarnañ af fremsta Megni tilslaata þañ Plaastur, sem þar kañ ad hugga og lækna, og þu mier meddeilt hefur; Enn hiaalpa mier, O JEsu i ollu þvi er þu villt eg lijda skuli i þessum Heime, Psalm. 68. v. 20. Þar til Þitt Hiarta aumkast til fulls yfir mig, og þijn Hond tekur mig i eilijft Eptirlæti, Amen.

# 27. Capitule.

Um Samtal Christi vid Lærisveinana, og hañs Matar-Nautn.

OG er þeir trwdu eñ eige fyrir Fagnadar Sakir, og undrande þad, sagdi hañ til þeirra: Hafid þier hier nockra Fædu? Og þeir logdu fyrir hañ Sticke af steiktum Fiske og Hunangs-Seim, og hañ medtook þad og aat fyrer þeirra Augum. Og hañ bryxlade þeim um þeirra Vantrw og Hiartans Hardwd, þad þeir hofdu ei trwad þeim sem hañ hofdu sied uppriseñ. Eñ hañ sagdi til þeirra; Þetta eru þau Ord, hver eg talade

til

til hvar, þa eg var eñ nu hiá ydur, ad endelega hlite allt ad uppfyllast, hvad af mier er skrifad i Logmaale Moysis, Spamañaña Bookum og Psalmum: Þa opnade hañ þeirra Hugskot, so ad þeir skilldu Ritningarnar, og sagde til þeirra: Þvi ad so er þad skrifad, og so byriadi Christo ad lijda, og a þridia Degi upprijsa fraa Daudum; Og predikast laata i hañs Nafne Ydran og Fyrirgiefning Syndaña a medal allra Þiooda, upphefiande til Jerusalem, eñ þier erud Vottar allra þessarra Hluta.

ÞEssarar Matar Nautnar þurfte Frelsariñ ecki sijn vegna, hañs Lijkami var nu eptir hañs Upprisu forklaaradur, og þess-Hattar Lijkamir hafa ecki ad giora med Mat og Dryck, þeim vidhelldur himneskur Fognudur, Ps. 17. v. 15. Eñ þetta brwkade JEsus þo einasta Lærisveinunum til Trwar-Styrkingar, Luc. 24. v. 41. Og maa hier af enn siaa, hvad sætur og liwfur ad DRottinn er, og hversu naakvæmlega hann styrker þaa Veikftrwadu, og lætur eckert þad Ogiort, sem þeim maa til Hiaalpar þiena; Samt var nu þessi Nautn eingiñ Missijning, helldur sañarleg, berande lioost Sañleiks Vitni JEsu dijrdarfullu Upprisu, þvi hañ bevijsade hier med Lærisveinunum, ad sa sami siñ Lijkami, sem pijnst og dæid hefde a Kross-

inum, væri nu af Dauda upprisenn, 1. Cor. 15. v. 3. 4. 5. Hann synde þeim med Nautn þessare sin Krapt, en einga eiginn Naudþurft, þvi odruvijse dregur þurr Jord til sijn Vatnid, helldur en Sool-ar-Hiten, þo hañ þad lijka uppþurke: Vijrd Drottins eyddi þessari Fædu, en ecki sneriſt hun i edur til Lijkamlegs Vidurhallds, þvi Fædann þesse er Holldlegs enn ecki Andlegs Lijkama, epter þvi Guds Rijki er ecki Matur og Dryckur, helldur Riettlæte, Fridur og Fögnudur i H. Anda, Rom. 14. v. 17. Þegar vier etum Christi Holld og dreckum hañs Blood i þvi hæverduga Kvødmæltijdar Sacramento, þa er þad ecki helldur Naatturleg Nautn, samt er hun ecki ad sijdur sannarleg, þvi þad er vijst, og slijkt efar einginn vor, ad þar medtokum vier etum og dreckum þau straxnefndu Lijfsins Bord-Riette, JEsu Holld og Blood, eptir sem JEsus sialfur hefur oss þad sagt og tilbued, Matth. 26. v. 26. 28. Og vid Medtekning þessarar Odaudleikans Fædu finum vier i oss sialfum Upprisu Krapt vors Drottins JEsu Christi, þvi að þeim Styrkleika, er vier þar af hofum og odlunst, kunnum vier ad feta um hinn dima Veg þessarar Eymdarfullu Eydimerkur til þeirra himnesku Fiall-Bygda, ei sijdur enn Guds Spamadur Elias gieck Fiorutijge Daga og Fiorutijge Nætur i Styrkleika þeirrar Fædu, sem Guds Engill færdi honum, til Guds Fialls Horeb. 1. Reg. 19. v. 8. Hyggium en framar ad, hvad hier var a Bord bo-

ted fyrer Kong Dijrdarennar, sem var Sticke af steiktum Fiske og Hunangs Seimur til Vidbits: Hvar af Meñ læra meiga, ad sedia i Mæta henn= añ Madka=Seck, og hafa ecke of=miked Epterlæte vid Holld og Blood, þañ skadsama Ovin Sæalar= innar, Rom. 7. v. 18. Gal. 5. v. 17. So hann leadest ecke æ hana: Naudþurftar=Listena ad sed= ia er Leifilegt, eñ Hundunum ad lijkiast i Gyruglei= kans Bwk=Fylle, soomer ecke þeim christnum Ma= ñe, sem nockra Epterteft hafa vill æ þessare JEsu Advorun: Vared ydur, ad ydar Hiarta þijngest ecke af Of=Ate edur Of=Dryckiu, etc. Hviad þvi leitare Bwkur, þvi vesælle Saal; og ad venia sig til ydugelegra Kræsinga, og soddann meira Ohoofs er hioofnadur, eñ engenn Froomleike; Heilsunne, Formeganenne og Fæatækra Skatte, er þar med opt forspilad, moot Guds Bode, af þeim sem mei= na sig meiga giora hvad þa lyster; Et þu þvi so og dreck, ad þu siert styrkvare epter ad giora þad Ve= rk, sem Gud hefur þier boded. Minn JEsu, eg vil leigeñ sæ þig til Giesta hiæ mier, Gen. 18. v. 8. Eñ hvad skal eg frambera, sem þinne Millde þocknast? Eg frambijd Fisk, steiktann vid Mootgæangs Elld þessa Lijfs, æangradann og sundurkramenn Anda, sem enn þa fyrir þijna Hiaalp behelldur nockre Teg= und Holinnmædennar, þo harla sie veik: Lijka hef eg ad frambiooda lijtenn Hunæangs=Seim veikrar Trwar: og þetta med Til=lite minnar Vonar, til þinnar Millde og Lijtelætis, ad þad fyrra forakter

ecke

ecke, enn styrker þad sijdara, so sem þu lofad hefur þijnum Sannleiksfullu Fyrerheitum, hver alldrei forgaanga, þvi sundurkramenn Anda villtu i Nааd ааlijta, Ps. 51. v. 19. Og brааkadann Reyr ecke sundur-briota. Es. 42. v. 3.

Hier nærst straffade JEsus Vantrw og Hardwd Læresveinañа. Soodañ Odygder eru Tvær þær verstu Syslur algeingnar og alþecktar аа medal margra аа þessum vondu Tijmum; Marger jaata þvi nu med Munnenum, sem þeir þver-neita med Verkunum, Tit. 1. v. 16. Þeir seigiast trwa JEsum upprisеñ, enn vilia þo ecke sialfer af Syndenne upprijsa; Vitund þessara goodu Hluta er inndreckt i Eyrunn enn ecke i Hiartad. Hvad mun þessu vallda añad enn Vantrw og Hardyge, sem ecke аа neina Skylldseme vid veika Trw, þvi þo Breiskleikinn opt bile hana, vill hun lagsæraſt, og verdur Nаad af JEsu аalitenn, og af hañs Hiaalp umſodmud; Þvi skulu og Guds Þioonar i Miwklæte mt hana hondla, eñ Vantrw og Hardydge þar i moot Roggsamlega straffa i Tijma og O-Tijma, talande enn ecke þeigiande, þo med Hoogværd til Uppbyggingar eñ ecke Eydeleggingar, og bidia Gud þar hiaa ydduglega, um slijkra Manna Umvendan. Øll soddañ Lækninga Medol skal plocka af Guds Orde, sem kroptugt er og hveriu Tvij-eggiudu Sverde hvassara, Ebr. 4. v. 12. Þvi hefur og Gud lofad, ad laata þad ecke koma toomt til sijn aptur, Es. 55. v. 10. Er þad og Kraptur Guds til

Saalu-

Saaluhiaalpar, Rom. 1.v. 16. enni ecke vorar eig-
enn Uppfindingar. Soddañ Adferd kienner hier
Christur med siñe Vidhondlan vid Læriſveinana;
hverium hann opeñberade Ritningarnar, ſem upp-
fyllaſt hlutu, og opnade ſijdann þeirra Hugſkot, ſo
ad þeir ſkylldu þær. Soddañ eiñ goodur Lære-
meiſtare er JEſus, hañ ecke einaſta kieñer, Pſ. 119.
v. 68. Helldur giefur og Skilningeñ, Samſinn-
inguna og Kraptenn, Act. 16.v. 14. Jaa, upplijkur
Hiortunum og iñſkrifar i þau ſitt Logmaal, Jer. 31.
v. 33. Þvi hlioota bæde Kieñarar og Tilheyrendur
ad ſtija til þeſſa HErra med Bænenne uñ ſoddañ
Hlute, og ſijdann einum honum tileinka audmiw-
ker med Hiartans Þacklæte allt hvad afrekaſt i þvi
Gooda, þvi hann er ſaa ſem alla Hlute i ollum upp-
fyller, enn ſaa er eckert ſem plantar edur vokvar,
allt vort Erfide vill einungis bera Þyrna og Þiſtla
nema JEſus giefi Frioofgunena, 1. Cor. 3. v. 6.
Hann ſorlijkar, hann bæter og lagfærer, og þvi
byriade honum ad lijda og uppriiſa a Þridia
Deige Þau Ordenn, ſem til vor verda tolud
wt af Þijnunne DRottens, ſtilla þa ſtooru Hiar-
tans Kvol, er oſs ſtendur af Syndenne og Guds
Reide i giegn henne, þvi vorar banvænu Under og
Saar eru i hanns Undum læknadar, Eſ. 53.v. 5.
Enn hañs bleſſadur Uppriſu-Sigur kiæter Saal-
ena, og endurnærer ſundur-mared Hiarta: JEſ-
us uppfyllte Skriftena, og fullkomnade hvad af
honum var ſpaad og talad, ſo þar breſtur eckert

ꝏ,og er oss þvi af honum veitt fullkomenn Lausn og Frelse. Eñ so sem honum byriade ad lijda, og uppriisa ꝏ Þridia Deige, Post. G. B. 17. v. 3. So byriar þier og, mijn Sꝏl, epter ꝏsettu Guds Raade hier i Heime, ad lijda Kross og Hormungar; hafer þu JEsum kiæraň, mꝏttu vid slijku bwast, og ei lꝏta þig undra, sem hendte þig eitthvad fꝏheyrt. Lijder þu hier i Heime, hefur þu ad vænta Dijrdar og Glede annars Heims. Geim þvi þetta Ord þijns HErra: Hvar eg er, þar skal og miñ Þienare vera, þvi mꝏ þad vera hier i Hormungunne, fyrst þad ꝏ ad vera siidar i Vegsemdenne, edur hverneñ meiga þau Tꝏreñ þar af þurkast, Openb. 7. v. 17. sem ei hafa hier wthellt vered? Ps. 126. v. 5. Og hvernenn gieta þau wthellst nema fyrer Hormungarnar? Horf þvi ecke so grant epter þessum Veige, sem Vegarens Endalykt, ecke so epter Verkenu, sem Verdkaupenu, er Guds Nꝏd vill þier giefa, so muntu siidur Oþolennmood verda, bijd þennaň litla Tijma, þar til JEsus kiemur kommande ꝏn Dvalar. Openb. 22. v. 20.

Framar auglijser JEsus, ad Ydran og Fyrergiefning Syndanna skule i siinu Nafne predikast. Soddaň hanns Bod athuge Kieňꝏrar og Tilheyrendur, og giæte hverutveggiu, ad sꝏ Guds Þioon hagar vel sinne Predikun epter þessu Bode, sem af Logmꝏlenu, med skarpre Syndaña Opeñberan, ꝏn Hræsne og Maňgreinar-Allits, Es. 58. v. 1. An Agyrndar, Otta og Fylgis, siiner þa synnu og for-

Votnu Særeñ þeim Daudu og Dofnu Samvitskum, so þær uppvakne, þecke sig, og leite sier, med sañre Ydran, Lyknar og Lækningar, og bidie Gud Vægdar og Myskunar, Es. 55. v. 6. 7. Þvi hvorvenn kann sæ ad gyrnast Lausnena riettelega, sem ecke þecker sig bundeñ, edur sæ ad odlast Grædslu, sem ecke þecker sig særañ. Eñ giæt þu ad; Mañsins Medkienning æ soddañ, æn Sorgfullrar Hiartans Tilfiñingar og Haturs æ Synderne, duger alls eckert fyrer Gude, sem ælijtur Hiartad. Ad nu þessu undañgeingnu, byriar einum Guds Pioon, ad lækna og leggia vid Særed, og hella þar inn tilskickudu Salve Syndanna Fyrergiefningar, og taka, sñ miwk Mooder moot harmþrwngnu Barne, æ moote þessum. Col. 5. v. 14. So giorande Guds Pioonar predika i JEsu Nafne, hiner skulu og medtaka slijkt af þeim i JEsu Nafne, so mun þar bædum af standa tijmanleg og eilijf Blessan.

O þu goode JEsu, Logmæled hootar mier Bölvan, og margt vill mig Aumann Saka-Mann æklaga: Snw þvi, O JEsu, i Blessan, minnar riettrar Umvendunar, og þinnar Fyrergiefningar, þvi þu himneske Lækner i Gilead, ert rijkur af allskyns Lækning og Hugsvolun, og villt eingum Nadd-þyrstum slijks synia.

AMEN.

* *
*

# 28. Capitule.

Um̃ Innsetning þess H. Predikunar Embættis.

EN JEsus sagde eñ þa aptur til þeirra: FRIDUR SIE MED YDUR. So sem þad Fadereñ sende mig, so sende eg ydur eiñin. Og er hañ sagde þetta, blies hañ a þa, og sagde til þeirra: MEDTAKED ÞIER HEILAGANN ANDA.

ÞAD er hier Fyrst vel athugande, ad nær JEsus innsette Predikunar-Embætted, þa itrekade hann aptur siina blessada Fridar-Osk, og brwkadi hana so sem fyrer eina naakvæma Vijgslu-Predikun, i hverre ad bæde er faleñ stoor Huggun og eptertektaverd Amiñing fyrer Ordsins Þienara. Huggun er þeim þad; þvi so sem Postularner hofdu mædur falled fra DRottne, yfirgiefed hann, og afneitad honum, enn JEsus gaf þeim nu aptur eitt Uppreistar-Brief med þessare Fridar-Osk, og Forlææt Synda þeirra; Zach. 1. v. 3. So maa og hver eiñ Guds Þienare vel vita ad þeckia nockud sialfann sig, og kannast vid Veike siina, Exod. 3. v. 11. C. 4. v. 10. Es. 6. v. 5. Jer. 1. v. 6. Og Misgiorninga moot siinum HErra, sem sannlega eru jafnmikler sem Postulaña bæde ad Stærd og Fiolda, ef grant er adgææd. Þo nu Strafsins sie þvi hardara ad vænta, sem sa er meir upplijstur og hef-

ur stærra Pund, sem syndgar, þa er samt þess ad fullvænta af Guds Myskun, ad hann væge þessum Bornum, æsamt hinum, hver lijklegt er ad opt slet falla meige med Tærum ad Footum sijns Herra, þvi bæde eiga þeir ordugt Strijd vid Diøful og Verolld, og mæta morgum Areasum: Eph. 6. v. 12. Lijka mea þad saart skiera þa, ad þeir skule styggia Gud, sem adra eiga ad vara vid Guds Stygdum, og Gude eiga ad vera eitt fyrer sig hvad Handgeingnaster; Helld eg þvi ad slijker mune Hlut-töku faa i þessu Orde, ad þeim fyrergiefest margar Synder, þvi þeir elske mikid. Luc. 7. v. 47. 1. Pet. 4. v. 8. Þad nu JEsus segier hier i Innsetningu Predikunar Embættesins, FRJDUR SJE MED YDUR, þa er þad sem hann so mikid tale: Eg gief ydur nu sialfann mig til Forlijkunar fyrer ydar Synder, og i mier eiñ Mılldañ og Myskunsamann Fodur, eg gief ydur saña Hug-Dirfsku ad strijda fremster i Fylkingu minne ꝍ mooti Diøflenum og hanns Rijki, moote Verolldenne og hennar Hneixlunum, heñar Illsku og Areasum, so ad þier vited, ad hverneñ sem þad vill geanga ydur i Heimenum, þa eiged þier þann ad i Himnenum, sem ydur hialpar, styrker og stridur ꝍ moote þvi ollu samann, Ps. 73. v. 26. So ydar Samvitskur skulu ecke einasta vera til Frids med Guds Vilia i ollum Hlutum, helldur skulu þier og fridstilla annara Samvitskur, og ad Lyktum vil eg giefa ydur eilijfann Frid.

Aminning ſïo er og ſo i þeſſare FRIDAR OSK, ad Þioonar Guds ſieu ſamlynder ſijn a mille, og hallde Eindrægne i Andanum fyrer Band Fridarens, Eph. 4. v. 3. Þvi þad ſkartar illa, ad þeir hafe Ofrid, ſem Fridenn eiga ad boda og ſtipta medal aña ra; og þar ſem þeir gioraſt nu yfrid marger ſem mootþægiaſt Gude i ſlijku a þeſſare Styrialldarſomu Olld, þa ætte og mætte Guds Þioonum virdaſt hid verſta þañ Flock ad fylla. Ad giordre þeſſare Vijgſlu-Predikun, gaf JEſus Læreſveinunum Kalls-Briefed, ſegiande; LIKA SEM FADERENN SENDE MIG, SO SENDE EG YDUR, Joh. 20. v. 21. Athuga hier chriſteñ Madur, hveria Gud ſendet hier til þijn i ſinn Stad, hann ſender hier ſynduga Meñ til ad kienna þier og predika, eñ ecke H. Engla; hann viſſe, ad ei munder þu, ſo morgum Afbrotum hladeñ, og fyrer þau hræddur og ſkialfande, ſtandaſt kuña þeirra Nærviſt, þvi hafi þeir heiloguſtu og beſtu falled flater af Mœttleiſe til Jardar. Dom. 13. v. 22. og vered nær Dauda af Hrædſlu vid Englaña Opeñberaner, ſm̄ ſiaſt er vijda i Guds Orde; Hvad munde þa hafa af oſs vorded aumum Synda og Saurenda-Seckium? Þvi ſette JEſus ſynduga Menn til þeſſa Verks, og gaf þeim þar til ſijna Fullmagt, edur ſamlijka þeirre er hanns Himneſke Fader hafde honum giefed, þo i viſſum Greinum.

1. Ad Befalninguñe til; þvi ſo ſem JEſus var ſendur

fendur ad predika Evangelium, Es. 51. v. 1. So sende hann þa ad predika þad allre Skiepnu, Matth. 28. v. 19.

2. Ad Verkanenne til; So sem Christi Kieñingar-Embætte var kroptugt Ydrunar og Syndaña Fyrergiefningar Medal, Marc. 1. v. 15. So og einninn Postulanna, Marc. 16. v. 20.

3. Ad Luckuñe til: So sem Christur reyndi Hatur, Ofund og Offsokner fyrer sijna Kieñing, so feingu þad og Postularner i Laun hia Heiminum. Matth. 10. v. 22.

4. Ad Forsvarinu til; So sem Christi Oviner feingu eingri siñi Illsku vid hann framkomid an hanns Vilia, so og ecki helldur vid hanns Postula. Matth. 10. v. 28. etc. Og i soddañ Greinum var nu Postulleg Sending lijk Christi Sending, edur hañs Spamañlegu Embætte, eñ ecke hañs Endurlausnar edur Medalgangara Embætte, 1. Tim. 2. v. 5. 1. Joh. 2. v. 2. Þvi þad er eins Christi eins einkis añars; Hañ einsamann hefur fyrir oss trodid Vijn-Þrwgu Guds Reide, Es. 63. v. 3. Og fundid so Postulunum, sem ollum þeim a hann trwa, eilijfa Endurlausn; Hann eiñ bar a sijnum Herdum alla Logmalsins Bolvan, allar Veralldarinnar Synder, alla Guds Reide i giegn þeim, og allra Andlegra Ovina Araser, vañ so einnsamann Sigur a ollum þeim, og i honum Einum er oll vor Heill og Saluhialp, Act. 4. v. 12. Þetta allt og þvilijkt kieña oss Pistonar Orottins, og

þar til eru þeir eñ i Dag af hønum sialfum sendir, jafnvel þo þad sie nu fyrir Medol, hvor, nær þau riettilega brwkast, so Iñri sem Itri, þa er þad so gyllð og good Sending sem hiña Fyrre edur Postulanna, þvi eñ er JEsus sa sem tilsetur Spaameñ, Postula, Gudspiallara, Hyrdara og Lærefedur, Eph. 4. v. 11. Act. 20. v. 28. til Uppbyggingar Christneñe, sijnum Lijkama; Þvi kallar og Paulus Lærefedurna i Epheso (hverier þo voru fyrer Medal kallader) ad vera af H. Anda tilskickada, og eñ seger hañ so vel uñ Sosthenem fyrer Medal kalladañ, sem uñ sialfañ sig an Medals: Hver Madur halldi ofs fyrir Christi Þienara. Vilie nu nockur af þeim kolludu efa Gyllðleika siñar Kollunar, þa sie þeim þad eptirlaated, sem fyrer Kollunar Medal Iñvortis brwka Agyrndina, 1. Macc. 7. v. 5. 2. Macc. 4. v. 8. Cap 14. v. 4. Eñ Utvortis, Mwtur og Filgi, med slijku fleiru, hverra Erfidis Avoxtur sie Gudi befaladur; Hitt er vijst, ad Trwlyndra Guds Þioona Kienning er Lijfsins Ord JEsu Christi, med hveriu hann vor Daudvona Hiortu lijfgar, so þar af verkast bæde Huggun og Forbetran.

Ad wtgiefnu þessu Kalls Brefi, sette JEsus sitt Innsigle þar fyrer nedann, Eph. 4. v. 30. þvi hañ blies a Læriseinana og sagde: MEDTAKED ÞIER HEILAGANN ANDA, Joh. 20. v. 22. Þegar Gud DRottiñ hafde skapad hiñ Fyrsta Mañ Adam af Jardar-Leyr, þa blies hañ lifande

lifande Anda i hans Naser, hvar med sw Odaudlega Sæl samteingdist Holldinu, og þvi seger Ritningenn: Ad Madurenn hafe orded ad lifande Sælu, Gen. 2. v. 7. Þar nu JEsus blies hier æ Postulana, hveria hañ wtsende i sinn Stad, þa meddeilde hañ þeim þar med, þad Andlega Lijf, þær Andlegu Gæfur, og Andlegañ Styrkleika til Framkvæmdar þess Andlega Embættis, sem i Mønnum upprietta æ þæ soñu Guds Mynd, sem tapadist i Synda-Fallinu, þvi æn H. Anda blessadrar Adstodar kann eckert gott ad wtriettast; skuli Ordid vera Andi og Lijf, so mæ þad af Andanum predikast. Þvi skylldar oss alla Þorfiñ uñ þessa Astgiof DRottiñs hugarlætlega ad bidia i JEsu Nafne, og alldrei kuñum vier ad bidia þarfsari Boonar eñ þessarar. So eru þa DRottiñs Þioonar smurder med þessu himneska Vidsmiore, og mier virdest ad Gud breiti i þessu Efni ælijka og i Moysis Tijd; Gud took af hans Anda og meddeilde odrum, Num. 11. v. 17 Ei ad Andans Gæfur þar med minki hiæ þeim, helldur skiedur þæ ælijka og hina fætæku Eckiu, i hverrar Krws ad ecki þraut Vidsmiored, þo hun betalade sijnar Skullder, 2. Reg. 4. v. 6. etc. So er nu þetta Hæverduga Embætte umgyrdt af Guds Befalningu, Myndugleika, Verkan og Krapte, jafnvel þo þeir blessudu Fridar-Bodar sieu af þessum vonda Heimi optsinnis, og æ marga Vegu offsookter og Ovirdter, og þo þau morg hver Heimsins Born,

er þetta giora ad Handverke, vite nooglega af þessum JEsu Ordum: HVOR YDUR FORSMAAER, HANN FORSMAAER MIG, Luc. 10. v. 16. Enn þeir goodu Guds Þioonar, sem þessu mæta, stundi sñna Þolinnmæde og Hoogværd, og hafi sier fyrer Sioonar-Spegil Eptirdæmi sijns Meistara JEsu, og lijdi fagnande Hæadungar fyrer hans Nafns Saker, vitande ad þeirra Verdkaup er miked aa Himnum.

Enn þu goode Herra JEsu, gief ad þinn goodi heilage Ande sie Styrkur, Vernd og Efling allra Andlegrar Stiettar Manna, og þeirra nææfvæm Huggun og Hugsvølun i øllu Erfide og Hrygdum, so þeir ed boda oss i þijnu Umbodi Blessan og Synda-Kvittun, og nidur saa slijku Blessunar-Sæde opt med Taarum, faae af þier Umbun tijmannlegrar og eilijfrar Blessunar, AMEN.

## 29. Capitule.

Um þad Kiennemannlega Lykla Valld.

Hverium hellst þier fyrergiefed Syndernar, þeim eru þær fyrergiefnar, og hverium hellst sem þier þær apturhalldeð, þeim eru þær apturhalldnar.

MArgar Synder umkrijngia oss i þessum Heime, enn Root og Uppspretta allra þeirra, bæde And

Andlegra og Lijkamlegra; Tijmañlegra og Eilijfra er Syndiñ, Rom. 5.v.12. Skuli nu þessi ſkæ-
ka Syndarinnar Kvol af oss sviptast, og vier wr þessum Jaarn-Hleckium losast, þa mæa JEsus koma þ..r til, og giefa oss sanna Ydran, og Afslausn, annars er þar einginn Fridur, einginn Heilbrygdi, einginn Roosemi; Psalm. 38.v.4. Enn nu kiemur hann til vor, og tekur oss hryggva wr þessu Fangelsi, og wtleider oss wr þeirre Fridlausu Syndaña Myrkvastofu fyrer sijna Pioona, Esa. 52.v.2. Hveriu Verke þeirra og Vallde yfer ollum Sanuydrande, ad hverke fær hneckt Dioful, Helvijte, Luc. 13.v.11. nie neiner Veralldar Menn, hveria Adburde sem þeir vilia brwka; Þar uñ erum vier visser, af strax nefndu Umbode DRottenns, wtgiefnu hanns Pioonum. Sodann þinnar Giædsku hefi eg opt ad notid, minn JEsu; Þvi nær eg sekur, Synda særdur og Hiarta hryggur kiem ad Footum þinna Pioona, þa leysa þeir mig i þijnu Uñbode, og so verd eg þiñar Naadar niootande; 2. Sam. 12.v.13. Þu veiter oss ad sonnu Otal margar Velgierder, og þijn Giædska er hvern Morgun ny (hvar fyrer mijn Saal, ollum Skiepnum framar, tilskylldast ad elska og lofa þig sem mogulegt er, og þo ert þu enn meira Heidurs verdugur); Enn þesse Afstgiof þijn, Syndanna Fyrergiefning, er sw mesta og stærsta: Psalm. 51.v.11.seq. Þegar þu fyrergiefur oss Syndirnar, þa giefur þu oss Daudum Lijfed,

Ps. 51. v. 12. Ecki so þad tijmannlega, so sem þad andlega og eilijfa, ann hvers Lijfs ad þetta Lijf, er ecki annad ad reikna enn Daude og Helvijte, edur Reisa til eilijfra Kvala. Einn Sakamadur, sem broted hefur af sier Lijfed, hann verdur gladur, nær hañ er upphafdur wr Myrkvdstofunne, og honum er þetta tijmannlega Lijf giefed, sem þo er einn adsijgande Daude, Eymd og sijfelld Plaaga; Hvad miklu fegnare meigum vier þa verda, aumer Daudans og Diofulsins Faangar, þegar JEsus vor hæste Herra giefur oss upp alla vora Synda Sekt, og seger: Þu skallt lifa og ecke deya, 2. Sam. 12. v. 13. Þa er oss giefed þad himneska Arfa Gotzid, sem vier af oss brutum, Jaa, wtsooudum med þeim fortapada Syni, Luc. 15. v. 14. 22. Þa er mier giefinn Akur Myskunarinnar i Stadinn fyrer Dybliissu Neydarinnar; Gledinnar Ande fyrer Hrygdar Anda; Fyrer Serk Bolvunarinnar, Kyrtill Riettlætisins; Esa. 61. v. 3. Naad Guds, fyrer Onaad Samvitskunnar; Forsvar JEsu Christi, fyrer Aklogun Diofulsins; Eilijf Vistar-Von himneskrar Paradijsar, fyrer forþientá Utsnaran fraa Guds Dijrdar Auglite eilijflega. Hvad skal eg um þessa Onmælannlega Naad Guds segia, añad enn þetta: Þu, Herra JEsu, snijr þier til eins dauds Hunds, þegar þu snijr þier til mijn og fyrergiefur mier Syndernar, 1. Sam. 24. v. 15. Enn Hund reikna eg mig maklega, þvi eg et so opt

opt upp aptur Syndanna Spyu og Obeckt, hverja eg aadur lietst vilia yfergiefa: Jaa, eitt Svijn er eg xiett nefndur, þvi eg vellti mier so tijdt i sama Saur, 2. Pet. 2. v. 2. Samt hefur þu so opt tekid mig til Naadar! O Herra, eg hrædist ad þijn morgu Myskunar-Verk mier veitt, hvor eg hefe til Syndanna vanbrwkad, Esa. 65. v. 2. mune verda uppaa Reikning skrifad, og smwast mier sijdar til stærre Hefnda. O hvad opt hefi eg lofad þier Trygdum! O hvad opt hafa þijner Pioonar sagt til mijn: Laat af Illu og gior hid Gooda! Þessu hef eg lofad, enn Dogum optar af þvi brugdid, Jer. 3. v. 20. Maa eg opt hugsa so, einkum þegar eg skrijd fram fyrer þitt Auglit i Skriptar-Stoolnum: Hvad skal mier Overdugum Ormi, Esa. 41. v. 14. og i ollum goodum Verkum visnudu Haalm-Straae, ad vogast fram fyrir Guds heilagt og hrædilegt Tignar-Vellde, Jer. 23. v. 11. Hvad skal mier ad JEsu Footum, hvers Blood eg hefi trodid, og hvers Saattmaala eg hefi opt rofid? Ebr. 10. v. 29. Samt maa þo ecki þesse Þanke reka mig fraa þessu Skioole; Þvi deye eg, so dey eg Drottne, Rom. 14. v. 8. Hvorninn sem þad geingur mier, þa fæ eg þo hverke Lækning nie Lijf, nema hiaa þier, þu eilijfa Lijf, og Læknis-Meistarinn Herra JEsu: Þvi skal eg hier aa Ohræddur hætta, mier hefur þad ad goodu Atvarfi orded, so mun þad og verda hier epter; Þu villt eingan fraa þier reka sem til þijn kiemur: Pæ-

ta Ordid: Eingañ: Dyrfir mig, eg vil læta mier
mæægia þad, med þvi fleira sem þijner Þioonar hi-
er um boda mier, fram af hverra Munne ad þitt
blessad Blood, O JEsu, so gott sem blæder yfir
sollinn Synda Saar mijn, 1. Joh. 1. v. 7. Og
þetta Salve yfir mitt sorgande Hiarta: Hvar vid
eg læknast og sæ andlega Hugar-Hressing: Þegar
eg tiææ þeim þessa mijna sææru Eymd med Munn-
inum, Ps. 32. v. 5. enn þier, O JEsu, med Hiart-
anu sundurmerdu, þa svara þeir mier þessu Utvort-
is, eñ þu Hiartanu Iñvortis fyrir H. Anda sem
þad þar fyrer Trwna iñsiglar: JEsu Hiarta þoler
þad ecke ad burtreka þig Hiælparlausann, hanns
Myskun mæder hann, Jer. 31. v. 20. Hañ vill
ei þinn Dauda, hañ er þier giefiñ til Vijsdooms,
Riettlætis, Helgunar og eilijfrar Endurlausnar,
1. Cor. 1. v. 30. So vertu nu hughraustur Son-
ur, þier eru þijnar Synder fyrergiefnar, Matth. 9.
v. 2. Og þeir eru dauder og Maktarlauser, sem leit-
udu epter þijnu Lijfe, Exod. 4. v. 19. Þar med
verd eg fyrer Trwna heilbrigdur. Þau Laungi-
etnu Born standa ecki til Arfs epter sijna Forelld-
ra, eñ þau skilgietnu hafa ecki fyrir þvi ad Ottast,
og þeim þarf einginn um þad ad bryxla: So eru
og DRottiñs Þioonar aller skilgietner, Gal. 4
v. 26. til þessa Arfs edur Embættis Utriettingar,
epter Postulana, og þeirra Embættis Verk
kroptug fyrer Gudi (so sem ædur er bevijsad) nær
þeir rekia Foot-Spor sijns Herra, og fylgia hañs
Bod-

Bodum, i þvi ad kieña Orded hreint, og einardlega straffa þa sem gaanga aa raungum Veige, so þeir af Guds Orde þecke sig og meige leidriettast, 2. Tim. 4. v. 2. Tit. 1. v. 13. So sem og hugga þa hryggvu af DRottens Naadar Fyrerheitum, Es. 10. v. 1. Cap. 35. v. 4. Jaa, hvad þeir wtrietta i þessu, epter JEsu Orda Fyrersogn, þad er stadfest aa Himnum. Nær þeir nu straffa mig, vil eg ecke einasta þad seigenn lijda, helldur og til Packa taka; hafi eg þann kiærann seni mig vara vill vid Lijkamlegu Skadræde, þvi skal mier ecke saa kiær miklu framar, sem mig vill draga fraa Helvijtis Ellde og eilijfu Skadræde? Eg veit ad Gud hefur bannad honum, ad giefa Hundum Helgedoom, Matth. 7. v. 6. Þvi skal eg þa þyckia þad, þo hann varne mier ad medtaka, sem Hundur, Guds haaverduga Helgedooma, sem vantrwudum og Ogudlegum Medtakurum verda ad Ylm Daudans til Daudans, 2. Cor. 2. v. 16. Edur er þad ecke Velgiorningur ad bægia einum fraa Elldenum, so hañ brenne ecke? Meddeile þesse Guds Naads-Madur mier vitanlega Overdugum þa stooru Dyrendis Fiesioodu sijns Herra, þa setur hañ bæde mig og sialfann sig i hiñ mesta Haaska, Ezech. 33. v. 8. So sem eg vil seigeñ ad JEsus giøre þad vid mig sem honum gott þiker, so vil eg og seigeñ ad þesser giøre þad vid mig sem JEsu wtgiefed Umbod til helldur þeim; Eg veit ad eg verd alldrei fegnare ad medtaka þau andlegu Giædenn af þeirra Hende, helldur eñ þeir

ad meddeila mier þau, nær þeir ſiá mig og þeckia fyrer þau hwngradann, Exod. 32. v. 32. Rom. 9. v. 3. Hier fyrer utann boda þeir mier ſo margt eitt Lijſſins Ord, leyſa mig fiotradann, hugga mig hryggvann, og ſenda ſo mörg heit Bænar-Taar leint og liooſt fyrer minnar Velferdar Saker, upp til DRottens, 1. Tim. 2. v. 1. ad mier mætte verda þad Ordſok Tijmanlegrar og eilijfrar Olucku, ef eg, ofañ á adra Illſku mijna, hatade þa og forakt-ade fyrer allt þetta, Luc. 10. v. 16. So þeir and-vorpudu þar yfir ofann á adra Mædu, Ebr. 13. v. 17. Þvi hvada Barne er þad ſem hræker i And-lit ſijns Fodurs, edur ſlær og bolvar ſinne Mood-ur; ſkal þad ecke Bolvanenne nærſt? Slijks heſn-er DRottenn viſſulega, ſem ecke lætur ad ſier hæ-da. Vareſt þvi aller þad ſterklega, ſem vilia inn-komaſt i Himnarijke. Hier fyrer utañ meiga Guds Þioonar vita Skylldu ſijna i þvi ad fara vandlega og varlega med ſitt Lykla-Valld, þvi med Dram-be og Ofbellde ad brwka þad, hágar illa þeim frem-ia vilia goodañ Riddaraſkap; ad behallda goodre Samviſku, koſtar Athygle, 1. Tim. 6. v. 12. 2. Tim. 4. v. 7. So ecke kvijde Sálenn vid þröng-um Reikningſkap epter á ſeinna: Ad dvelia ecke vid Aflauſn ydrande Manna, enn ſnwa þverbrot-num med Hoogværd, er goodur Mæte i þeſſu Verke, 1. Theſſ. 5. v. 14. O JEſu! Þu ſætaſte Unnuſte minnar Sálar, myſkuna þu mier Over-dugum, ſnw þu mier ſálauſum og Siálfſ-
um

um, og leys af mier þijnum Fanga þau scaru Synda=Fiotur, so eg særdur og Synda hrelldur, fæe Frid og Fognud, Rom. 14, v. 17. Þad bod=ar mier minn Gud hier um fyrer Mun sinna Þioo=na, þvi vil eg og trwa, vitande ad mijns Hyrders Lausn, er sem sialfs þijns Lausn, so verdur mier sem eg trwe, Amen.

## 30. Capitule.

Um Fall Thomæ Postula.

EN Thomas, einn af þeim Toolf, sem kalladest Tvijbure, var ecke med þeim þa ed JEsus kom. Enn hiner adrer Læresveinarner sogdu til hans: Vier hofum sied HErrann. Enn hann sagde til þeirra: Nema eg siae Naglaforenn i hanns Hondum, og lati minn Fijngur i Naglaforenn, og eg legge mijna Hond i hanns Sijdu, þa trwe eg ecke.

AD sofa leinge, aflar Vanheilsu, tærer Formeg=anenne og spiller Neadar=Tijmanum, soddann Slen hindrar opt fra goodu Tækifære. Þad er engenn Nijung, ad heyra þad, ad Menn barme ser og asake sig, nær þeir forsia sig i þessu, þegar þeir vilia vera i þeim Hlutum, sem Holldsins Vilia og Tijmannlegum Giædum vidkoma: Var eg ecke

ecke eirn Vitfyrringur (segia þeir) ad eg forsoom- ade þad edur þad: Eñ hvad skialldañ heyra Menn ad þad take sart, þo þau andlegu Efne og Verkan Sáluhiálpareñar falle undañ; Tilfiñingenn þar til, siinest opt ad vera æred dosinn, þar vid er ecke brugded Blunde þo kallad og hroopad sie segiande: Sofed ecke, Matth. 26. v. 41. 1. Pet. 5. v. 8. Þad bijdur ad Menn vakne edur þecke þad fyrer stoora Misgiord, edur giefi good Svor, fyrr enn Lyd- ur, ecke ad eins Logmálsens, helldur Hrijssens og snarprar Hegningar giellur uñ Eyrunn, já, stun- dum ecke fyrre eñ Sáred er orded swed og forrot- ed, og ollum Svidanum leggur inn ad Lijfe Sál- areñar, so heñe er Daude bwenn; Þar kiemur og stundum annad verra til, þvi eitt bijdur odru heim, þad er Torvelldne Trwarennar, so þar sijnest Skipbrot bwed á hverre Stundu; Soddann er Algeingenn Landfar-Soott á þessum Dogum, þetta og þvilijkt Harma-Spil má noog siá og heyra.

Lijking hier uppá má siá á Thoma Postula, hañ var ecke med Læresveinunum þa JEsus kom, hvar hañ var á medann vardar oss ecke uñ: Ad hañ hafi ecke samlagad sig Læresveinunum, epter þad ad þeirra Flootte giordest frá Drottne i Gras gardenum er misgrunande, þvi Lucas segier, ad þeir Tveir Emaus Vegfarendur hafi funded þá Ellefu samañsafnada; hitt er lijklegra, ad hañ hafe uñ þessa Stund, sem JEsus kom, geinged eitt- hvad

hvad uppaa Skiemtan edur Forvitne, ellegar til
einhverra sinna Utriettinga; en̄ hvad sem i þessu ve-
red hefur, þa fieck hann noogu þrongt Saar af sinne
Burt-Veru, sem var Vantrwenn, eitt þad stær-
sta og Saaluñe skadvænasta, þvi aan Trwareñar
er Omögulegt Gude ad þocknast, Ebr. 11. v. 6. og
hver ei trwer hann skal fordæmast: Hver Synd
kann þa ad vera skiædare og skadsamare enn þesse?
Þvi ef Lioosed sialft er Myrkur, hve mikid munu
þa sialf Myrkurenn? Matth. 6. v. 23. So var
þetta Lioos formyrkvad ordeð hiaa þessum Guds
Manne wr Hoosi sku̇m, ad hañ trwde ei ad eins
ecke heyrande, helldur sagdest hann ecke trwa sioaan-
de, nema hann yrde Saarunum DRottenns aa-
þreifande. Sierhver lære þvi hier af þessu Dæmi,
ad skilia sig ecke fraa Samfielagskap Guds Barna,
Ebr. 10. v. 25. edur Samkundu þeirra Frumgiet-
nu, Ebr. 12. v. 23. hvar Guds hreina Ord er kie-
ndt og predikad, af hveriu vort Trwar Lioos kvikn-
ar og endurnærest, Rom. 10. v. 17. vidhellst og
vardveitest, þviad i Kyrkiunne talar DRottenn
vid oss, og uppvekur vor Eyru, so ad vier heyra
kunnum, so sem sanner Læresveinar, og vitum sijd-
añ ad tala þar wt af, ecke ad eins vid vor mædd
Hiörtu, helldur og vid adrar Sorgbitnar Saal-
er i Naudsyn; Es. 50. v. 4. 10. Þar saum vier
Grædslu vid sierhverium Meinsemdum vorrar
Saalar; Es. 53. v. 3. Þar saum vier rietta
Undervijsan um̄ þad, hvernenn vier skulum gaan-

ga og Gude þocknast; Þar faum vier sied, so sem i ødrum Speigle vora Breitne og Blette; Þar faum vier Vopnenn til ad beriast med, i þvi andlega Strijde, so ad Corona Lijfsins oss sijdañ veitast kuñe; J einu Orde: Þar faum vier ad læra þa sønnu Gudhrædslu, sem bæde er til þessa og aňars Lijfs nytsamleg: Giefer þu þig fra þessu andlega Herberge og Borg DRottens, hefur þu ad væntta andlegrar Villu i þessare Eydemørk, ei sijdur eñ Agar burt vikenn wr Abrahams Hwse, Gen. 21. v. 14. Þu telur þad ecke mikla Synd, eitt Sinn og annad ad hallda þier fra Guds Barna Samkvæme; enn eg segie: Flijtur ad medann ecke sockur; Hier var Thomas eitt Sinn i burt, og fieck hann nøogu þrongt af þvi. Barn Guds, vird alltijd fyrer þier þann þraungva Veg Lijfsins; ef þeir, sem kostgiæfa ad fara alltijd sem riettustu Leid, hialpast naumlega, hvad mun þa vilia verda um hina sem sijfellt sofa i Athugaleysenu, Post. G. 20. v. 9. og ydduglega forsma Kyrkiur, Kiennemenn og Guds Orda Lærdoom; þeir þurfa ecke ad undrast þoo ad framkome, ad þeir fae einga Huggun af Gude i sinne Hrygd, helldur ad hann vilie spotta þa i þeirra Plaagum, fyrst þeir sættu honum ecke, og verde so sadder af sinne eigenn Prioosku, Prov. 1. v. 25. 26. Ad soñu er þesse Doomur Veralldareñar Alkuñugur; nær hun hughreyster sig i sijnum Glæpum, segier hun: þad sier ecke meira a mier eñ hinum ødrum. Þad kañ þier þu vondi Hyrduleysinge so ad

sijnast

siinast um̃ Stund; eñ villtu ecke leida þier i Hug ad
þad kunne ad skie, ad Gud um̃liide þig sem annad
Reidennar-Kier, sem bwed er til Fordæmingar,og
sem Saud sem ætladur er under Kniifeñ, þegar þu
hefur ecke einasta soddann Pocknan og Lyst a Þijn-
um Lostum, helldur og añarra eins a sig komnum:
Þad er og stundum skamt ad biida Hoggsins, þvi
adur eñ þad Þyrnarner eru fullvaxner a Þyrne-
Broskenum, þad er, adur eñ sa edur sa haalfnad
hefur Eirn og Añañ vondann Asetning, edur midt
i honum, tekur Gud af oll Raadeñ, og hañs Reide
svipter þeim ferskum i burtu. Ps. 58. v. 10. Þu
kañt ecke ad tala an Twngu, og ecke ad lifa fyrer
utañ Hiarta; So siinast þo marger i Heimenum
ad vera a sig komner; þeir hafa Obeit mikla a þvi
ad lata undervijsa sier um̃ Gud, þvi tala þeir og
bid færsta um̃ hann, þar af ma siinast þeir hafe
hañ ecke i Hiartanu, edur Elsku nockra til hañs nie
Trw a honum, hier fyrer reiknast þeir lifande dauder;
J þvi er falid þad eilijfa Lijf ad trwa i Hiartanu
a Gud, og jata hañ med Munnenum, þa fylger
epter Riettlæted og Saaluhiaalpenn. Rom. 10. v.
10. Eitt dofed og daudt Holld finnur ei til þess,
þo þad sie skored edur kliped; eins er og vared þeim
daudu og dofnu Samvitskum: Þær finna ecke til
þess, þo Satan skiere wr þeim Hiartad, þad er,
alla Tilfinning til Syndarennar, oll Ydrunar
Mykende, og alla Elsku til Guds og hañs Bodorda,
þar sem eitt Guds Barn fær megn Saaren-

de jafnvel af eine Yfirſioon, þvi þeirra Samvitſka er ſo kvik af ſijfelldre Stroffun Heilags Anda, yfir hverium þau bwa, ad þau meiga eckert vidkvæmt þar innleggia: Hvad ſem um þetta er meira ad vera, ſie ollum oſs rædlagt, ad minnaſt jafnann og hafa i Huganum, einkum þegar Dioſull, Holld og Heimur vill hindra oſs frꜳ þvi gooda, þau Ord ſem Martha ſagde Syſtur ſinne Mariu Fordum; Meiſtarenn ſagde hun (enn þad var JEſus), er þar, og kallar ꜳ þig. Joh. 11. v. 28. Hann kallar ꜳ þig til Guds Orda Heyrnar, þvi i hverium Stad ſem hann ſkickad hefur ad vera ſkuli Minning ſijns Nafns, þangad vill hann koma og bleſſa þig. Exod. 20. v. 24. Þeſſe ſame Stadur og Sofnudur Guds Barna, mꜳ heita einn andlegur Himen, ꜳ hverium Sool Riettlæteſins JEſus lætur ſijna Geiſla ſkijna, er upplijſa vor Mannanna Hiortu. Vilier þu nu ecke verda wti i Myrkrunum, fyrſt Villunnar og ſijdan Fyrerdæmingarennar, ſo gack nu i þeſſu bleſſada Liooſe, ſo þad leide þig i Lioos eilijfrar Byrtu. Lær hier enn framar, chriſten Madur, ad riettlæta ei þijn rangu Verk, med Hroſunum ÞRottens Aſtvina, ſegiande: Þad og þad hendte hann og var hann þo goodur Madur, þvi mꜳ mig ei ſijdur ſkie hid ſama? Þvi þo Noa hendti Ofdryckiann; Gen. 9. v. 21. Loth Bloodſkomm, Gen. 19. v. 33. etc. Moyſen Manndrꜳped, Exod. 2. v. 12. og Eſaſemenn, 4. M. B. 20. v. 10. Aaroneni Skwrgodadyrkunenn, 2. M. B. 32. v. 2.

David Hoordoom og Manndrapid, 2. Sam. 12. v. 2. etc. Petur Afneiting, og þa adra DRottenns Læresveina Hardwdenn, þa er slijkt ecke skrifad þier til Epterbreitingar. Eda villtu breita epter Juda i Falsinu og Svikunum, og verda hønum maskie samferda? Nei; Helldur er slijkt skrifad þier til Vidvørunar, og Sannydrande Mønnum til Trwarstyrkingar, ad nær þeir falla, þa skuli þeir þo ecki ørvænta sier Naadar DRottinns, sem er rijkur af Myskun yfer þeim sem aptur snwa, af Hiarta ydrast og Ottast hann, þvi þar sem þesser þeckia med saaru Angre Syndina, og hata hana, enn trwa a JEsum, sem riettlæter Rangláataň, þa nær þetta Ord til þvilijkra: Hvar Syndinn yfirgnæfir, þar yfirgnæfir Naadinn miklu framar. Minn goode JEsu, opt vill mier tilfalla saarlegur Veikleike Trwarinnar, enn hiaalpa þu minne veikre Trw, so hun lifi og lijsi i sannri Gudhrædslu; Þu blessada Lioos og Lijf, laat þitt Lijfsins Ord, lijsa oss allt til Heimsins Enda, so vier alldrei fræ þier føllum i neina Vantrw edur Orvænting, AMEN.

# 31. Capituli.

Uň Vidrietting St. Thomæ af Skodun Saara-Draňa JEsu.

Og epter Aatta Daga voru eň aptur hans Lærisveinar þar iňe og Thomas med þeim. Þa kom JEsus ad lukt-

lúktum Dyrum, ſtood i Mideð og ſagde: Friður ſie með ydur. Siiðañ ſagdi hañ til Thomam: Rtett þu þiñ Fijngur hijngað, og ſkoda mijnar Hendur, lypt upp þine Hendi og legg i mijna Sijdu, og vert ecki vantrwadur, helldur trwadur.

Um þann lifanda Gud talar David þañig: So ſem þitt Nafn er, ſo er og þiñ Lofſtijr iñ til Enda Veralldariñnar, Pſ. 48. v. 11. Medal Mannaña er Nafn og Lofſtijr alltijd ſamferda, enn ſo ſem Gud tiaer ſig ad vera i Ordinu, ſo reyniſt hañ alltijd i Verkunum; Hiñ goode JEſus ſvarar alltijd til ſiña Nafna i ſiñi Vidhondlan vid oſs Syndarana: Hañ nefner ſig goodañ Hyrder, Joh. 10. v. 11. Hañs Giæðſka verdur og alldrei nooglega wtſögd, hañ tekur ecki ad eins fagnande a moote þeim Saudum ſem til hañs flya, helldur leitar hañn og a allar Lunder ad þeim ſem villaſt, og ber þa mœttlauſa a ſijnum Herdum heim til Sauda-Hwſſins wr Haſkanum, Luc. 15. v. 5. Þo Otal Oviner vilie uñkrijngia þa og epter þeim ſækia, fær einginn þa ſkadad a einu Hoſud-Hare, Eſa. 40. v. 11. nie þa ſlited wr hañns Hende, hañ glatar eingum af þeim, hann giefur þeim Lijf og fulla Nægd, Luc. 21. v. 18. Joh. 10. v. 28. Þañig ſvarar nu JEſus til ſijns Hyrders Nafns. Nærſta vel ſañadiſt þad a hañs Vidhondlan vid Thomam. Mundi ecki Thomas vera hier ord-

inn allrar Naadar Overdugur vegna Vantrwar sinnar? Hafdi ecki DRottinn Riett til ad yfirgiefa hañ i fraleitt Siñi so hann trydi Lygiñi og tapadist, fyrst hann villdi ecki Sannleikanum trwa? Eñ þad kuñi ecki JEsu Myskunar Hiarta ad lijda, þvi kom hann hier uppa nijtt hanns vegna, med nija Medalgaungu og nija Fridarbodan, so hann læknade hanns niju daudlegu Akomu. Hvar fæst nu lioosara Dæmi og Sañleiks-Vitni uppa hañs Loford, ad hann vilie ecke wtsleckva lijttlogande Lijn-Kveik, nie brakadañ Reyr sundurbrioota, Esa. 42. v. 3. Og ad hann sie kominn eptir ad leita, og Saluhoolpid ad giora hid tapada? Soddañ er øllum veik-trwudum Guds Saudum til stærstu Huggunar, og øllum sannydrande Syndurum til Andlegrar Hugar-Hresſingar, þvi JEsus er hiñ sami i Giær og i Dag, hinn sami allt til Eilijfdar, af Oendañlega heitum Myskunar Ydrum, og stærsta Ovilia a Syndarans Dauda. JEsus itrekar hier øll hin somu Ord, sem Thomas hafdi adur brwkad a sijnum Vantrwar Vege: So hagar JEsus þvi enn þa alltijd; Þegar hann sniyr Syndaranum a Ydrunar-Vegiñ, þa lætur hañ Syndarañ rekia til Baka þau Synda Sporenn, sem hañ gieck fyrri, fyrer Endurmiñing, Upprifian og saña Þecking i Hiartanu, hvar af ad aflast sonn Ydrunar-Taar, so sem þa grafed er epter Vatne i Jordina; Og ma sañlega margur af oss kannast vid soddañ JEsu Adferd med Hiartans Packlæte,

 þvi-

þvi þad sem vier nidurgrøfum og hyliumm, þad vill Gud uppgrafa og i Lioos leida, Esa. 29. v. 15. Matth. 10. v. 26. Og mundum vier margt soleidis fela, og þess seint minnast, ef sialfrader værum, eñ hvad Madur man ecki, þar tekur hañ einga sierdeilis Ydran fyrer, enn hvar er Ydrunarlausre Vondsku Fyrergiefning heited? Þvi er þad eitt Giædsku Verk Guds og nakvæmur Fodurs Giærningur, ad hann lætur Synda Registur vort vera opid i Huganum, oss til siifelldrar Ydrunar Aminingar, uppa þad, ad þad verdi hier i Nadenni yferdreiged, og siidur lesid oss til Sekta edur Syndagiallds a þvi siidarsta allsheriar Þijnge: Eñ sierdeilis upprifiast giordar Synder i Hormungum og Freistingum, þa verda þesse Saarenn vidkvæm, sem Dæme Jacobs Sona ætvijsar, þvi nær þeim gieck mædusamlega i Egyptalande, þa mundu þeir, ad þeir hofdu selldt Broodur siñ, Gen. 42. v. 23. Þa ma Mann opt med Harme rekia þad, sem adur var med Hlatre nidursad. Hier sogd Drottiñs Aminning giorer oss og Vareigdarsamare ad sia vid Syndinne, og Kostgiæfnari ad strijda moote Dioflinum, Heiminum og Holldinu, þvi Minning hinna fyrre Synda, bender oss til þeirra allt siaande DRottinns Augna, sem ecki einasta veit oll vor Verk og Ord, helldur og þa huldu og heimuglegu Hiartans Þanka, Jer. 17. v. 7. Þvi so sem hann sier þad fyrra, so sier hann og þad siidara, og alldrei dyliunst vier

fyrer

fyrer hanns Augum. Nu uppa þad ad Thomas med andlegre Heilbrygde og Hugar-Hægd, synde JEsus honum siin Sara-Or, so hann mætte þar a þreifa, og af Vantrwudum gioraſt Trwadur; Hvad og ꞇan Dvalar ſkiede. So fær og enn miin Saal i Trwnne, ad þreifa a og ſkoda þiin Handa og Foota Saar, minn Herra JEſu, hvar vid eg læknaſt af miinum Andar Meinſemdum, og gioriſt þar um fulloruggur, ad þu hafir mig med þeim innſkrifad og teiknad i þiinum Hondum, Eſa. 49. v. 16. Þegar miiner Fætur þreytaſt hier a Kroſsins Vege, og Holldid tregdaſt med ſtoorri Oþolinmædi, ad ganga þa tilſkickudu Gotu Guds Bornum, þa ſet eg mier fyrer Siooner, til Eflingar andlegrar Orku og Dugnadar, þiin Foota Saar og ſviidande Under: So verdur mier, O JEſu, þeſſe Rauna Vegur þægre og elſkulegre, þvi eg ſie þa, ad þad kan ecki a anan Hatt af ad komaſt, ad na in i Himnariiki til þiin, en ſo, Þ. G. 14. v. 22. Þegar Syndana Saar ſæra og mæda mitt Hiarta, og boda mier Helviitis Piinu, og þad eg muni wtſkwfaſt fra þeim eiliifa Brwdar Sal, inn i hvern þeir Ohreinu fa ecki ad komaſt, Opinb. 21. v. 27. Þa fly eg hræddur og mæddur i Sarid þiinar ſignudu Siidu, þa bleſsudu Svolunar Biarg-Skoru, hvadan ſtrax ſkyn yfer mig lioomande Geyſle þinnar Elſku, liika ſem Glanſe af Briooſt-Skyllde Arons fordum leiptrade yfer Foolked, til Fullviſſu eins Nadugleg-

Teikns og Andsvars af DRottne: Hvar med þa og Fridstillest mitt Hiarta og fær andlega Endurnæring, Jaa, hvad sem mig vill ꜳklaga, þa skal eg undann þeirre Aklogun flya, til þessa Frij-Stadar og fasta Slotz. Hver mꜳ mig þadann reka? Enn fierdeilis og einkum vil eg og skal hafa mig i þetta Ohulta Skiool, nær eg formerki ad mijn Stund sie komiñ, ad gꜳnga Veg allrar Veralldar, og Sꜳl mijn ꜳ burt ad venda wr þessu Lijkamans Hwse: Þꜳngad i þañ Fagnadar og Fridarins Bwstad vil eg þa senda hana, fyrer heitar Hiartans Andvarpaner, eptir þvi ad eg er nu i Trwñi (þo veik sie) viss um þad, miñ JEsu, ad hun sie þijn Uñusta, hveria þu hefur þier fastnad i Nꜳd og Mysk unsemi, Hos. 2. v. 19. Þu munt og eirninn senda ꜳ moote heñi þꜳ himnesku Vagna, þijna H. Engla, og ad heñi innkomiñi i þetta fasta Slot, kañ eingiñ heñi framar ad ama, hvorki Dioful, Synd, Logmꜳl, Heimur nie Helvijte: Enn ꜳ medann þetta dregst undann, og eg er hier dveliande i Utlegdiñi, og Sꜳlinn verdur ad draga epter sier Lijkama þessa Dauda, Rom. 7. v. 24. vil eg alltijd nær sem mier svijda Synda Sꜳrenn, og þessar Under uppyfast, sem miog opt vill skie, leggia Sꜳr vid Sꜳr, mijn Sꜳlar Sꜳr vid JEsu Sꜳr: Þad skal miñ einaste Grædi-Plꜳstur, þar med skal stilla allañ Hiartans ofur-Hita og Oroosemi, so burt þurkast best Syndariñar Blood, ad þad sie med JEsu Benia Bloodi i burt þvieged,

1. Joh.

1.Joh.1.v.7. So næriſt beſt, i þeſſu Myrkre, þad andlega Trwar Lioos, ad þetta Vidſmier leggiſt þar ad, añars trwi eg ad ſeatt muni til Huggunar i þeſſari Eymdaña Myrkva-Stofu: Jea, ſo verdur allri Bølvan beſt i Bleſſan ſnwed, øll Freiſting beſt lægd, allur Harmur beſt bættur, allt þetta Skam-Degi Yndisſamaſt, allar Laang-Nætur, Job. 7. v. 3. Rooſamaſtar, og Daudans Beiſkleike burt drifenn, med øllu ødru Strijde adſnakande; Ad þu bleſſade Fridar Herrañ Jeſu ſiert herbergiande i Hiartanu, ſamt Seara-Driñ þijn opiñ, og Bloodid bleſſad augliooſt fyrer Augum Endurminningariñar: So ſkal þad vera mier, miñ Jeſu, i þijnu Nafni og Naadar-Trauſte! Añad Skiool og Trauſt hef eg ecki; Med þeirri Huggun vil eg liſa oc medañ eg liſi, med heñi og deya þegar eg dey, þvi fyrer hana og i heñi oc eg eilijflega ad glediaſt. Þu, miñ JEſu, barſt hier Seara-Driñ oc þijnum forklearada Lijkama, og lijfgader med þeirra Syning þann hoalfdauda Thomam; Þu ſynir þau mier hier enn, mijnu Hiarta til Endurnæringar; Eñ þar nu i Heatigniñni þijnum himneſka Fødur mier ſyndugum til Fridar og Boota; Þar ſiea nu þau og þijner Utvallder, ſem eitt Sigur-Teikn og Ordſok ſiñar eilijfrar Sealuhjealpar; Þar fæ eg og ad ſiea þau med ſeim, med fullkominni Gledi-Sioon, oc hver eg nu horſt heſi med veikri Trwar-Sioon; Þier, O HErra JEſu, ſie Dijrd og Vegſemd ad eilijfu, Amen.

er i Ferdenne, þa kañ hverke Medlæte nie Mootlæti ad skada. Rom. 8. v. 24. Enn med þvi ad bæde Guds Ord og Reynslann kieñer, ad fæer af Guds Vinum gaange hier a Roosum, fleyre af þeim hafa mætt feta þraungvañ og Þyrnum vaxeñ Veg, þa skal mier, miñ JEsu, lynda hañ eiñeñ epter þinne Villd, eg er þo ecke einn a þessum Veige, þar eru og marger af þijnum Astvinum, sem hroosa sier af Hormungunum, 2. Cor. 12. v. 9. Enn þu ert med oss ollum, þvi skal eg medtaka þiñ Sorgar-Bikar, hier epter fylgia, og yfir sierhverre Sorgar-Skaal i þijnu Nafne segia: Eg em þess fulloruggur, ad hverke Daude nie Lijf, Engell nie Hofdingia-Stietter edur Magt; Eige hid nalæga nie hid Okomna, Hæd, Dypt, nie nockur oñur Skiepna, fær mig skiled fra þeim Kiærleika Guds, sem er i mijnum JEsu Christo, Rom. 8. v. 38. 39. AMEN.

# 37. Capitule.

Um Forvitne St. Peturs og Eptergrenslau um Afi Johannis.

Þa snere Petr sier vid, og leit hañ Læresvein epterfylgiande, sem JEsus elskade, sa er og um Kvolldmaltijdena hafde a hanns Briooste leiged og sagt: HErra, hver er sa er þig mun forrada? Þa Petur leit þeñañ, segier hañ til JEsu: HErra, hvad skal

skal þa þesse? JEsus sagde til hans; Ef eg vil han blijfe til þess ad eg kiem, hvad kiemur þad vid þig? Fylg þu mier epter. Þa gieck su Ord Ræda wt a medal Brædrana: Þesse Lærisveirn deyr eigi. Og JEsus sagde eige til hans! Han deyr eige, helldur, ef eg vil han blijfi til þess eg kiem, hvad kiemur þad vid þig? Þesse er sa Læresveirn, sem um þessa Hlute ber Vitne, og þetta skrifade, og vier vitum ad hans Vitnisburdur er sannur.

ÞAd þesta Hlutskipte, sem Madur kann ad æskia sier og odlast, er Roo og Hvijld, þvi nær hann hefur þad feinged er han anægdur. Med eingann Jardneskan Hlut kan Sælen Mansins anægd ad vera: Þa er hvor Hlutur til Frids, ef hann hefur þad og fær, sem best a vid hanns Nátturu-Far. Sælenn er Odaudleg og Oforgeingeleg, þvi kann hun alldrei ad nægiast med neina forgeingilega Hlute sem eckert eru annad en fallvollt Svik og Hiegoome, henne anæger eckert nema Gud alleina, nær hun hvijler a þvi blessada Moodur-Briooste sijns Unnusta JEsu, hefur hun odlast þa riettu Roo og Hvijld, þar epter leangar hana, annarstadar hefur hun eckert Ynde, þa er hun ordenn ein andlegur Johannes, um hvern hier segist, ad han leiged hafi a JEsu Briooste. O hid gledelegasta Epterlæte! O

þa roosömustu Unnunar Hvijld! Sem i Sannleika maa kallast vered hafi Forsmeckur eilijfs Lijfs. Þar hefur þeim Guds Vin ei þookt laangsom Tijdenn; um̄ þañ sama Stad hafde hann Ordsok ad segia: HErra hier er oss gott ad vera. Eñ mijn Saal, hygg þu ad, þig hefur JEsus eiñeñ lagt aa sitt Brioost. So opt sem þu aangrud i ymsu Mootlæte og Synda Sorgum, odlast hefur Huggun og Hugsvolun af þijnum JEsu, so opt hefur hañ lagt þig aa sitt Brioost, so sem ein Mooder sitt harmande og sivkt Barn, jaa, hañ hefur lagt sitt Hiarta vid þitt Hiarta, hvar fyrer þu maatt med Sañe segiast ad vera saa Lærisveiñ, sem JEsus hafi elskad. J þvi haverduga Kvølldmaaltijdareñar Sacramento, maa þad og med øllum Riette segiast, ad JEsus leggi oss aa sitt Brioost, þvi þar sedur hañ hwngradar Saaler vorar med þeirre Himnesku Vellystingu, þar dryckiar hann oss med Lijfsins Vatne; hver hier af riettrwadur neyter, lifer eilijflega. Þar sem nu, mijn Saal, ad JEsus sedur þig med þessu Odauds leikans Giestabode, og hugsvalar þier med so margre Huggun, og veiter þier allskonar Astwdlegt Eptirlæte, hvar med hann þig vissa gioer er um̄ sijna elskurijka Naalægd, Jaa, lætur þig hvijla aa sijnu Brioosté, þa hefur þu odlast þad gooda Hlutskipte, og þa Arfleifd sem engenn Veralldar Metord, Audur nie Agiæte er vidjafnande; Laat þier þar med nægiast, þad mun og ecke fraa þier takast. Hver nu i þessum Fadme hvijler, hann bygger i oruggu

Slote

Slott, i hveriu hann vardveittur verdur til eilijfs Lijfs; þesse JEsu Hønd glatar eingu sijnu, hvar hann er, þar verda hanns Pioonar einenn; þessu hefur hann lofad, þad brigdar hañ ecke. Sem Petur sæ nu þeñañ Lærisvein epterfylgiande, segir hañ til JEsu; Hvad skal þesse? Edur, hvad æ hann ad lijda fyrer þijns Nafns Saker, æ hañ ecke ad dyrka þig med sama Daud-daga og eg? Mier einum segier þu þetta fyrer, ad eg skuli mijnar Hendur wtbreida, edur krosfestur verda: A hann þa ekkert Pijslarvætte ad lijda? Þesse Forvitnis Synd, sem miøg er almenn i Heimenum, hefur og lijka komed i Veg fyrer þa sanngudhræddu Astvine DRottens, þvi hier er eingann so heilagañ ad finna i þessare Verølldu, ad ecke hafi hrasad a einhvern Hætt, hier hefur eingenn einungis Madur Syndlaust afkomist, þvi þeir eru aller fræwikner, og aller hafa Skort æ þeirre Hroosan sem gyllder fyrer Gude; Þeir bestu Menn hafa stundum hrædelega falled, sem Skriftenn vottar, so hier sem annarstadar, og þvi er nu allur Heimurenn vid Gud sakadur, og ei gyllder nockrum sier ad hroosa, þvi aller vier høfum æred mikid til Guds Reide og Refsingar unned; Eñ hafi nu þau sterku Mættar-Trien skolfed so hætt, hvers mun þa riwkande Reyr meiga sier vænta, edur þad blaktande Fis, og Kraptalausa Reirs Stræ? Jæ, fare so uñ þau grænu Trie, hvad mun þa skie þau þurru? Þvi ber oss mesta Naudsyn til ad verka vora Sæluhiælp med Ugg og Otta,

ta, og kaſta frá oſs þvi ſkielſilega Athugaleyſi, og þad þvi helldur ſem ſiáaum og vitum, ad Tijmarner eru nu Hættuſamare. Nu med þvi ad Forvitnennar Synder þad Eitur, ſem mørgum ſyneſt nu lijted ſkada, þo brwkad ſie, enn er þo á margañ Hátt nærſta ſkadſamlegt, þa ſtraffar HErrann þad hier einneñ á Petri, byfalande honum ad fylgia ſier epter, eñ hvad um Johañem verda ſkule, varde hañ eckert. Þvi ſkyllde ſierhver læra, ad hnijſa ecke offmáaſmuglega i Guds Heimuglegt Ráad og Leynda Dooma, ſem oſs eru of-háafer og Oranſakanleger. Komer þu of-nærre þvi leiptranda Lioofe hinnar eiliijfu Guds Speke, máatt þu giæta þijn, ad ei brenner þu ſiáalfañ þig, þvi hver háaſa Hlute ranſakar, honum verdur þad of-þwngt, (Rom. 11. v. 33. ber ſamañ Eſ. 40. v. 13.) Þad er ei vid vort Hæfi ad hallda i Haf hiña ſtooru DRottiñs Leyndardooma, oſs máa þar maklega Sundted breſta, þvi hvad er þad ad vilia ſtundum upp i Himeneñ klifraſt, eñ ſtundum nidur til Helviijtis, og hyggia ſier ad ranſaka, hvad Gude haſi til þeſs og þeſs geinged? añad eñ aſla ſier Ohamingiu og verda jafnvel ad Þuſs og Gudlaſtara. O Madur, hvad ert þu? Þecker þu ecke ſiáalfañ þig? Þu ert einn aumur brothættur Leyr; Þvi villtu þa troda þier hærra eñ þiñ Smidur hefur leyft þier, hvar fyrer villt þu þráatta vid hiñ Almáattuga, edur ſegier nockud Efned til Smidſins, hvar fyrer giorder þu mig ſo? Soddañ Ofdyrfd hefut alldrei goodañ

ann Enda. Þar fyrer, mijn Saal, hvad Gud hefur þier boded, þad tak þu þier jafnañ til, og vertu sem hlijded Barn, vitande ad hvad sem þinn Herra lætur vid þig framkoma og þier hlotnast, þad verdur þier allt fyrer goodu, þvi hañ sem vill þier allt vel, hann sier best fyrer þijnu Raade; ef virdest þier ad þitt Hlutskipte sie rijngara enn sumra añara, til hvorra þu i eitt Sinn og añad Augum reñer, þa missunn þo eingum sijns Laans og Lucku, aa hverre þo kann meiga fiña einhveria Hrucku; þvi ad hliootá og niootá fer ecke alltijd samann, og hvad miög sem eitt Smaa-Menne vill illa afberast vegna sijns litla Vaxtar, þa lender þad vid sama, nema ad plaaga sialfañ sig. Laat þier þvi, O Madur, lynda þijns Guds Nidur-Radan: skipe hañ þier i eitt Sorgar-Sæte, so kañ hañ þo og vill giora Vijn af Vatne, og giefa þreittum Krapt, og noogañ Styrk þeim Vanmaattuga, Es. 40. v. 29. Þvi þar gieta og ecke aller i einum og hinum sama Sesse seted, þeim eina Josephs Kirtle kuña ei aller hier ad klædast; hitt næger, ad aller froomer Guds Viner munu, fyrer Hörmungar Sess og Sorgar Klæde hier boreñ, faa Dijrdar Sess og fagrañ Glede Skrwda i þvi eilijfa Lambsins Brwdkaupe. Auk þessa siaaum vier hier, ad naalega verde ecke so vel talad nie giort, ad þvi verde ecke snwid aa annann Veg, eñ meint og talad er, og siallðañ aa betra; Hier voru HErrans Ord afbökud af sialfum Lærisveinunum; og hvers meiga þa adrer vænta sier af Heim-

enum? Hvar af hafa allskonar Villu-Lærdoom-ar ordſakaſt, ſem vered hafa, og enn nu eru? Sañlega af þvi, ad Guds Ordum er umſnwed, og þau verda af ymſum Villu-Andum hrædelega afbøkud, hverier lygeſamer Lærendur afneita DRottne, ſem þa hefur endurleyſt, leidande yfir ſig ſnøggva Fyrerdæming, og þeirra Epterfylgiarar, ſyrer hvoria Sañleiks Vegureñ laſtadur verdur, hverra Afelle mun ei leinge dvelia, og þeirra Fyrerdæming ſefur ecke, 2. Pet. 2. v. 3. Trwum þar fyrer ecke hverium ſem einum Anda, helldur ranſokum þa adur, hvort þeir ſieu af Gude, og vitum ad Dioſ-ulleñ kañ lijka vel ad umbreita ſier i Lioosſens Engels Lijke, enn ef vier erum faſthelldner þeſs ſannarlega Ords og blijfum einfalldlega vid Ord og Rædu JEſu Chriſti, þa erum vier hañs ſanner Læriſveinar, og hver hañs Ord geymer, mun ecke Dauþann ſmacka ad eilijfu. Auk þeſſa, þa giætum þeſs Attunda Bodords vors Guds, og vorunſt ad færa nockurs Mañs Ord edur Verk a verra Veg, brefti Mañ Dadena ad færa þau til betri Vegar, þa ſkyllde þo engenn vera Satans Epterfylgiare i hinu, helldur, ad minnſta Koſti, laata þau ſtanda i ſijnu Gyllde, ſo hvad vier vilium ad Meñerner gioreoſs, þad ſie þeim giort af Hiarta, þvi haſtarleger Urſkurder og rangar Utleggingar leida optaſt illt epter ſig, og hver ſinn Muñ vardveiter, vardveiter ſitt Lijf, enn hinn framhleipne kiemur i Ognan, ſem Salomon vitnar. Ef eg vil hann blijfe til þeſs

eg kiem, seger Christur hier um̃ Johannem. Tilko-mu-Dagur Drottinns er ecki ad eins hans sijdar-sta Tilkoma til Doomsins (so sem Lærisveinarner hier þad wtlogdu), helldur mꝏ og Tilkomu-Dag-ur hans riettilega kallast farsæl Lausn og Frelse Guds Barna af þessum Heime, þvi þa kiemur JEsus, og tekur þau til sialfs sijns wr Harma-Dal þessum i himneska Sælu, og so sem þau hafa honum hier lifad, so deya þau honum, Jꝏ, hvert þau lifa edur deya, eru þau hanns Eign og Eig-inndoomur, Rom. 14. v. 8. Þa hefur oll vor A-naud feinged farsælann Enda, nær vier sætt sofn-ader i DRottne wtgeingner erum frꝏ allri Astrij-du þessa Heims, og Saalinn verdur um̃fodmud af sijnum sætasta Unnusta JEsu um̃ alla Eilijfd; Hvad oss veite Gud, fyrer JEsum Christum, hꝏtt lofadur um̃ Allder, Amen.

# 38. Capitule.

Um̃ Opennberan Christi a Fiallenu i Galilæa, og hans Skickan ad Postularner Ut-fære um̃ allan̄ Heimen̄

ENN þeir Ellefu Læresveinar ge-ngu i Galilæam ꝏ eitt Fiall, þad er JEsus hafde þeim fyrerskipad, og er þeir sꝏu han̄, tilbꝏdu þeir hann, enn nockrer efudu þad. Og JEsus gi-eck til þeirra, talade vid þꝏ og sagde:

Allt Valld Er Mier Giefid A Himnum Og A Jordu; Fyrer hvi gaanged hier wt um allan Heimen, Prediked Evangelium Allre Skiepnu, Og Kiened Ollum Pioodum, Og Skijred Pær I NAFNE FODURS OG SONAR OG HEILAGS ANDA, og kiened þeim ad hallda allt þad eg baud ydur; Hver Hañ Trwir Og Verdur Skijrdur, Skal Hoolpin Verda, Enn Hver Ecke Trwer Skal Fordæmast. Enn Teiknenn sem þeim munu fylgia er trwa, eru þesse: I Mijnu Nafne Munu Peir Diofla wtreka, Nijar Twngur tala, Hoggorma upptaka, og ef þeir drecka nockud Banvænlegt, skal þad þeim ecki granda, yfir Siwka munu þeir Hendur leggia, og þa mun þeim batna. Og siaed, Eg em med ydur alla Daga, allt til Enda Veralldar. Par epter var hann siedur af Jacobo. 5. Cor. 15.

PO hier sieu ecki tilteckner nema þeir Ellefu Drottins Postular, sem hier gengu epter hanns Skipan i Galilæam aa Eitt Fialt, þa er þo ad ræða, ad þar hafi fleyre vered med þeim i þessari For af Christi Skoola Bornum, edur Fim Hundrud

Bræd-

Brædur, so sem St. Paall giefur ad merkia, 1. Cor. 15. hvar hañ þessa tiltekur nærst Postulunum. Aller þessir tilbaadu JEsum; Eñ þo þess sie gietid, ad nockrer hafi þad efad, hvert þeir hañ tilbidia skylldu edur ecki, þa hvarf sw Efasemd wr þeirra Hiortum, epter þad þeir hofdu sied hañ og gloggt athugad. Vier þeckium og JEsum Ogiorla i Krossinum, sem þo er añadhvert hañs Fyrerrennare edur Eptirfylgiare, eñ sem hañ kiemur til vor, og talar vid oss fyrer sijna sætu Huggun og Hugsvolun i Hiartanu, lijka sem hier vid hina, og endurlijfgar vorn mæddañ Anda, þa faaum vier gladir fulla Þeckingu uñ þad, ad hañ sie þad sialfur sem særir og grædir, og allt vel giorer og giort hefur, þa verdur og ecki laung Bid aa eiñi trwadri Bæn og Þackargiord eptir adra, so ad uppfyllast Ord Brwdarinnar er seger: Eg hiellt honum og villdi ecki sleppa honum, Cant. 3.v.4. Þvi, trw mier, aungver Samfunder eru sætare, helldur enn Sorgmæddrar Saalar og Grædarans JEsu, hverri hañ hefur þessu lofad og endir þad einninn: Eg em hiaa þier i Neydinne, eg vil þier wtryckia, og þig Vegsamlegañ giora. Eda er þad ecki stoor Vegsemd, ad eitt Haalm-Straa skuli Diofulenn med allre siñe Magt yfervinña? Er þad ecke Utryckïng, ad giora hina sætustu Saalar Kiæte og Hiartans Fognud, af beiskre Sorg og Taara-Follum? Er þad ecke naakvæm Hiaavera, þegar gioreft Himna-Rijke af Helvijte? Hver er saa aftrwdum

um Guds Bornum, er ecki þecki, þacki og medkiẽñi Vidhondlan JEsu vid sig og Endir æ ædursogdu Loforde? Þvi hann helldur oll sijn Fyrerheit; Hann hiet Lærisveinunum ad þeir skylldu fæa ad sicæ sig i Galilæa, hier endir hann þad nu, so sem allt annad er hañ lofar, þvi hann er sialfst Lijfed og Sannleikurenn, hier i er alltijd Hugfrooi fyrer allar trwadar Sæler; Og þad meira er, ad þegar JEsus syniſt lengſt burtu, er hann nærſtur.

A Eitt Fiall ſafnade JEſus ſijnum Læriſveinum, þad meina marger Lærder Menn vered haſi Fialled helga edur Tabor, og draga þar til viſs Rok, einkum þad JEſus ædur fyrer ſijna Pijnu og Fullnægiu Boot fyrer Synder vorar forklaradiſt æ þvi ſama Fialle. Sw Borg ſem æ Fiallinu liggur fær ei fooliſt, ſeger Endurlauſnarenn. Matth. 5. v. 14. Borg þeſſe er Guds Chriſtne, i þeſſa Borg hefur JEſus þig innleidt, mijn Sæl; þa fær þu ad ſiæ þinn Uñuſta, ſem þier veiter alla Hiartans Gladværd, Lijf og Endurnæring, hann nærir þig þar, Synda og Sorgmædda med ſijnum Anda og Ordi, ſamt himneſkri Kvolldmæltijd ſijns Hollds og Bloods, þar reyniſt i þvi Gieſta-Bodi, mijn Sæl, ſætur Vina-Koſsiñ, þegar hvert yckar kyſsir þar añad, hañ þig i Elſkuñe, þu hañ i Trwñi, eñ ſo ſætur ſem hañ er nu i þeſſu Gieſta-Bodi, þa verdur hañ eñ þa ſætare þegar þu Lokſins hiedañ uppleyſer, og helldur þijna Himna-For af þeſſu Fialli upp til þeſs himneſka Zions Fi-

allſ

alls, og ingeingur i Giesta-Bod Dijrdarinnar a Hædum, og fær ad sia þenna þinn Unnusta so sem hann er, Auglite til Auglitis med ollum Utvolldum; Þa mænir þu til þijns JEsu, mijn Sæl, i þinni sijdurstu Ut-For af þessu þijnu Hreyse, enn hann rietter sijnar Hendur a moote, O þennan Edla Samfund og sætustu Samveru um alla Eilijfd!

A Sinai Fialli wtgaf Gud fordum sitt heilaga Logmal, er bodade oss Bolvan og eilijfann Dauda, af þvi þad kunni einginn vor uppfylla, þvi var þad þad Ok sem oss þvijngade. Enn af æduruefndu Tabor Fialli wtsendi JEsus sijna Postula um Heiminn ad boda oss, sem stoodum i Logmalsins Banni, þann sanna Fridar Bodskap, sem Trwudum ollum tilseger Kvittun og Fyrergiefning Syndanna. Framar seger JEsus, allt Walld er mier giefid a Himni og Jordu: Vilier þu þetta riett skilia, þa mattu og attu þad ad wtleggia uppa Christi Manndoom: Af þvi nu JEsu epter Manndoominum er eilijft Einvalld giefid, þa er þad giefid mijnum Broodur, hvor sijnum og mijnum Gudi og Fodur greidt hefur fullann og gilldann Betaling fyrir mig sekann og Syndugann; Ja, fyrst eg er þessum rijka HErra og Konunge so nakkylldur, þa gioreft eg voladur, snaudur og vesæll uppa hann til Framfæris, hann hefur og alldrei fært sig undann þvi, helldur alltijd vid mier þurfandi tekid, og nun einnig hier eptir taka, einna hellst og best þegar eg fæ ecki leingur inni i þessum Heim;

Verdi mier þvi hiedañ wthijſt ꝥa Herrañ vill, eg œ viijſt Heimile œ Himnum hiœ mijnum HErra JEſu hañ hefur ſiœlfur dœmt mig uppœ ſig, og hefi þañ hañs Doom med hañs eigiñ Bloodi ſkrifadann, med Stadfeſtingar Innſigle H. Anda, i mijnu Hiarta geymdann. Þar gietur eingenn reyngt ockar Skyl!dſeme, þvi eg er hanns Limur, Holld af hanns Hollde og Bein af hañs Beinum, Eph. 5. v. 30. Þeſſe Skylldſemi hneiger þvi alltijd og beigir hanns bleſſada Hiarta til ad hiœlpa mier, þar er og einginn ſo ſterkur, ad mijna Önd ſlitid fœe wr hañs Hende, Joh. 10. v. 28. hier uppœ vil eg liſa, og ſijdann gladur deya: Hreki mig hver ſem kann og vill, JEſus medtekur mig: Enn ſeig mier, mijn Sœl, hvar af veitſt þu allt þetta? Hvar af veitſt þu, ſege eg, ad þu œtt þetta Framfœre viijſt i allre þinne Þorf, og ſeinaſt i Daudanum? Andſvar: Af ſiœlfs JEſu Sannleiks Munni hefi eg þetta, hañs eigiñ Handſkrift vitnar þetta, ſem er hañs H. Evangelium, fullt allmargra Nœdar Fyrerheita hier uppœ hlioodande, ſem oll Sorgfull Hiortu endurnœra, hvert ad predika allre Skiepnu, JEſus hier, af ſijnu Guddooms Vallde, wtſende ſijna Poſtula uñ allann Heiminn, og bryniade þœ med Aſtgiofum H. Anda, ſo þeir gingu glader til þeſſa Verks, jafnvel þo ſoddann Embœttis Vegur vœri nœrſta torſooktur, þvi þeſſe Heimur er riett kalladur eitt Dioſla Heimkynne, ſem jafnvel fœrer eitt ſijfelldt Strijd i mooti Gudi

og hañs Pioonum, elſkar Myrkuriñ, eñ hatar Lioſid; Samt hafa þeſſer Guds Pioonar predikad Evangelium, þad er, ad Menn ſkylldu elſka JEſum og trwa a hañ, og af Trwñi og Elſkuñi til hañs giora hid gooda. Soddañ hafa þeir predikad, og þad predikaſt eñ allri Skiepnu, þad er Moñunum ſem ſkynia kunna Ord DRottiñs, þvi ſo ſem JEſus hefur ollu Mañkyni afrekad Saluhialpena, ſo vill hann hun ſkuli ollum frambioodaſt, hvar af auglioost er hann vilie einkis Manns Glotun, og eingann Syndara vilie hann wtilykia, nema þañ ſem ſialfur ſig med Oendañlegre Vantrw wtelykur: Medtak þad þvi mijn Sal med Trwarinnar Hende, ſem þinn JEſus riettir ad þier med ſinne Nadar Hende.

Auk þeſſa bijdur JEſus ad ſkijra i Nafne FODURS, SONar og ANDa HEJLAGs. Hier er enn þa eitt liooſt Vitne uppa adurnefndt, þvi þar ſem þu, mijn Sal, hefur þennann Guds Nadar Sattmala medteked, þa ert þu vordinn Oſka-Barn lifanda Guds, og allra himneſkra Giæda, Erfinge fyrer Trwna a JEſum Chriſtum, hverium þu Jklædd ert, hafande H. Anda i Pant, ſem verkar Riettlæte, Frid og Fognud i þijnu Hiarta, og giorer ad þar verdur Guds Rijke inni; Eñ ſia verdur þu vandlega epter, ad ei medtaker þu þeſſa Guds Nad til Onijtis, helldur fyrer Hialp og Helgun Andans auglijſer þijna Trw med goodum Verkum, til hverra þu ert ſkopud i

Chriſto

Chriſto Jeſu, ad þu gaanger i þeim, Eph.2.v. 10. þvi hverniñ kañt þu ad hrooſa þier af Trwñe, nema hun ſie verkande fyrer Kiærleikann: þa kunna Menn ad ſiaa þetta Lioos, og ad þu geymer JEſu Ord, og hallder þau ſonn, ef þu lifer epter þeim, giører þu ſo, þá ertu JEſu Vinur: Hverniñ maattu ſegia, eg er Muſtere H. Anda ſem verkar Trwna, nema Andans Avexter auglijſeſt aa þier, ſem eru þeſſer: Kiærleike, Fognudur, Fridur, Þolinnmæde, Blijdleike, Goodgyrne, Trw, Hoogværd, Bindinde, Gal. 5. v. 22. og ſoddann meira; Ef þu lifer alltijd i ſañri Ydran og aflaati Syndaña, lofar Gud, bidur og þackar honum jafnlega, ert þolinnmoodur og hoogvær i añarra Breitne og Meingiørdum, bleſſar og bidur fyrer þijnum Naaunga, ſo auglijſer þu þig ad vera riett-trwadann Mañ, og ert morgum Krapta-Verka Moñum betre, þvi ad lifa gudrækilega i chriſtilegri Kyrkiu er meira verdt eñ Krapta-Verk ad giøra; Guds Ord, hveriu þu aatt ad trwa, og þar epter ad giøra, er þier, ſo breitande, vijſt Teikn eilijfrar Saaluhiaalpar. Jaa, þar ſem þu ſo hefur JEſu Bod, og helldur þau; þa elſkar þu JEſum og elſkaſt af honum, ſo hañ er med þier og þvilijkum alla Daga allt til Enda Veralldar, ecke ad eins almeñilega, helldur ſierlega, med Elſku, Ibwd, Vernd og Velgiørdum; Hann er med, ei ſo ſem jardneſkur Vinur ſem kiemur, og fer innañ Skams aptur, ſo ad Einsleg- leike Skilnadarins verdur þa opt ecke minne enn

Fognudur Samverunnar, helldur er þesse elskulegaste Vinur JEsus med sijnum alltijd i Sorg og Glede, Hvijld og Erfide, Noott og Dag, Lijfi og Dauda. Mijn Sæl, þetta er þinn fegurste Fognudur, þetta er þijn einka Rooseme, Ja, eitt himneskt Epterlæte, ad þiñ JEsus er þier nælægur, og fyrst hañ er med þier, hver kann þa ad vera a moote þier? Fyrst hann stidur þig, hver kann þa ad fella þig? Fyrst hann huggar þig, hver kann þa ad hryggia þig? Af hañs Medveru þiena þier aller Hluter til hiñs besta; Þar fyrer vil eg þetta þitt Loford, O HErra JEsu, umfadma med Trwnne, og mier vid þad hallda i hveriu sem ad Hondum kiemur; I nijnum Veikindum Vesolld og Breiskleika ert þu minn Styrkur, mijn Nægd i Skortenum, mijn Hiælp i Neydenne, minn Skiolldur og Veria i Strijdenu, mijn Vernd i Hæskanum, mijn Huggun i Sorgunum, mitt Frelse af ollu Fangelse og Snorum, mitt Lioos i Myrkrenu, mitt Lijf i þessu Lijfe, mitt Lijf i Daudanum, mitt Lijf i Uppriſunne og mitt Lijf i eilijfu Lijfe. O JEsu minn Gud og HErra, minn Brooder og Brwdgume, minn Emanuel, eg bid, vert þu med mier, so geingur mier allt vel, so verdur allt beiskt Vatn i þessare Mara ad sætu Vijne, vertu alltijd med mier hier Tijmannlega, so eg meige þar sijdann vera med þier, þig lofande, eilijflega med ollum Utvolldum, AMEN.

# 39. Capitule.

Um̃ Underbwning Christi Uppstigningar.

ENN han̄ var uppnumen̄, epter þad han̄ hafde Postulunum Wijsalning giefed, hveria han̄ hafde wtvalid fyrer Heilagan̄ Anda, hverium hann tiedi og sialfan̄ sig lifande epter Pijsl sijna i marghættudum Bevijsingum, og liet þa sia sig um̃ Fiørutijge Daga, talande fyrer þeim af Guds Rijke. Og sem han̄ hafde þeim saman̄safnad, baud han̄ þeim ad þeir vikt eige wt af Jerusalem, helldur ad þeir skylldu bijda epter Fødursins Fyrerheite, og sagdi: Sioaid, ad eg vil senda yfir ydur Fyrerheit mijns Fødurs, sem þier hafid af mier heyrt, en̄ þier skulud vera kyrrer i Borgen̄i Jerusalem, þar til þier J-klædest Krapte af Hædum, þviad Johan̄es skijrde med Vatni, en̄ þier skulud med heiløgum Anda skijrder verda, eige langt epter þessa Daga. En̄ þeir sem þar voru til samans konner, spurdu han̄ ad og søgdu: HErra, villt þu nu a þessum Tijma uppretta aptur Israels Rijki? En̄ han̄ sagde til þeirra: Ydur ber

ei

ei ad vita Tijma edur Stunder, hveriar Faderiñ sette i siaalfs sijns Vallde, helldr munu þier ødlast Krapt heilags Anda, þess er yfir ydur mun koma, og þier skulud mijner Vottar vera til Jerusalem, og i allri Judæa og Samaria, og allt til Jardareñar Enda. Eñ hañ hafdi þa wt allt til Bethaniam, og hoof upp sijnar Hendur og blessade þaa.

SO sem þad eiñ goodur Hws-Fader under sijna Burtfør og Vidskilnad, samannkallar sitt Heimilis Foolk og Vine, og raadstafar sierhveriu, sem honum þyker best hendta, kvediande sijdañ med Blessan og goodum Oskum: So hefur og einna best saa mikle Hws-Fader, og Ædsti Biskup sijns Hwss, Ebr. 10. v. 21. JEsus Christur, Høfundur og Fullkomnari vorrar Saaluhiaalpar, allre Skipan sijns Hwss nidur-radad, ei ad eins aadur hann gieck til sinnar Pijnu, helldur og epter sijna Upprisu, aadur hann uppstie til Himna, um hvern sinn Hierveru Tijma hañ samannsafnade sijnum sundurtvijstrudu Saudum, styrkte þaa i Trwnne um sijna Upprisu, med siaalfs sijns lifande Opiñberan, med Syningu Saara Oranna, med Matar-Neytingunne, med Samrædum aastwdlegum vid þaa, med Opiñberan Guds Raads af Ritningunum og þeirra Utleggingum, og þetta i

marg-

margar Reisur, so og itrekande fyrer þeim sijnar Bijfalningar, og stadfestande þa i ædur tilkiornu Embætte; Til ad koma þessu og þvilijku ollu vel til Rietta, dvalde hann, fullur Elsku og Myskunar, hiæ sijnum hier æ Jordu epter Upprisuna i Fioru-tyge Daga, betalande so sijnum Astvinum þær Fiorutyge Sorga og Syta Stunder sem þeir þreya mættu epter hanns Andlaat, medañ hañ hvijlde i Grofinne, og þad med eins morgum edur Fiorutyge Medveru Dogum; Þannig bætte JEsus þeim Sorg þessa, med meir eñ Tvofolldum Bootum. So mætt þu eñ bwast vid hanns Millde og Myskunseme, þu Guds Barn; þegar hann hefur grætt þig, so gledur hañ þig aptur, tekur hañ nockud fræ þier, þad þo sem hañs er, eñ ecke þitt, þa giefur hañ þier tvofalldt aptur; so hefur hañ alltijd breitt vid sijna, so breiter hann og vid þig: Þu telur hier þijna Sorgar-Daga, þar veitast þier epteræ Otolulega marger Fagnadar-fuller Glede-Dagar; Margar eru hier þijnar Erfidis Stunder, Otelian-de verda þijnar Hvijldar-Stunder, Opeñb. 14. v. 13. Hier vid skallt þu þig hugga i ollum þijnum Eymdum og Erfidi; hugsa af-fram i Þijngd þessa Lijfs Hormunga æ yfirgnæfañlega Þijngd epterkomande eilijfrar Dijrdar. Eñ vilier þu nu þessa bijda, þa mættu ecke vijkia wt af Jerusalem, þad er, þu verdur þa ad vera eiñ andlegur Borgari og Heima-Madur i þessari strijdande Guds Christni hier æ Jorduñi: Ja, þitt Hiarta mæ vera þa ein and-
leg

leg Fridar-Sioon, hvar inni Gud hafi sinn Ofn og Elld, sitt Rijke, sijnar Verkaner; Þitt Hiarta skal vera, segir eg, eitt Simeonis Hiarta, sem hiartannlega sæker og bijdur epter Huggun Guds lifanda, eñ aktar alla Veralldar Glede. saafeinga, sem leidest Utlegd sijn vid þesse Babilons Votn, enn laangar i Himinenn til þeirrar Sigri-hroosande Christne; þitt Hiarta maa opt med heimuglegum Taarum, andvarpa yfir Trodning og sijfelldre Onaadan Ovinanna; Holldsins, sem gyrnest i mooti Andanum; Diofulsins, sem allt vill uppsvelgia; Heimsins, sem med sinne aahvetiande Lyst vill locka, edur med sijnu Ofbellde þreyngia, hræda og hæda: Þvi þad Hiarta, sem hier verdur opt laugad i Vatni Taarañа aa slijkañ Haatt, og innþreynger sier so med heitre Andvarpan i Undernar JEsu Christi, verdur aptur laugad og yfirdreift med Hugsvolun Heilags Anda, hañs Fride og Forsmeck eilijfs Lijfs, og sær uñ sijder ad upphefia Hofuded, nær þad eilijfa Jubil-Ar uppbyriast. Þvi skallt þu nu med Kyrd og Þolenmæde bijda aa þessum Utlegdar-Arum Fagnadar-Arsins, þad kiemur iñañ skams epter þessa Daga, þvi ecke seinkar Gud sijnu Fyrerheite, þo nockrer hallde þad fyrer Seinkan, helldur, bijdur hañ epter oss nærsta þoliñmoodur, hañ hefur laungu aadur bætt þad nidurfallna Davids Hreise, eñ nær hañ vill endurbæta þad ad fullu Leite, med siñe Komu til Doomsins, og Uppbyrlan sijns eilijfa Dyrdar-Rijkis, þar uñ hæfir oss hverki

nie vardar ad grenslast, þvi þad veit engenn, nema Faderenn einn, ecke Englar Guds a Himnum, og ei Sonurenn, Marc. 13. v. 23. Þvi hann var ecke sendur oss þad ad Opennbera, þo hann, Fodursins Kraptur, og eitt med honum, epter sinne Guddoomsins Alvitsku visse þad sannarlega, þvi aller Hluter eru nakter og Ohulder fyrer hanns Augum, Ebr. 4. v. 13. Lijka vel epter Manndoomenum, þar i honum bijr øll Fylling Guddoomsins Lijkamlega, Col. 2. v. 9. Og so sem hefur allt i sijnu Vallde, hann hefur allt i sinne Vitund. Vit þu, christenn Madur, ad bwa þig vel an Metnadar og Dofinleika med Ugg og Otta, under þad Ovissa so Daudans sem Doomsins Takmark, sem hastarlega mun koma, og þa sijdst varer; Hvar til ef þu stundar, munu Krapt odlast af Hædum, Ja, so mikli Guds Kraptur, sem ædri er øllum Skilninge, mun vardveita þitt Hugskot, Sinne og Skilningar-Vit i Christo JEsu, þijnum HErra, so þu verder a hanns Tilkomu Deige, nær hann til fulls uppriettir Israels Rijki, verdugur ad standa frami fyrer honum, so sem sa, er hier hefur vardveitt hanns Vitnisburd, og innleidast sijdann i eilijft Lijf. Þar fyrer, Guds Barn, so sem nu JEsus hier utleidde sijna Lærisveina allt til Bethaniam, hvad ed þijder eitt Sorgar-Hws og Hrygda Heimkynne, so leider hann sijna Astvine enn, fyrst til þeirrar Mædusomu Bethania þessa Lijfs, i hverre þeir drecka meiga einn sorann Sorgar-Bikar epter annann, adur hann

teku

tekur þaa iñ aa Sal eilijfrar Dijrdar aa Himnum; Hañ tilskickar ofs Rijki, lijka sem Fadiriñ tilskickadi honum: Hañ hlaut fyrer Forsmaan, Kvaler og Daudañ inn ad gaanga i sijna Dijrd, vier og einninn fyrer margar Hormungar i Guds Rijki, Act. 14.v. 22. JEsus stie af Oliu-Fiallinu upp til Himins, aa hveriu hañ fyrr hæadi þann hardasta Bardaga vid Daudann, Diosulenn og Helvijte, og vañ aa þeim eiñ aagiætañ Sigur, þad sem hann þar i Strijdinu afrekade ofs, þad syndi hañ hier nu opinberlega, sem var Himnafor allra þeirra sem aa hañs Nafn trwa, hveria þeir hallda sijdarst, nær þeir skilia vid þeñañ Heim, so sem hann og siaalfur vitnar med sinni Bæn til Fodursins segiande: Fader, hveria þu gafst mier, vil eg, ad hvar sem eg er, þar sieu þeir og med mier, so þeir siaae mijna Dijrd, Joh. 17.v.24. A þessu Fialle hafde Frelsareñ hast opt aadur sinn Naatt-Stad, sem Lucas vitnar: Cap. 21. v. 37. og giort þar sijnar Hiartnæmar Bæner til Fodursins aadur hañ leid sijna Pijnu, og hefur hann þa eiñinn sannarlega miñst undir eins siñar Himna-Farar, og þvi siwslegar uppbyriad sinn straanga Bardaga, og saaruſtu Pijnu i þessum sama Stad, fraa hverium hann nu i stoorri Vegsemd og sætum Sigre uppstie til siñar eilijfu Dijrdar.

Allt þetta skallt þu nu vel Rootfesta, Christenn Madur; Þar til iñleider JEsus þig i Bethaniam Hormungañа, hvar hañ sendir þier marga Sorg-

ar=Noott, so þu skulir temia þier þar inni Andlega Himna=For, og verda þvi betur tilreiddur til þinar sijdurstu og fullkomnu Himna=Farar. Enn þesse Andlega Himna=For maa Bæniñ riettilego kallast, nær hun er alvarleg; Þvi þo Auguñ sveiste þa i heitu Taara=Floode, er Hiartad allt a Himnum hiaa sijnum HErra, liggiande þar sem Fotækur og Saarum vafenn Lazarus fyrer Veitarans Fotum, og klagar fyrer honum, sem Barn fyrer sinni Moodur, sijna Neyd og Angist. Ad bidia so, maa segiast ad deya i Bæniñe, þad maa nææalega segiast um̃ so bidiande Mann; Var hann i Lijkama edur utann Lijkama, veit eg eige, Gud veit þad; Hañs Hiarta er a medann sañlega ordid eitt Himnarijke, hvar JEsus hefur sier Herbergi tekid, þviad Bænariñar alvarlegrar, heitrar og Sañ=Trwadrar Kraptur er þvilijkur, ad hun giører so sem ein Andleg Fadmlog millum Guds og Mannsins; Madurinn fadmar og vefur Gud ad sier i Trwñi og Andvarpaniñe, enn Gud aptur Mañiñ i Myskun og Medaumkan siñi, þar af sprettur Hiartans Endurnæring, og Hægd Hugarins, so ad sa sem fyrer stuttu gieck nidurlwtur af Sorg til þessarar Bænar=Ydiu, snijr gladur til Baka med uppriettu Hofde: Soddañ Madur kiemur ecki toomhendtur aptur wr þessare Reysu; Eñ til soddann Himna=Farar brwkar Gud optast Kross og Mootlæte, so sem eiñ andlegann Jacobs Stiga; Þvi skal nu sw Gata, þo hun sie Holldinu þrwngsær, vera þier vel

kominn

kominn, þu Guds Barn: Þesse Skoole er Kieñari margra Dygda, sem aan hañs verda all-lijtt stundadar, þetta er sege eg, Vagninn til þeirrar eilijfu Vegsemdar; Hver hann hatar, sa hatar sitt eiged Lijf og Velferd.

Ad Sijdurstu hoof JEsus upp sijnar Hendur og blessade sijna Lærisveina; Þesse Brunnur allrar Blessunar, byrte þad hier med Verkunum, sm̃ hann hefur oss befalad med Ordunum, sem er ad Blessa eñ Bölva ecki; Hañ eiñ bijter oss allri Blessan, Andlegri og Lijkamlegri, Tijmañlegri og Eilijfri, eñ þeir Uppsprettu Læker, hvadañ Straumar allrar Blessunar til vor reña, eru hañs signud Saar og Under, so Handaña sem añarra hañs Lima. Þessar Hendur hiwka oss i Lijfi og Dauda, þessar Hendur hugga oss i Lijfi og Dauda, i þessum Hondum stendur allt vort Hiaalpræde, þvi skal til þessara Handa flya i allri Neyd i Lijfi og Dauda. Þijnar Hendur, O JEsu, geymi oss hier þreyande, og medtake oss hiedañ farande; So skal þitt Lof þar i moot af oss hlioma, hier uppbyriad med Taara-Raust, eñ þar framfæraft med sætt-klijngiande Glede-Raust. Blessadur sie Gud og Fader DRottens vors JEsu Christi, sa oss hefur blessad med allshaattadre Andlegre Blessan i Himneskum Giædum fyrer JEsum Christum, AMEN.

* * *

* * * * * *

# 40. Capitule.

Um sialfa Uppstigninguna og Setu JEsu til Guds Hægre Handar.

Og þad giørdest, ad efter þad DRottenn hafde talad vid þa, þa hann blessade yfer þa, og sagde þetta: Ad hann skilldi vid þa, og vard þeim ansiaendum uppnuminn, og eitt Sky took hann upp i burt fra þeirra Augum. Og hann foor upp i Himininn, og situr til Guds hægri Handar. Enn þeir tilbadu hann.

Af þessum Hofud-Greinum vorrar Trwar hefur þu, Saal mijn, þetta epterfylgiande ad athuga:

1. Epter hverre Nattturunne þinn Lausnare sie til Himna uppfarenn; Sem er, eptir sinni Manndoomlegu Natturu; Hviad i Tillite til hennar, er hann Læckadur, Gietinn, Fæddur, Pijndur, Krossfestur, Deyddur og Grafinn, lijka og epter henni upphafinn, so sem Skriftenn allvijda vitnar; Mannsins Syni var giefid eilijft Valld seger Daniel, Dan. 7. v. 15. Mannsins Syni var giefid Valld til ad hallda Doom, Joh. 5. v. 27. Mannsins Syni er Magt giefinn ad fyrirgiefa Syndirnar, Matth. 9. v. 6. Mannsins Sonur mun sitia til Kraptarins Hægri Handar, Matth. 26. v. 64. Allt þetta filstuppa Manndoominn Christi; þvi er hann epter

Mañdoomenum uppstijgeñ, þvi Gude kañ ekkert ad giefast, hañs erû aller Hluter, hañ kañ ecke framar ad upphefiast eñ hañ er, hañ var og mun vera, hiñ hærsti Herra Drottiñ Zebaoth. Þetta er hiñ stærsti Fognudur fyrer oss aumar Manneskiur, ad vier vitum og trwum fyrer vijst, ad vort Holld sie i Christo til himneskrar Hœtignar upphafid; Þetta er þad, sem Paulus seger, ad Gud af Nœd siñi hafi oss sialfum sier þacknæma giört i sijnum Elskulega, Eph. 1. v. 6. Væri þitt Barn edur Brooder einn Kongur, þa mundir þu, þo fatœkur værir, þar af þier hrоosa, og nockud þykiast, þo samt er einn Kongur eins Mold sem þu, þid veigid bœdir eins mikid fyrer Gudi, hiœ hvorium ad er eckert Persoonu Alit. Skal þier þad þa ecki vera eitt Fagnadar Efne, ad sœ Eilijfi, Fullrijki, Almœttugi, Mijskunsami og Goodgiarne Guds Sonur, Kongur Konganñ, og DRottinn Drottnañ er þinn Brooder? Þad er Heidur yfer allañ Heidur, Jœ, Owtsegianleg Virding, og þesse Virding heyrer þier so vel til, þu Uñkomulause Vesœlingur œ Jordunne, so sem einum Stoor-Herra og Konunge. Þetta þitt og mitt vlessad Hofud og Herra, er ecki ad eins sialfur uppstijgenn til eilijfrar Dijrdar, helldur og einniñ mun hann oss sijna veiku Lime og fatœka Ættingia þangad til sijn hefia, so vier sieum þar sem hañ er eilijflega. Vier mœnum nu epter þeim Vagni, Ps. 104. v. 3. sem þangad flytie oss sem fyrst, þvi hier er margfalldt

Synde, þar eilijft Epterlæte; Þo'ſkulum þeſſa bij-da vakande og þoleñmooder. Eitt Sky flutte vorn Hiartans HErra i Himeniñ; Þeſſe Vagn auglijſte hañs Vellde: Hañ hagar þeſſu æ lijkann Hætt vid oſs; Skyinn Hormunganna og ymſra Þreinginga i Utlegd þeſſare, ætla eg ad flytie beſt vorn Hug og Hiarta i Himininn; Þar til lætur DRottinn þau hier yfir oſs dragaſt, ſo Forinn ſie alfarna ſijdarſt verdi þvi greidari, og eingenn Verr-alldleg Umſvif ſkuli þa tefia fyrer þeim, ſem eru ædur dauder vordnir Verolldiñi med ſøgdu Moote, ædur enn þeir deya. Sie það þæangad til, þijn og mijn Dægra-Stytting, þu Guds Barn, nær ſem vid lijtum til Skyanna, ſem opt ſkiedur, að miñaſt æ, og hugſa Hug-glader til þeſs eilijfa Heimkyñis og JEſu Tilkomu æ Efſta Degi, nær hañ kiemur med ſijnum Englum med Magt og miklu Vellde, Matth. 25. v. 3. Til ad giora fullkomna Lauſn ſiña Utvalldra, ad vier meigum þa vera vel vidbuner og vakandi fundner. Þar til hiælpa þu oſs, miñ ſæti Herra JEſu, og læt oſs þar til ſtyrkia þiñ heilaga Anda, ſo eilijfañ Sigur odlaſt mættum.

Þegar vor Frelſare ſtie hijngad nidur i Holldid, ſkiedi það i hinni diwpuſtu Fætækt, hann umgieckſt og hier æ Jørduñe i Þioons Mynd, Phil. 2. v. 7. 8. hafande ei hvar hañ kynni ſijnu Hofde ad ad halla; Eñ nær hañ foor hiedañ til Himins aptur, ſkiede það i hiñi vegleguſtu Majeſtatis Dijrd og Æru. A lijkañ Hætt hegdar hann eñ Hlutſkipti

sinna Astvina: Hann lijtelæckar þa fyrst, og upphefur sijdann, hann hrigger, og sijdann gledur, hann þiæer og þiakar, hiwkrar sijdann og endurnærer, hann lætur alltijd swrt gaanga undann sætu, þad fyrra er Underbwningur til þess sijdara, hann byriar margt Barndoomslega fyrer Heimsins Augum, jáa, undarlega, enn endar þad nærsta Wijsdoomslega, hann uppbyriar Veiklega, enn endar þad Wollduglega. Seig þvi ecke i þinne Neyd, þu Guds Barn: Eg geing til Grunna; helldur so: O Rotteim hann gierer mier til gooda, þesse hanns Smyrsl eru mier til Lækningar, þvi skialldann er Upphafed lijkt Endingunne. Þu sem alist hefur upp a JEsu Briostum, maatt vel þeckia Haatt hanns Rijkis og Hegdunar, vert þu ecke saa sem jafnlega lærer, og kiemst þo ecke til Þeckingar Sannleiksins, þvi þad er illur Lostur, og framar Ummerke Fordæmdra, enn eilijfs Lijfs Erfingia. O HErra JEsu, hondla vid mig sem þier lijtst, þijn Vidhondlan hefr alltijd goodann Enda, enn nær hann er goodur, er allt gott.

2. Skalltu hugleida hier mijn Saal, hvert þinn HErra sie uppstijgenn? Til Himins, segier Textenn. Postulinn Paall segier, ad JEsus sie hærre enn Himinenn, Ebr. 7. v. 26. og enn segier hann, ad JEsus sie uppfarenn yfir alla Himna, Eph. 4. v. 10. Himin kallast fyrst Lopted edur Skyenn er vier siaaum, til hvers Christur meinar segiande; Lijted a Fugla Himinsins, Matth. 6. v. 26. Af þessum Himne giefur Gud Regn og Grooda, Devt. 28.

v. 12.

v. 12. Þarer og Festingar Himinenn, edur sa stirnde, um hvern Gud talade so til Abrahams: Lijt upp til Himins og tel Stiornurnar, Gen. 15. v. 5. Hier i þessare Hofud-Grein meinast ecke sa skapade Himin edur Himnar, helldur Tignarennar Himin, þad Hws, Lioos, Vellde, Dijrd og Lioome sem engenn Madur kann wtsegia, hvar Guds allra krøptugasta, ollu stioornande og allstadar nærverande Dijrd og Majestatis Vellde bygger, þangad er JEsus uppstijgenn, so hann uppfylle alla Hlute, Eph. 4. v. 10. Soddann Dijrdar-Vist og Himneska Jerusalem med eilijfum Fognude og Glede Omælannlegre eiga Utvallder aller fyrer Hondum, og munu þar hia DRottne vera eilijflega, og liooma þar sem Sool i Rijke Fodurs þeirra: Slijkt hefur oss JEsus afrekad. Adam lokade fyrer oss þessu Heimkynne, i sijnu hryggelega Falle; Hinn annar Adam Jesus upplauk þvi fyrer oss aptur, nær hann þangad stie i sinne miklu Dijrd, so ad lijka sem vier hofum bored Lijking þess Jardneska Adams, so munum vier og bera Lijking hinns himneska, og ei hefr þad nockurt Auga sied nie Eyra heyrt, hvad Gud hefr fyrerbwed þeim sim hann elska, 1. Cor. 2. v. 9. Þar af þerrar Hond DRottenns oll vor Augna-Tаar-þar er eingenn Kveinan fram-ar, eigi Dauden nie nockur Pijna, þetta hid fyrsta er þa forgeinged, Apoc. 21. v. 4. Hier til, O JEsu, sængar mijna Saal, og alla þijna elskulega, er so segia: Kom þu DRotten JEsu; Kom þu snar-lega,

lega! Þar til þesse Ost fullkomnast ekum vier þar uppi hiꝏ þier miñ HErra i Voneñe og Trwñe, og er þess fullviss af þier, ad þad Samband þverri ecke helldur aukist, og fullkomnest uñ siider.

3. Skallt þu hugfesta þad, mijn Sꝏl, ad þiñ Herra situr til Guds Hægre Handar, þad ꝏttu og ad skilia epter hañs Mañdoome; Og fyrer Guds Hønd, Hønd Guds Fødurs; Eun med þvi Gud er eiñ Ande, Joh. 4. v. 24. þa hefur hañ hverke Holld nie Bein, Hønd edur Foot, þo so sie ad Orde kveded, epter Mañlegre Vijsu, vegna vors veika Skilnings, þvi skilst nu fyrer hañs Hønd hañs Almætte, Luc. 22. v. 69. Hañs Kraptur og Yfirbürder yfer øllu, Ps. 118. v. 15. og 77. v. 11. Hañs allstadar Nærvera, Ps. 139. v. 10. Hañs Alvitska, Ebr. 4. v. 13. Hañs Tign og Majestatis Dijrd, Ebr. 1. v. 3. Og so sem þetta er nu sꝏ riette Skilningur epter Skrifteñe uñ Merking Guds Handar, so er og Frelsarans Seta ꝏ sama Veg skiliande, edur, ad hañ sie epter Mañdoomenum nærstur Gude ad allre Makt, Krapte, Yfirburdum, Nærveru, Alvitsku, Dijrd, Vellde og Stioornan allra Hluta ꝏ Himne og Jørdu, og þar sie engeñ Munur Christi Guddoomlegrar Nꝏtturu, nema hvad su Guddoomlega hefur af sier sialfri fyrer alla Eilijfd, þad hefur su Mañdoomlega ødlast i Tijmanum, fyrer Guddoomsins Jbwd, so nu er þad ecker sem hønum sie ecke undergiefid, Ebr. 4. v. 8. Gled þig nu, Sꝏl mijn, gled þig seige eg yfir slijku, Phil. 4. v. 5. ad þiñ Brooder JEsus stioornar bæde og rædur øllu ꝏ Himne og Jørdu, er og allstadar med þier og hiꝏ þier, hañ bidur fyrer þier, hañ er þijn Huggun moot Syndeñe, hañs Blood hroopar Nꝏd og Miskun yfir þier, hver kann þig þa ad ꝏklaga, Rom. 8. v. 33. Hañ er þijn Hiꝏlp og Huggun moot Dioflenum og øllu hañs Rꝏdaneyte, fiær og nær, upp og nidur og allt uñ kriing; Rꝏdslage þesser ꝏ moote þier, JEsus

Onijt-

Oniiter þau Rœd. Hañ er þijn Huggun moot Daudanum, þvi hvad er nu þiñ Dande ? Añad eñ þijn Himna-Før, hañ burtſlijtur þetta Samviſtar-Band Sœlar og Lijkama, leyſir frœ Lijkama þeſſa Danda; ſo ertu laus mijn kiæra Sœl, og med þad fer þu i Himneſka Sœlu: Og ſo ſem þad Oteliande Her, Himneſkra Guds Engla, umkrijngt hefur JEſu Chriſti þijns Broodurs Sigur Vagn i Himineñ; So verda þeir og eineñ þiñ Reiſu-Vagn i Himeneñ œ þiñe Burtferdar-Tijd; og þegar þu kvedur ſeinaſt Lijkamañ, ſijngia þeir ſo yfir þier burtfarande, under eins og þeir heſia þig i Himeneñ : Þetta er ſæ Madur ſem komeñ er wr miklum Harmkvœlum, og hefur yfirueñed fyrer Lambſins Blood : Eñ Guds Børn hier, yfir epterverande Mœkslldu Hreiſi: Hañs Mootlœti Hrygd og Mœda, hefur nu øll Ending gooda, etc. Nu, O HErra JEſu! So ſem eg af Hiarta vil treyſta og treyſte þier, fyrer allt gott, ſo bid eg þig, miñ Hiartans HErra, fyrer þitt Blood og Under, ſamt alla þijna Verdſkulldan, ad þu uñer mier, med øllum Guds Børnum, ſoddañ Endalyktar œ miñe Hierviſtar Mœdu, ſo eg eilijfañ Fognud med þier fæe. Mijn Von og Trw ſegier hier til Amen, þijn Trwfeſte og Sañleikur ſegier og hier til Amen, Jœ ſañarlega þad ſkal ſo vera. Eñ þier, hædſte HErra, ſem ert A og O, Upphaf og Ender, œſamt þijnum Himneſka Fødur og H. Anda, ſie Lof og Prijs, Dijrd og Speke, Packer og Heidur, Kraptur og Styrkleike, Amen, Amen, frœ Eilijfd til Eilijfdar,

A M E N.

Soli Deo Gloria

